# SAGNAKVER

---

ÚTGEFANDI

**BJÖRN BJARNASON**

FRÁ VIÐFIRÐI



ÍSAFJÖRÐUR
PRENTSMIÐJA STEFÁNS RUNÓLFSSONAR
1900

# Efnisyfirlit.

## Formáli.

»Mikill er sá Ánagangur!« mun margur hugsa er hann rennir augum yfir alla þjóðsagnahalarófuna, sem út hefur komið á Íslandi síðastliðin 40 ár. En þá mun honum þó fyrst þykja kastað tólfunum, er hann sjer þennan kveranga koma siglandi rjett í kjölfar stóra safnsins, er út kom hjá Sigfúsi Eymundssyni í fyrra. Það má vel vera að sá hinn sami, er svo hugsar, hafi mikið til síns máls. Valið getur verið misjafnt á stundum og meira slæðst með en mörgum þykir þörf á. Þó er betra að of miklu sje saman rakað en að einhver gullkorn glatist fyrir vanrækslu sakir. Að þjóðsagnasöfnun yfir höfuð sje æskileg ef vel er með farið, gjörist engin þörf að sanna hjer nje halda uppi hlífiskildi fyrir bókmenntalegum rjetti þjóðsagna. Augu manna hafa löngu opnazt fyrir gildi þeirra og vísindin tekið þær í þjónustu sína sem menningarspegla, sem ekki eru að vettugi virðandi. Hver sem vill öðlast nákvæma þekkingu hvort eð er á sinni eigin þjóð eða ann-

ari og gjöra sjer ljósa grein fyrir lyndisfari hennar, siðum og menningu, leitar til þjóðskáldskaparins sem einna fremstu heimildarinnar.

Þjóðskáldskapurinn er algjörlega háður breytiþróaninni í siðum og hugmyndalífi þjóðanna; hann skiptir blæ öld frá öld. Jafnóðum og hugmynd sú, er einhver sögn er byggð á, hverfur í fyrnsku, gjörir sögnin annað tveggja að falla í gleymsku eða taka myndbreytingu eptir kröfu hins nýja tíma. Hins vegar rísa upp nýjar sagnir, er fela í sjer myndir úr hinum nýja hugsjónaheimi þjóðarinnar. Þótt efni sagnanna opt og einatt sje gamalt, bera þær þó jafnan innsigli þess tíma er þær lifa á. Til þess nú að þjóðsagnirnar komi að fullum notum sem skuggsjá alþýðlegrar menningar, er sýna megi framþróan hennar stig af stigi, þurfa að vera til söfn öld fram af öld, jafnvel frá hverju hálfaldartímabili.

Það er nú liðin hálf öld síðan þeir Jón Árnason og Magnús Grímsson söfnuðu í hið ágæta safn sitt. — Á þessu tímabili hefur margt breyzt, jafnt í þjóðsagnasmíð sem öðru. Áhrif útlendra menntastrauma hafa verið tiltölulega mikil á síðari hluta aldarinnar, og forneskjuandi og hjátrú farið sí-

minnkandi. Hin myrkasta hlið þjóðtrúarinnar, galdra- og drauga-trúin, hefur látið ásjást að miklum mun. Hin núverandi draugatrú er mjög keimlík andatrú þeirri, sem tíð er um alla Norðurálfu. Þar eru svipir, vofur, fyrirburðir. Engir uppvakningar, engir líkamlega rammagnaðir draugar, er vaða fram sem berserkir og drepa menn og fjenað. Nú þurfa konurnar aldrei að skammta apturgöngum eins og títt var í fyrri daga. Verulega mergjaðar draugasögur eru sjaldheyrðar nema gamlar sjeu. Sakir þess að fornsögulestur er nú mjög farinn að leggjast niður, hafa hugir manna fjarlægst fornöldina meir og meir; meðal annars hefur af því leitt, að myrkri hefur brugðið yfir hið eldra samhengi á milli íbúa hjátrúarheimsins. Tröllum og álfum fóru menn snemma að rugla saman og nú er þar allt komið í einn glundroða; því bregður meira að segja víða fyrir, að draugum og álfum er skipað á sama bekk, enn fremur útilegumönnum og tröllum. Æfintýraskáldskapurinn hefur og sjálfsagt breyzt mikið. Annars vegar hefur hann dregið töluverðan dám af útlendum sögum. Einkum hefur »Þúsund og ein nótt« litað mjög frá sjer. Dæmi þess er hjer í kverinu, byrjunin á sögunni af »Borginni fyrir austan tungl og

sunnan sól«, sem annars er af mjög dreifum rótum runnin (sbr. Östenfor Sol og vestenfor Måne) *). Hins vegar bar nú mjög mikið á tiltölulega ungri grein af æfintýrum, sem hefur að efni utanferðir ungra manna af Íslandi með frakkneskum fiskiskútum og frægðarverk þeirra austur og suður um heim. Aðalheimkynni þessara sagna er á Austfjörðum. Enn er ein tegund æfintýra, sem er harla algeng nú og ekkert sýnishorn hefur komið af í þeim söfnum, er út hafa komið. Það eru eins konar siðferðislegar dæmisögur (sbr. Ríki og fátæki bóndinn), snotrar sögur og rammíslenzkar.

Ef gjöra ætti grein fyrir öllum þeim breytingum, er orðið hafa á íslenskri þjóðsagnasmíð á síðari hluta aldarinnar, þyrfti að vera til nýtt safn, er hefði eingöngu inni að halda sögur af munni núlifandi manna. Söfn þeirra Ólafs Davíðssonar og Dr. Jóns Þorkelssonar eru mestmegnis eptir handritum. Sú hugsun að fá sýnishorn af ástandinu eins

*) Margar eru missagnir af þessari sögu, einkum um þau tvö atriði, hvernig verið hafi útlits umhverfis á leiðinni til hallar skýjakonungsins, og hvernig kongsson fann konu sína og náði sætt við tengdaföður sinn.

Misprentast hefur nafn sögukonunnar: Guðríður fyrir Guðrún.

og það er nú í þjóðsagnalegu tilliti, var það er vakti fyrir mjer er jeg tók að safna sögum fyrir nokkrum árum. Og þótt jeg hefði aðstoðarmenn víða um land, var jeg þó kominn skammt á leið með söfnunina, er jeg fjekk að vita um safn það, er Sigfús Eymundsson ætlaði að gefa út. Sá jeg þá að bezt mundi að lægja seglin fyrst um sinn og bauð Sigfúsi nokkuð af því, er jeg hafði safnað; en hann kvað söfnin auðug af þeim varningi og vildi lítið gefa fyrir. Ljet jeg mjer þá nægja að gefa út smákver þetta, fremur að gamni mínu en með þeirri ætlan, að jeg á þann hátt legði nokkurn skerf til íslenzkrar þjóðsagnafræði eða gengi nokkuð skref í áttina til að framkvæma þá hugsun, er fyrr er á vikið. Í þessu litla kveri hefur mjer ekki einu sinni verið unnt að hafa það eitt fyrir augum, hvaða sögur væru einkennilegastar, heldur het jeg miklu fremur orðið að taka tillit til þess, hverjar skemmtilegastar mundu aflestra. Þess vegna er hjer líka tekin upp ein saga eptir Konr. Maurer's Isl. Volks. Enn fremur vildi jeg að kverið yrði sem fjölskrúðugast að innihaldi, en af því leiddi, að þá gat ekki orðið um eiginlega flokkaskipun að ræða, þar sem ekki er nema ein eða tvær sögur af hverri tegund.

Að endingu þakka jeg öllum þeim, er hafa verið mjer hjálplegir með sögur, enda þótt flestar þeirra verði að bíða betri tíma.

Isafirði 19. júlí 1900.

**Björn Bjarnason.**

# Ólafur muður.

(Eptir hdr. Kr. realstúd. Guðnasonar. Sögum. Anna Sveinsdóttir, Húsavík).

Einu sinni bjuggu hjón í Skagafirði, út við sjó. Þau áttu engin börn. Þess er getið að þau tóku til fósturs fátækan dreng, sem Ólafur hjet. Hann var snemma bráðgjör og hinn efnilegasti, og er svo sagt, að 12 ára væri hann svo stór og sterkur sem fullorðnir menn; unni bóndi honum mikið.

Nú líður fram, þar til hann er 18 vetra. Tekur þá að leggjast á sá orðrómur, að ófært sje yfir Kjalveg; hverfa ferðamenn sumir með öllu, en þeir, er komast leiðar sinnar, eru flestir ærir og örvita. Og um sömu mundir hverfur fje allt úr Drangey á Skagafirði, en menn allir drepnir, sem eptir leita. Sama haustið, og þetta kom fyrir, vantaði fóstra Ólafs óvenjulega margt fje af fjalli. Ólafur býðst til að leita eptir því, en bóndi telur úr, svo ekki verður af. Næsta sumar hverfur nær því helmingur af ám bónda úr kvíunum, og veit enginn hvað af þeim hefir orðið. Vill Ólafur nú strax fara að leita, en bóndi

1

latti þess, sagði sjer þætti líklegt að ærnar kæmi í göngunum um haustið; en svo líður fram yfir allar göngur, að ærnar koma ekki. Vill Ólafur nú fara, hvað sem hver segir, og þótt fóstri hans letji þess, býst Ólafur ekki að síður. Bóndi vill þá fá honum menn til fylgdar, en það vill Ólafur ekki; segir að sjer segi svo hugur um, að ekki muni tjeð finnast frekar, þótt fjölmenni komi til. Býr Ólafur sig nú af stað með vikunesti. Hann gengur fyrst upp til dala og leggur síðan á óbyggðirnar; ráfar hann þar lengi og verður einskis var. Loks slær yfir hann þokum miklum; fer hann þá villur vega og hvarflar fram og aptur um heiðarnar, þar til er komið er að þrotum nesti hans. Þykir honum nú óvænkast um sinn hag; samt heldur hann áfram, þar til er fyrir honum verður ás einn. Hinumegin við hann er dalur ekki djúpur. Þar gengur hann niður og yfir dalinn þveran; taka þar við háir hamrar; hefir hann þá gengið af sjer skó og sokka og þykir kalt að etja berum fótum við klakann. Sezt hann því niður og reynir að lagfæra á fótum sjer; vefur nú sokkarifrildunum um fætur sjer og býst um, sem föng voru til. En í því hann er að fást við þetta, kemur hann auga á ljós, sem logar langt inn með hömrunum; tekur hann það nú til ráðs að stefna þangað. Ept-

ir því sem hann gengur lengra, skýrist ljósið og stækkar fyrir honum, og loks kemur hann að dyrum, sem honum finnst að liggi inn í bergið; stendur þar kona og heldur á ljósi í hendi. Hún er vel klædd, í rauðum upphlut, reimuðum, með silfurmillum á; hún er á að gizka á meðalaldri, þjettvaxin og býður af sjer góðan þokka. Hún ávarpar Ólaf með nafni og býður hann velkominn; segir honum muni vera þörf á hvíld og býður honum inn með sjer. Ólafur var orðinn svo þrekaður, að hann sá ekki annað vænna en þiggja boðið, þótt ekki væri laust við að hann væri hálf smeykur við að ganga inn í bergið. Gengur hann samt inn eptir konunni, og ekki lengi áður þau koma inn í hús eitt; eru þar járngrindur sterkar til annarar handar, og innan við þær er maður, ef mann skyldi kalla. Hann var afarmikill vexti, digur sem naut og blár sem hel; og tekur hann að brjótast um og froðufella þegar hann sjer komumann. Konan segir þá, að ekki muni honum verða vært hjer; fylgir hún honum síðan upp stiga og á lopt, sem yfir var húsinu; var þar rúm uppbúið; dregur hún þá af honum plöggin og hjálpar honum til rúms. Síðan sækir hún mat og setur fyrir hann. Ólafur segist að vísu vera svangur og syfjaður, en ekki þó svo,

að sig langi ekki meira til að vita, hvar hann sje niður kominn. Hún segir honum þá, að hann sje kominn til huldufólks, og það af sínum völdum. Segist hún skuli segja honum orsökina til þess. Hún byrjar þá á því, að faðir sinn hafi heitið Hallmundur, en Hallgerður móðir. Sjálf heiti hún Hallný, og eigi systur eina, Hallgerði að nafni; sje móðir þeirra dáin fyrir nokkru. Því næst segir hún, að þar í grenndinni hafi búið hjón ein barnlaus; hafi þau tekið stúlku eina til fósturs, Þorgerði að nafni. Hún hafi brátt numið ýmsar galdralistir; hafi hún snemma verið bæði ágjörn og illviljuð, og loks drepið fósturforeldra sína, til þess að geta ein ráðið yfir eignum þeirra. Að því búnu hafi hún farið til föður síns og viljað giptast honum, en hann hafi tekið því fjarri; sömuleiðis hafi Hallgerður systir sín lagt á móti því, en sjálf sagðist hún aldrei hafa lagt neitt til þessa, því hún hafi strax sjeð að það mundi draga dilk á eptir sjer; enda hafi það brátt komið í ljós, því við þessa mótstöðu þeirra hafi hún lagt það á Hallgerði, að hún skyldi verða hið skæðasta tröll og byggja Bláfell á Kili, og firra alla ferðamenn, sem um veginn færi, viti eða lífi, og skyldi hún aldrei losna úr þeim álögum, fyr en einhver mennskur maður gæti sagt henni

nafn hennar. En föður sinn hafi hún leikið eins og hann hafi sjeð, því það sje maðurinn í járngrindunum. Þá segir hún, að eptir þetta hafi Þorgerður stokkið út í Drangey og slegið hendi sinni á allt fje, sem þangað hafi komið, en drepið menn alla, sem eptir því hafi sótt; og hafist hún nú við norðan í bjarginu og sje hið versta flagð.

Svo heldur álfkonan áfram, og segir, að það sje hún sjálf, er valdið hafi fjártapi bónda; hafi hún seitt það til sín, í því trausti, að Ólafur mundi eptir leita; kvaðst hún hafa sjeð hann líklegastan til að ráða bót á böli þessu. Kveðst hún hafa fjeð allt í sinni varðveizlu, og kvaðst nú skulu fá honum það með tölu, ef hann vilji freista þess, að frelsa systur sína. Ólafur játar þessu. Hún kveðst nú skulu leggja ráð með honum; skuli hann nú, er hann komi heim, bjóðast til að fara til fiskikaupa suður á land og fara Kjalveg; muni hann þá finna systur sína. Ólafur játar þessu. Býður hún honum nú góða nótt og sefur hann vel um nóttina. Um morguninn færir hún honum fjeð og vantar þar ekki kind í tölu. Fylgir honum síðan, þar til er sjest í byggðina og kveður hann vel og árnar honum allra heilla.

Þegar Ólafur kemur heim, fagnar bóndi

honum vel og spyr hann, hvar hann hafi fundið tje sitt. Ólafur kvaðst hafa tínt það saman hjer og hvar um heiðarnar.

Skömmu seinna kemur Ólafur að máli við bónda og segist vilja fara skreiðarferð suður á land. Bóndi tekur því vel, segir hann muni ætla suður með sveitum. Ólafur segist ætla suður yfir Kjöl. Bóndi spyr, hvort hann sje með öllum mjalla, hvort hann hafi ekki heyrt að ferðir allar sje lagðar niður um þá leið sökum trölls þess, sem þar hafist við. Ólafur segist halda, að það sje ekki nema hjegiljur tómar, og býr sig nú hvað sem hver segir með hesta og allan útbúnað og leggur á stað. Segir nú ekki af ferðum hans, fyr en hann kemur suður að Bláfelli á Kili. Kemur þar tröllkona ærið hrikaleg á móti honum og ávarpar hann þannig:

»Ólafur muður,
ætlarðu suður?
Ræð jeg þjer, rangkjaptur,
að þú snúir heim aptur«.

Ólafur bregður sjer ekki við, en segir:

»Sittu heil á hófi,
Hallgerður á Bláfjalli«.

Þá svarar tröllkonan:

»Fáir kvöddu mig svo fyrri.
Farðu vel, ljúfurinn ljúfi«.

Heldur Ólafur nú alla leið suður og kemur þar á undan öllum Norðlingum. Urðu sjómenn syðra fegnir smjöri hans og fekk hann því góð kaup. Gerir hann nú sýslungum sínum orð, að þá er þeir komi, sje þeim óhætt að fara Kjöl norður um, því sig hafi ekki sakað. Eptir það heldur hann heim. Þykist bóndi nú hafa hann úr helju heimtan, og spyr, hvort ekkert hafi borið fyrir hann í ferð hans. Ólafur neitar því. Nokkru seinna spyr hann bónda, hvort ekki muni óhætt að láta fje út í Drangey, því að líklega sje það sömu lygasögurnar, sem þaðan berist, og áður hafi borizt af Kili. Bóndi telur úr sem fyr, en Ólafur segist þá ætla að láta sínar kindur út í eyna. Því næst býr hann sig og hefir með sjer tvo menn til fararinnar, en tekur öxi sjer í hönd og hefir nú í hyggju að finna Þorgerði. Róa þeir nú til eyjarinnar og leggja þar að landi; segir Ólafur þeim að bíða sín við bátinn, en sjálfur gengur hann þangað, sem honum er vísað til Þorgerðar. Í einum stað verða fyrir honum stallar norðan í bjarginu; þar gengur hann upp og lýstur á bergið. Eptir nokkra stund er lokið upp berginu, og kemur út kona ærið stórskorin og tröllsleg. Hún varpar kveðju á Ólaf með nafni. Ólafur tekur því illa og biður hana

aldrei þrífast. Lætur hún þá ekki lengi eggjast og biður hann hafa stærstu óþökk fyrir öll afskipti sín af þeim málum, sem sjer komi einni við. Kvaðst hún þekkja hann vel og lengi hafa óttazt, að hann mundi sjer óþarfur verða, en úr því hann sje nú einu sinni svo heimskur, að hafa gengið á sitt vald, skuli hún launa honum fíflskap sinn. Segist hún þá leggja það á hann, að hann verði holdsveikur þegar í stað og skuli honum það aldrei batna, nema hann fái að sofa heila nótt hjá göfugustu stúlkunni, sem til sje í sinni ætt, en það muni líklega seint verða. Ólafur varð sem höggdofa við þessa ræðu og getur hvorki hrært legg nje lið. En er hún hafði lokið rausinu, hrindir hún honum ofan fyrir bergið og fellur hann við það í óvit.

Nú er að segja frá því, að förunautum Ólafs fer að leiðast biðin; fara þeir nú að leita hans, og finna hann loks mjög máttfarinn og tosa honum í bátinn. Smám saman bráir þó nokkuð af honum, en þá eru fallin svo mikil þyngsl á hann, að hann má ekki á heilum sjer taka, og er ekki að orðlengja það, að hann er holdsveikur orðinn, og leggst strax sem hann kemur heim. Bóndi verður nú mjög hryggur og spyr Ólaf, hvað þessu muni

valda, en hann segist enga orsök vita til þess. Liggur hann nú þennan vetur allan, en er fram á sumarið kemur, ljettir honum ögn; vill hann þá fara að rölta eitthvað milli næstu bæja til að vita, hvort hann geti ekki frískað sig á því. Fóstri hans telur úr því, segist opt ekki hafa viljað sleppa honum frá sjer heilbrigðum, en nú vilji hann þó enn síður láta hann frá sjer sjúkan. Samt fer svo, að bóndi lætur tilleiðast og skreiðist Ólafur á flakk; er hann fyrst að smárölta kringum bæinn, og vill svo eptir nokkurn tíma fara til næstu bæja, og muni hann verða í burtu um tíma. Svo leggur hann af stað og hefir stuttar dagleiðir; heldur hann upp til dala, sem fyr, og ætlar nú að leita á náðir þeirra systra, ef vera kynni að eitthvað skipaðist um sinn hag. Þegar hann kemur á fremsta bæinn í dalnum, hvílir hann sig þar vel, og leggur síðan af stað í þá átt, er honum sýnist vænlegast. Gengur hann nú langa lengi, þar til er hann kemst um síðir og eptir langa mæðu í dal þann, sem áður var nefndur, og er þá komin dimmviðrishríð. Sjer hann nú, að í sömu átt og fyr bregður fyrir tveim ljósum. Þangað stefnir hann og kemur um síðir að hinum sömu dyrum og fyr. Standa þar nú tvær konur og heldur á sínu ljósinu hvor·

þeirra. Þær taka honum tveim höndum og þekkir hann þar Hallgerði, sem hann leysti úr álögunum. Segir hann þeim nú allt um sinn hag og segist þurfa hvíldar við. Þær segja, að ekki megi hann svo skjótt inn ganga, því það sje föður sínum áskapað, að ef hann sjái mennskan mann í þriðja sinn, eigi hann að brjóta grindurnar og ráðast til glímu við hann. Láta þær hann nú setjast niður þar í dyrunum og bera honum síðan drykk. Hann svelgur hann allan og styrkist mjög við, síðan færa þær honum annan og þriðja og hressist hann nú skjótt. Síðan leiða þær hann inn og tekur karlinn þá að hamast og froðufella; líður ekki löng stund, áður hann brýtur grindurnar og ræðst á Ólaf. Eru átök þeirra hörðust í fyrstu, en þó smádregur af karli, þar til Ólafur fellir hann. Líður karl þá í ómegin og fellur af honum tröllshamurinn á gólfið; dreypa þær systur þá á hann köldu vatni og raknar hann þá við, en er þó svo máttfarinn, að hann má sig ekki hreyfa um kvöldið. Síðan fylgja þær Ólafi til rúms; sofnar hann skjótt og sefur fram á dag. Er þá Hallmundur klæddur og þær systur. Ganga þau nú öll til tals við hann og þakka honum innilega allan drengskap hans, en harma jafnframt forlög þau, er hann hafi ratað í

fyrir þeirra sakir. Segir hann nú öll tildrög til veiki sinnar og ummæli þau, er við liggi að honum batni. Hallmundur segir, að sjer þyki horfa þunglega málið. Segist að vísu renna grun í, hver stúlkan muni vera; þar muni ekki öðrum til að dreifa, en dóttur sýslumannsins, því hún muni bera langt af öllum konum í þeirri ætt; en það muni nú ekki vera auðgert að fá að sænga hjá henni, allra sízt þá er eins standi á og hjer. Segir þó skylt, að þau leggi allt það til með honum, sem þau megi. Vill hann nú að Ólafur dvelji hjá þeim um stund sjer til hressingar eptir ferðina. Það þiggur Ólafur og dvelur þar um hríð, en lítið ljettir honum og fær hann illa afborið sjúkleik sinn. Nokkru síðar segir Hallmundur við Ólaf, að nú vilji hann ekki tefja hann lengur. Segir hann að svo sje mál með vexti, að hann eigi hring einn, er fylgt hafi ætt sinni frá ómuna tíð; það sje hin mesta gersemi og hafi sýslumaðurinn opt falað hann, en aldrei fengið; nú kveðst hann vilja láta hringinn lausan, ef Ólafi mætti það að liði verða. Kveðst hann hafa skrifað sýslumanninum brjef og lagt þar að honum, að duga Ólafi, en innan í brjefið hafi hann látið hringinn, og skuli hann svo afhenda sýslumanninum brjefið sjálfur. Síðan koma þær

systur, önnur með armband, en hin með belti, hvorttveggja hinar mestu gersemar; segja þær honum, að sýslumannsdóttirin hafi opt beðið um þessa gripi, en aldrei fengið, segjast þær nú senda gripina til fulltingis honum. Að því búnu fylgja þau honum á leið öll saman. Segja þau honum að ganga fyrst inn með hömrunum, þar til er dalnum ljúki. Þar beygist björgin í hring og þar við dalbotninn sje heimili sýslumannsins. Skuli hann drepa þar á bergið, sem hann sjái rauðar rákir, því að þar móti fyrir hurðum. Síðan kveðja þau hann og árna honum allra heilla. Heldur hann nú inn með hömrunum langa lengi, og loks fer að líða á daginn; sækir hann þá þreyta og máttleysi svo mikið, að hann kemst varla úr sporunum. Þó kemur þar um síðir, að björgin beygjast fyrir dalbotninn og sjer hann þar móta fyrir rákum í bergið. Þangað dregur hann sig og drepur á dyr. Lýkst þar upp hurð og þjónn sýslumanns kemur til dyra. Ólafur heilsar honum og spyr eptir sýslumanni. Þjónninn segir hann vera genginn til hvílu, og spyr, hvort honum liggi á að finna hann í kvöld. Ólafur segir, að þar liggi ef til vill líf sitt við. Þjónninn leiðir hann þá inn í herbergi eitt og segist skuli finna sýslumanninn, en óvíst sje,

hvort erindið fái fram að ganga í kvöld; síðan gengur hann burt.

Ólafur er nú svo yfirkominn af þreytu, að hann hnígur niður á stól þar á gólfinu, og finnst að hann muni falla í svefn þá þegar. En ekki líður á löngu áður hurðin opnast og inn kemur maður alvarlegur í bragði; hann er á rauðum kjól, einkennisklæddur, og þykist Ólafur vita að þetta sje sýslumaðurinn. Hann heilsar honum og þreifar síðan í barm sjer eptir brjefinu og rjetti honum. Sýslumaður brýtur upp brjefið og virðist Ólafi, að hann hýrna á brún, er hann lítur hringinn. Les hann brjefið yfir tvisvar sinnum, en að því búnu lítur hann á Ólaf og segir: »Miklar mætur hefir Hallmundur vinur minn á þjer, og allmikið kapp leggur hann á að fá liðsinni mitt, þar sem hann sendir mjer ótilkvaddur þann grip, sem aldrei var laus fyr við nokkru verði«. En það segir hann Ólafi jafnframt, að þó hann fái liðsinni sitt, þá sje engan veginn víst að dóttir sín láti að orðum sínum, þegar um slíkt sje að ræða. Síðan gengur sýslumaðurinn út, en þjónninn kemur aptur og býðst til að fylgja Ólafi til rúms. Leiðir hann hann nú inn í annað herbergi; þar var snoturt rúm uppbúið. Hjálpar þjónninn honum síðan úr fötunum. En í því bili sem Ólafur er

að afklæðast, kemur þar stúlka í herbergið; hún var fríð sýnum, en döpur í bragði, og það þóttist Ólafur sjá, að hún hafði grátið. Verður honum það þá fyrst fyrir, að hann færir henni beltið og armböndin, og segir, að henni sje sent það að gjöf. Að því búnu hnígur hann út af og sofnar og veit ekki til sín, fyr en hann vaknar um morguninn og er þá alheill. Hafði líkþráin fallið svo gjörsamlega af honum, að hann kenndi sjer einskis meins, en í kringum hann lágu hreisturhaugar í rúminu, sem fallið höfðu af líkama hans, en yfir honum stendur dóttir sýslumannsins og hefir dreypt á hann köldu vatni. Verður hann nú alls hugar feginn og þakkar henni ástúðlega fyrir hjálp sína og lítillæti og segir henni upp alla söguna. Síðan kemur sýslumaður og býður honum góðan dag. Þakkar Ólafur honum sömuleiðis liðsinni sitt. Sýslumaður býður honum með sjer að vera, segir að hann muni þurfa hvíldar með eptir alla hrakningana. Ólafur þiggur það, og fer svo, að hann dvelur hjá honum þann vetur allan í góðu yfirlæti. Kann hann mæta vel við sig og fer nú að draga saman með honum og sýslumannsdóttur, því meir sem lengra líður á veturinn. Sitja þau opt að tafli saman og við spil. En hjá sýslumanni nemur hann ýmsar fræðigreinar, mest lögvísi. Er sýslumaður

hinn vingjarnlegasti við hann og slær upp á því, hvort hann vilji ekki ílengjast hjá sjer: segir að honum sje það kunnugt, að hann eigi dóttur sinni það að þakka, að hann hafi náð heilsu sinni aptur, en af því það hafi orðið með slíkum atburðum, þá megi hún naumast halda mannorði sínu, ef hann gangi ekki að eiga hana; segist hann fyrir sitt leyti ekki standa á móti því. Ólafur kvað þetta ekki fjarri skapi sínu, og fer það svo, að þau heita hvort öðru órjúfandi tryggð. Er Ólafur nú orðinn svo samrýndur huldufólki og ánægður með sinn hag, að hann hafði aldrei þar komið, að honum þætti jafngott.

Eitt sinn um veturinn hefur sýslumaður máls á því, að ekki muni annað duga, en að ráða Þorgerði af dögum; segir að tröllskapur hennar sje svo mikill, að hún muni þeim öllum á knje koma fyr eða síðar, ef ekki sje aðgjört. Hann kvaðst að vísu hafa dulið það fyrir henni, hvar Ólafur sje niður kominn og eins hitt, hvað þeir hafi nú í hyggju, en ekki muni það duga til lengdar. Eggjar hann Ólaf til þessarar ferðar, en sjálfur kveðst hann vilja leggja ráðin á. Hann segir að hann skuli leggja á stað þá er þrjár nætur sje til sumars, og skuli hann fá honmu þrjá menn til fylgdar, er flýti ferð hans og rói hann út í eyna, en þangað skuli hann koma á sumardagsmorguninn fyrsta, því að þótt Þor-

gerður sje margvís, þá muni hún fæst vita þann morgun. Þegar þar sje komið, skuli hann ganga á hlið við hellismunnann og staðnæmast þar, til þess að verða ekki fyrir sjónum Þorgerðar, þá er hún komi út, því svo sje hún ljósfælin, að ekki muni hún horfa annað en í norður, skuli hann þá vera viðbúinn að höggva hana strax, því það verði hans bani, ef hún nái að kasta á hann orðum. Ólafur kveðst vera fús að reyna þetta. Þegar þrjár nætur eru til sumars, býst hann á stað og þeir fjelagar hans. Fylgir sýslumaður þeim á leið og fær þá Ólafi vopn biturt og segir, að það muni bíta á Þorgerði. Ólafur þakkar honum alla góðvild sína. Síðan kveðjast þeir og heldur Ólafur leiðar sinnar. Segir nú ekki af ferðum þeirra, fyr en þeir koma til eyjarinnar og ganga þar á land. Lætur Ólafur förunauta sína gæta bátsins, en sjálfur gengur hann að helli Þorgerðar, eins og fyrir hann var lagt, og lýstur á munnann. Ekki líður á löngu, áður hellirinn lýkst upp. Kemur Þorgerður út og glennir sig mót norðri og spyr, hver kominn sje. Ólafur svarar engu, en reiðir upp sverðið og höggur à háls henni, svo að fauk af höfuðið. Síðan brenna þeir skrokkinn til kaldra kola og kasta öskunni út à sjó; róa síðan til lands. Þakkar Ólafur þeim fyrir liðsinni sitt, og segir að þeir muni nú skilja að sinni. Heldur

hann svo heim. Verður bóndi fegnari en frá megi segja, er hann sjer Ólaf heilbrigðan, og spyr nú margs um ferðir hans. Ólafur var fáorður um það, og sagði engum manni neitt af högum sínum. Dvelst hann nú heima um sumarið og er heldur fályndur og hljóður; þykir fóstra hans það mein mikið. Vill hann helzt að Ólafur fari að festa ráð sitt og fá sjer konu, en Ólafur tekur því fjarri og segist ekki binda sig konu fyrst um sinn; finnst bónda hann vera orðinn breyttur mjög og annars hugar en fyr.

Ólafur fer nú í kyrþey að smala saman eigum sínum og verja þeim í peninga, og hefur hann lokið því um haustið. Þá er það einn dag, að hann býst til ferðar; kallar hann bónda til tals við sig og segir honum í fám orðum allt um sinn hag. Bónda varð hverft við þessi tíðindi, en sjer þó að hann fær ekki að gjört.

Ólafur gengur nú fyrir hvern mann og kveður innilega; voru allir hryggir yfir brottför hans.

Síðan leggur hann af stað, og vissi enginn, hvert hann fór; enda sást hann aldrei síðan.

---

# Huldukonuhefndin.

[Saga sú, er hjer fer á eptir, gerðist einhvers staðar á Vestfjörðum, en ekki man jeg lengur að tilfæra, hvar eða hvenær, enda er óvíst, að það hafi nokkurn tíma fylgt sögunni hjá þeim, er sagði mjer hana. Mannanöfn og öll atvik, er koma fyrir í henni, held jeg aptur á móti að jeg hermi rjett. Á. H.]

Innantil í N . . firði bjó ekkja ein, er Ketilríður hjet; hún var mesti búforkur og atorkukona, en nokkuð þótti hún einþykk og þjett í lund. Ketilríður þessi átti son einn, Sæmund að nafni; hann var einbirni og kominn undir tvítugt, er saga þesssi gerðist. Nokkuð agasöm hafði Ketilríður þótt við Sæmund í uppeldinu, og kom það snemma fram í fari hans; hann varð fáskiptinn og fálátur og fór jafnan einförum; ágerðist þetta nokkuð með aldrinum. — Svo háttaði til þar, er Ketilríður bjó, að það var nærri sjó og gengu dimmir drangar út með lendingunni. Var það mál manna, að huldufólk byggi í dröngum þessum, og var það ekki fjarri Ketilríði sjálfri að festa trúnað á það. Nú lagði Sæmundur einmitt tíðast leið sína niður að dröngunum, og sáu menn það til hans, að hann var opt að klifra þar í klettunum. En ofan til í dröngunum var skál í hamrana, og þegar þar var komið, hvarf maðurinn sjónum, því klettabogi lukti

fyrir landmegin. Þessi skál var uppáhalds áfangastaður Sæmundar; þar dvaldi hann löngum, stundum daglangt, og ágerðist það svo, að heita mátti að hann hefði allt af annan fótinn niðri í dröngum. Ketilríði hugnaðist lítt, þegar á leið, atferli þetta, og einn góðan veðurdag tók hún son sinn á eintal og gekk fast á hann; bað hann segja sjer, hvað hann hefðist þarna að öllum stundum. Sæmundur sagði fátt af, en ljet sem sjer þætti skemtilegt að sitja uppi í skálinni; sæti hann þar ýmist í eigin hugleiðingum eða hann væri að »dunda« eitthvað í höndunum, t. d. að tálga spýtu, eða hann sæti aðgerðarlaus og horfði út á fjörðinn. Ketilríði leizt þetta allótrúlegt, en fjekk ekkert frekar upp úr honum, og ljet það því gott heita. Sæmundur fór sínu fram eptir sem áður, en hagaði því þó helzt svo, að móðir sín vissi ekki af, er hann færi frá bænum. Ketilríður hafði samt vakandi auga á honum, þótt lítið bæri á, og einu sinni, er hún sá Sæmund hverfa upp í skálina, fór hún í humátt á eptir honum, ef verða mætti, að hún yrði einhvers vísari. Hún læddist upp í skálina, en þar var Sæmundur hvergi; heyrði hún þá mannamál úr berginu og þóttist þar kenna rödd sonar síns; var hann venju fremur blíðróma, enda var það

þýð stúlkurödd, er undir tók. Ekki heyrði Ketilríður orðaskil, en þó þótti henni nú tekin af öll tvímæli um athæfi Sæmundar. Ketilríður fór nú leiðar sinnar heim; hún hafði ekki mörg orð í frammi við Sæmund, er hann kom heim seinna um daginn, en morguninn eptir mannaði hún bát og sigldi alla leið út eptir firði. Hún linnti ekki ferðinni, fyr en hún kom að yzta bænum í firðinum. Þar bjó röskur maður og velmegandi, er Björn hjet, og átti hann eina dóttur barna, Helgu að nafni. Þau Helga og Sæmundur voru fermingarsyskin og höfðu gengið saman til prestsins. Nú skiptir það engum togum, að þegar Ketilríður kemur að máli við Björn bónda, hefur hún bónorðs og biður Helgu til handa syni sínum. Björn tekur því alllíklega, og eins dóttir hans, en það þykir mönnum kynlegt, að sjálfur biðillinn skuli ekki vera með í förinni. Ketilríður hefur þar skjót svör um og segir, að hann sje nú ekki þesslegur, hann sonur sinn, að hann hafi einurð á að biðja sjer stúlku, en sjálfur skuli hann þó sækja Helgu að hálfsmánaðar fresti, ef hún lofist honum og vilji koma í kynnisför til tilvonandi tengdaforeldra sinna. Helga fái víst leyfi til að vera mánaðartíma eða svo hjá sjer og unnustanum. –

Það er ekki að orðlengja það. Helga er þarna föstnuð Sæmundi og ákveðið, að hann skuli sækja hana á tilteknum tíma. Síðan situr Ketilríður í góðu yfirlæti hjá Birni það sem eptir var dags, og fer heim að morgni. Þegar heim er komið, tekur hún enn son sinn á eintal og segir honum hið ljósasta af ferðum sínum. Honum fellur þá allur ketill í eld og gengst nú við því, að hann sje í þingum við huldumey þarna niðri í dröngunum og að hann hafi lofað að eiga hana; hann vilji ekki fyrir nokkurn mun missa hana og geti því ekki lofast Helgu. Ketilríður segir að það loforð sje nú veitt, sig hafi lengi grunað þennan — eins og hún tiltekur; hún les nú yfir honum ófögur orð, en lýkur svo ræðu sinni, að eins og hann þekki, þá verði við það að standa, er hún hafi gert fyrir hans hönd; hún hafi gert það honum til góðs eins —, og hann eigi nú að sækja Helgu að hálfum mánuði liðnum. Svo slíta þau talinu. — Sæmundi þykir nú súrt í brotið, en sjer, að hann muni verða að láta síga undan ofríki móður sinnar, og eitthvað kynni þó heldur að verða undanfærið síðar, hyggur hann, ef hann sæki stúlkuna orðalaust og láti sem líklegast. Nánar gætur voru hafðar á því, að Sæmundur kæmist

ekki einsamall niður að dröngunum eptir það. — Nú kemur sá dagur, að Sæmundur á að sækja Helgu. Ketilríður mannar út bát og segir formanni, að hann skuli reyna að sæta góðu veðri heim aptur, og fara ekki af stað seinna en um dagmálabil, svo að hann nái vel heim í björtu. Hún biður hann að muna sig vel um þetta, og hann lofar því; síðan kveður hún son sinn og er þá venju fremur blíð í bragði og klökknar við kveðjurnar. Leggja þeir nú af stað að heiman, verða vel reiðfara og lenda heilu og höldnu hjá Birni um kvöldið. Þar fá þeir góðan greiða og dvelja þar til morguns. Að morgni er gott veður og stilt, og hyggja menn vel til ferðarinnar, en Helga verður síðbúin, og líður svo fram að hádegi, að hún er ekki tilbúin. Formanni koma þá til hugar orð Ketilríðar, og er nú á báðum áttum, hvort hann eigi að leggja af stað, en það ríður baggamuninn, að veðrið var alveg jafngott og um morguninn og að hann á hinn bóginn áleit þetta óþarfa varúð úr Ketilríði, af því að illt var að lenda við drangana í dimmu. Laust eptir hádegi er Helga albúin, svo að formaður leggur af stað með hana og Sæmund. Segir ekki af ferðum þeirra, nema það fer að blása lítið eitt á móti; seinkaði það ekki alllítið förinni, svo að

auðsætt var, að síðlent mundi verða; þó heldur formaður áfram öruggur. — Nú snýr sögunni heim á bæinn. Það var farið að dimma, og ekkert sást enn til bátsins; þó þótti ekki alveg útsjeð um, að hann kæmi, vegna þess, að hann var á móti þeim og hvessti heldur, er að kvöldi leið. En þegar þeir voru enn ókomnir um náttmálaleytið og niðamyrkur orðið, þá taldi Ketilríður það alveg frá, að þeir hefðu farið af stað um morguninn, og skipaði hún hjúum sínum að ganga til svefns. Sjálf fór hún inn í svefnlopt sitt og háttaði. Ekki gat hún sofnað, en á hana sje óviðkunnanlegur höfgi, svo að hún var rjett á milli svefns og vöku. Eptir nokkra stund þykist hún sjá að ung stúlka fölleit kemur á skjáinn yfir rúmi hennar og fer að einblína á hana, þó heldur raunalega. Ketilríði verður svo við þetta, að henni finnst sem hún sje hneppt í fjötra; hún getur hvorki hrært legg nje lið, og langar þó til að fara á fætur; en ekki er um það að tala; augnaráð stúlkunnar hvílir á henni eins og eitthvert heljarfarg, sem hún getur ekki undan risið. Þegar stúlkan hefur horft svona á Ketilríði nokkra stund, mælir hún vísu þessa af munni fram, dræmt og raunalega:

Hjer í vörum heyrist bárusnari,
höld ber kaldan ölduvald á faldi,
sveltupiltar söltum veltast byltum,
á sólarbóli róla í njólu gjólu;
öflgir tefla afl við skeflurefla,
sem að þeim voga — boga — toga — soga!
En sumir geyma svíma í draumarúmi,
sofa ofurdofa í stofukofa.

Þegar stúlkan hafði farið með vísu þessa, hvarf hún af glugganum, og þá gat Ketilríður loksins risið á fætur. Þóttist hún af vísunni fara nærri um, hvað um væri að vera. Hún fleygði sjer í fötin í dauðans ofboði, kallaði á pilt, sem var heima fyrir, og sagði honum að klæða sig hið allra bráðasta og koma niður að sjó. Sjálf fór hún út í mesta flýti, og var þá komið aftakaveður. Þegar hún kom niður að sjónum, fann hún bát sinn brotinn í spón í malarkampinum, og rjett hjá, inn undir dranganum, kom hún auga á hrúku einhverja. Það var Helga, er sat á hækjum sínum í fjöruborðinu; hún var orðin vitskert; en fyrir framan hana lá Sæmundur rotaður, með heilann úti. Ekkert sást til hinna mannanna. Pilturinn, er Ketilríður hafði vakið, var kominn niður eptir; skipaði hún honum nú að bera Helgu heim, en sjálf tók hún lík Sæmundar í fang sjer og bar til bæjar.

Ketilríði gömlu fjellst svo mikið um þetta, að hún lagðist í rekkju og reis aldrei úr henni síðan. Skömmu fyrir andlát sitt sagði hún frá því, sem fyrir hana hafði borið þá um kvöldið og áður er greint. Einnig sagði hún frá því, að áður en hún sendi Sæmund til að sækja Helgu, hafi sig dreymt konu eina mikla vexti, er sagðist vera huldukona úr dröngunum. Hún ætti dóttur þá, er Sæmundur hefði lofazt, en Ketilríður ætlaði að fá hann til að svíkja, og því væri hún nú komin til að segja henni, að það skyldi aldrei lánast eða ella kosta líf Sæmundar. Út af þessum hótunum kvaðst Ketilríður hafa lagt svo ríkt á við formanninn að gæta vel veðurs og fara árla á stað. En þetta hafi nú brugðizt sjer og svo farið, sem sagan tjer; huldukonan hafi sent dóttur sína til að varna sjer vöku og koma í veg fyrir, að Sæmundi yrði bjargað. Þannig sagðist Ketilríði frá. Hún dó upp úr þessu, en þegar frá leið, fór Helga að ná vitinu aptur, og sagði hún frá því síðar á æfi sinni, hvernig báturinn fórst. Þau höfðu haft hann á móti allan daginn, og svo hafði hann rokið á um kvöldið, er þau nálguðust land, en formaðurinn vildi ekki láta þess ófreistað að lenda. Þegar þau komu inn undir drangana, sáu þau, hvar

kona, há og mikil vexti, stóð uppi á klettunum, hafði það þau áhrif á formanninn, að hann ærðist og stökk frá stjórn. Kvað Helga konu þessa hafa þulið einhverjar bölbænir yfir þeim, og sjerstaklega beint þeim að Sæmundi og sjer, en í því bili hafi hún misst rænuna og ekki vitað af sjer framar. — Lýkur hjer sögunni um huldukonuhefndina.

## Sagan af borginni fyrir austan tungl og sunnan sól.

[Að mestu eptir sögn Guðríðar Einarsdóttur á Grænavatni.]

Það var einu sinni kongur og drottning, er rjeðu fyrir víðlendu og voldugu ríki, og lifðu í auð og allsnægtum; þótti þeim ekkert á skorta hamingju sína nema það eitt, að þeim hafði ekki orðið barna auðið. Fjekk það þeim mikillar sorgar og það því fremur sem bæði voru hnigin að aldri, er hjer er komið sögunni, og ekki annað fyrir að sjá, en að ríkið yrði erfingjalaust eptir þeirra dag.

Grjet drottning opt í einrúmi yfir óbyrjuskap sínum og sneri sjer til drottins með heitri bæn um, að sjer mætti auðnast afkvæmi. Svo kom, að drottinn heyrði bæn hennar; varð hún barnshafandi og ól svein bæði mikinn og fríðan. Var þá uppi fótur og fit í öllu ríkinu; efndi kongur til dýrðlegrar veizlu og bauð til öllu stórmenni. Ljet hann kalla fyrir sig alla vitringa og stjörnufróða menn ríkisins; skyldu þeir segja fyrir um örlög sveinsins. Þeir fundu stjörnu hans og þóttust mega ráða af henni, að nærri tvítugsaldri mundi kongsson rata í eitthvert ólán út af ástasökum; en yrði því afstýrt, lægi lífsbraut hans ljós og fögur upp frá því.

Kongur ásetti sjer að koma í veg fyrir óhamingju sonar síns með því að uppala hann á þann hátt, að hann gæti enga vitneskju fengið um ást og enginn kynni haft af kvennlegri veru. Skyldi hann ekki hafa barnfóstrur nema til þess, er hann væri tvævetur. En er sá tími var liðinn, ljet hann flytja hann í kastala einn, er hann hafði gjöra látið á fögrum og afviknum stað eigi allskammt frá borginni. Skipaði hann fjölda þjóna til að gæta hans, og bað þá gjalda varhuga við, að nokkur óviðkomandi fengi að

koma í kastalann, allra sízt konur. Þegar kongsson var kominn svo vel á legg, að hann tók að þarfnast einhverrar fegurðar fyrir augað, er veita mætti yndi í einverunni, ljet faðir hans gjöra skrautlegan lystigarð umhverfis kastalann, svo mikinn og fagran, að vart gat slíkan í heimi. Var hann alsettur stórvöxnum aldintrjám með unaðslegum blómreitum og gosbrunnum á milli. En um garðinn lukti múrveggur svo hár, að ekki fjekk yfir komizt nema fuglinn fljúgandi.

Kongur fjekk syni sínum ágætan kennara, er skyldi veita honum alla þá uppfræðslu í bóklegum listum, er vel mætti sæma tiginbornu höfðingjaefni; en forðast skyldi hann fyrir alla muni að láta hann ná í nokkra þá bók, þar sem konu væri getið eða ástir gjörðar að umtalsefni. Skyldi líf hans liggja við, ef út af væri brugðið.

Svona ólst nú kongsson upp, til þess er hann var 15 vetra; aldrei mátti hann fara út fyrir múrana og aldrei sá hann aðra menn en þá, er í kastalanum bjuggu, og svo foreldra sína, þá sjaldan þeir komu að vitja hans; var þá drottning jafnan í karlmannsgervi; aldrei þorði hún að auðsýna sveininum nokkra blíðu, því að kongur hafði harðlega bannað henni það. Hugði hann að hjarta sonar síns yrði því ómóttækilegra fyrir ástir, sem hann

vendist minni viðkvæmni í æskunni. Þegar hjer er komið sögunni, hafði kongsson tekið svo miklum framförum, að enginn þótti hans jafningi á þeim aldri að allri atgjörvi. En brátt gjörðist hann undarlegur í skapsmunum; fór hann að jafnaði einförum í garði sínum og sökti sjer niður í grufl og hugleiðingar um veru náttúrunnar. Gat hann ekki komizt að neinni fullnægjandi niðurstöðu í því efni, og þóttist hvervetna finna mótsagnir og ósamræmi. Lagði hann opt allóþægilegar spurningar fyrir kennara sinn, en fjekk enga úrlausn. Hann leitaði þá til föður síns og tók að spyrja hann spjörunum úr um ýmsa agnúa, er hann þóttist finna á fyrirkomulagi tilverunnar. En kongur fór undan í flæmingi og svaraði öllum spurningum hans út í hött, svo að hann varð einskis vísari. Undi kongsson illa sínu ráði og þóttist skilja, að hjer væri ekki allt með feldu. Gjörðist hann af öllu þessu þunglyndur og óþýður í umgengni. Hann vítti föður sinn harðlega fyrir órjettlæti gagnvart sjer. Kvaðst eigi vita, fyrir hvaða sök sjer væri haldið í gæzlu á þessum einverustað sem örgum óbótamanni; en sárast af öllu þætti sjer þó, að geta ekki fengið fróðleiksfýsn sinni fullnægt, heldur væri spurningum sínum, sem eflaust væri auðvelt úr að leysa, synjað svars.

Krafðist hann þess með ákafa af föður sínum, að hann mætti vera frjáls ferða sinna og að sjer yrði ekki synjað þeirrar uppfræðslu, er í tje mætti láta. Kongur reyndi að sefa hann á allar lundir, en það kom fyrir ekki. Sá hann þá ekki annað ráð vænna, en að gefa honum í skyn, að allt þetta væri í góðri veru gjört, til þess að firra hann óláni, er fyrir honum hefði verið spáð innan við tvítugsaldurinn. »Haf því þolinmæði, sonur minn, þar til þú ert 20 vetra, þá skal ekki framar synja þjer svars nje hepta vilja þinn í neinu«. »Að litlu haldi munu ráð þín koma«, mælti kongsson; »ef mjer á annað borð er ætlað að rata í raunir nokkrar, mun hvorki þjer nje öðrum auðið að sporna við skapadómi forlaganna. Eða hvert er ólán það, er þú berð svo mjög kvíðboga fyrir?« Kongur mælti: »Það má jeg ekki segja þjer, því að þá væri hálfu verra við að eiga en áður; en hitt geturðu verið fullviss um, að bresti þig ekki þolgæði, skal þig ekkert illt henda«. Skyldu þeir svo talið, og þótti hvorugum vel. Varð nú færra með þeim feðgum en nokkru sinni áður; einræni og þunglyndi kongssonar ágerðist með degi hverjum

Þannig liðu tímar fram, að ekkert bar til tíðinda, þar til er kongsson var 18 vetra. Þá var það einn morgun um vorið, er aldin-

garðurinn stóð í blóma, að vökumennirnir, er garðsins áttu að gæta um nætur, urðu þess varir, að blómum hafði verið rænt úr garðinum og reitirnir troðnir niður. Vissu þeir eigi, hvað valda mundi, og báru sig því upp um það við kongsson. Hann varð styggur við, og kvað þeirra von og vísu, argra þræla, að svíkja ætlunarverk sitt; væri jafnvel ekkert líkara en að sjálfir væru þeir valdir að verkinu. Bað hann þá snauta burt sem fljótast og hótaði þeim hörðu, ef slíkt kæmi fyrir optar. Næstu nótt fór allt á sömu leið; átaldi hann enn þjónana harðlega og kvað engu öðru en vanrækslu þeirra um að kenna. Svo fór enn hina þriðju nótt, að allt af hvarf meira og meira af blómunum, og fengu vökumenn ekki að gjört.. Þótti kongssyni þetta kynlegt og einsetti sjer því að vaka sjálfur næstu nótt og vita, ef hann mætti verða nokkurs vísari um blómhvarfið. Um lágnæturskeið, er hann stóð við glugga einn á kastalanum og starði yfir garðinn, sjer hann, hvar þrír forkunnar fagrir svanir koma svífandi af suðri og setjast í toppinn á stóru forsælutrje í garðinum; hurfu þeir þar sjónum hans. »Þarna eru þá þjófarnir«, hugsaði kongsson með sjer, því að þessir fuglar voru ekki ella vanir að vitja þangað; »er nú auðsætt, hve trúlega þjónar mínir geyma garðsins; það mætti

þó sjá minna grand í mat sínum, en fuglana þá arna«. Hann bíður enn við gluggann og býst við, að fuglarnir muni bráðum koma aptur í ljós og leita þangað, er blómin voru. En í stað þess sjer hann, hvar 3 unaðsfagrar verur fara niður trjeð; miklu fannst honum verur þessar dýrðlegri sýnum en nokkuð, er hann hafði áður sjeð; þó ekki ósvipaðar mönnum. Þær höfðu blómkörfur í höndum, og var nú ekki lengur um að villast, að þær voru valdar að blómstuldinum. Þær nema staðar undir trjenu, en brátt hurfu þær eitthvað út í buskann, og mátti hann eigi sjá, hvað um þær varð. Þykir honum þetta kynlegt, og svo hitt, að ekki sást framar til ferða svananna. Kom honum nú til hugar, að hjer væri ekki allt með eðlilegum hætti, og mundu þær hafa skipt hömum og látið þá eptir uppi í trjenu. Hann eirir þá ekki lengur og vill verða nokkurs vísari um þennan undarlega viðburð. Hleypur hann niður í garðinn og rennur áleiðis til trjesins. Vökumönnum þykja kátlegar aðfarir hans, er hann hleypur þar á náttklæðunum, og vilja hepta för hans. En hann bað þá láta kyrt og hótaði þeim hörðu ella; kvaðst hann koma að vörmu spori aptur. Þegar hann kemur að trjenu, verður hann einskis var; klifrar hann því upp í toppinn, og finnur þar 3 geysistóra svanahami. Hann skoðar þá vandlega og sjer

að þeir eru hnepptir undir vinstra vængnum. Gengur hann nú úr skugga um, að hinar 3 engilfögru verur, er hann sá fyr, eigi hamina og hafi flogið þangað í þeim búnaði. Hann var ekki lengi á hvörfum með, hvað gjöra skyldi; tekur þann haminn, er mestur var og fegurstur, fer með hann til kastala síns og læsir hann þar niður í ramlega gjörðri kistu; skundar síðan aptur til trjesins og felur sig í þjettum runna skammt frá. Að lítilli stundu liðinni, sjer hann, hvar hinar ókenndu verur fara upp trjeð með fullar blómkörfur á handleggjunum. Leita þær þegar þangað, er þær höfðu eptir skilið hamina, en bregður heldur en ekki í brún, er einn þeirra er horfinn. Ráðgast þær nú um stundarkorn, hvað til bragðs skuli taka, og verður það úr, að tvær steypa yfir sig hömunum og fljúga burt, en ein verður eptir. Bíður hann nú ekki boðanna, fer úr fylgsni sínu og klífur upp trjeð. Hittir hann þar fyrir hina fögru veru; er hún mjög döpur í bragði, og svipast um eptir ham sínum. Hann gengur til móts við hana og ávarpar hana á ýmsum tungum; en hún skilur enga, þar til honum hugkvæmist að reyna indversku, Spyr hann hana á því máli, hvað hana vanti, eða hví hún sje svo sorgbitin. Hún kvað hann bezt vita það

sjálfan og bað hann fá sjer ham sinn, því að hann mundi tekið hafa. »Seg mjer fyrst, unaðsfagra vera«, mælti kongsson, »hver þú ert; þyki mjer líkast að þú sjert einn af guðunum, því að enginn jarðneskur maður mun svo fagur fæddur«. Hún svaraði og mátti þó varla mæla fyrir angist og reiði: »Jeg er dóttir skýjakonungssins, er býr í borginni fyrir austan tungl og sunnan sól; má jeg því fremur teljast til guða en manna. Jeg kom hingað með systrum mínum tveimur til að skemmta mjer í garði þínum, en nú hefur þú rænt hami mínum og fæ jeg ekki burt komizt, nema þú látir hann af hendi; særi jeg þig, ungi maður, við göfuglyndi þitt og meðaumkvun að fá mjer ham minn sem fyrst, ella dey jeg úr skelfingu«. Kongsson mælti: »Fullan rjett tel jeg mig hafa til að halda hami þínum, eða veiztu ekki, að þú hefur framið rán á garði mínum fjórar nætur samfleytt og tekið fegurstu blómin mín. Verður þar eitthvað á móti að koma«. Hann tók þá blíðlega í hönd hennar og bað hana koma með sjer inn í kastalann, að þau mættu þar ræða með sjer það, er hvort hafði gjört á annars hluta. Hún var treg til þess, en ljet þó tilleiðast að lokum. Gengu þau síðan til kastalans. Urðu varðmennirnir svo

agndofa af undrun, er þeir sáu forkunnar fagra mey í för með kongssyni, að þeim fjell allur ketill í eld og máttu eigi aðhafast. Leiddi kongsson hana umsvifalaust til herbergja sinna, og tóku þau þar tal með sjer. Sagði kongsson henni allt af ljetta um nafn sitt og ætterni og þá meðferð, er hann hafði orðið að sæta af föður sínum. »Verð jeg að hýma hjer ver en einn með þrælheimskum þjónum og þyrkingslegum kennara, sem gjörir sjer allt far um að hepta andlegan þroska minn og framfarir; lætur hann öllum spurningum mínum ósvarað. Það eina, sem veitt hefur mjer nokkurt yndi og ánægju, er aldingarður minn; hef jeg marga fagra kvöldstund og marga andvaka nótt staðið við gluggann og dázt að fegurð náttúrunnar. En nú hafið þið systur sett ykkur út til að spilla þessari einustu gleði minni. Er því ekki nema skylt að þú veitir mjer einhverja uppreist fyrir breytni ykkar til mín«. Kongsdóttir segir að svo skuli vera; kvaðst hún þess albúin að bæta honum skaðann að fullu og greiða honum svo mikið fje, er vera skyldi, fyrir spellvirkin á garði hans, et hún einungis fengi ham sinn aptur. Kongsson mælti: »Annars er mjer fremur vant en fjár, og máttu sjálf njóta auðs þíns. En hitt

er mjer meiri þága, að þú auðgir skilning minn á leyndardómsfullu lögmáli náttúrunnar, því að enginn mun líklegri til þess en þú, sem ert guðumborin vera«. Hún spurði hann, hvað hann fýsti helzt að vita. »Æ, það er svo margt, svo óendanlega margt, sem skilningi mínum er ofvaxið. Mjer finnst allt samræmi vanta í náttúruna, framþróun hennar og viðhald.. Og sjálfs míns tilfinningum get jeg ekki einu sinni gjört mjer grein fyrir. Hvervetna drottnar friður og kyrð í náttúrunni umhverfis mig. Þar úir og grúir af alls konar sköpuðum skepnum, er lifa í eindrægni og sælu, en að eins meðal mannanna skortir unað og blíðu. Hlustaðu á fuglana þarna úti í garðinum; þeir syngja og hoppa grein af grein svo glaðir og ánægðir. En skygnist jeg í hugskot sjálfs mín, er þar eitthvert voðamyrkur, er hvílir yfir tilfinningum mínum; einhver sárbeitt dularþrá kvelur mig og bendir á eitthvað, sem mig vantar, en veit ekki hvað er. Segðu mjer, fagra vera, hvernig á jeg að skilja þetta? Hvaðan kemur allur þessi urmull af dýrum, og hvernig víkur því við að menn eru til? Hvernig fæðast þeir að nýju? Því deyr ekki allt út, þegar lífskraptarnir eru þrotnir hjá hverjum einstakling? Og hví finnst mjer

sífeld harðneskja og óþjálgi meðal mannanna, en rósemd og blíða í náttúrunni? Ó! jeg bið þig og grátbæni að koma mjer í skilning um allt þetta«. Kongsdóttir horfði á hann öldungis höggdofa og ætlaði ekki að trúa sínum eigin eyrum. Varð henni orðfall um stund, en kongsson bað hana því ákafar að leysa sig úr þessari drepandi óvissu. Kongsdóttir gat ekki annað en kennt sárlega í brjósti um hann, og mælti: »Ólánssami kongsson, hefurðu þá aldrei þekkt neina ástúð og blíðu í umgengni þinni við aðra; hefur aldrei viðkvæm móður vafið þig örmum og vottað þjer ást sína?«

»Móðir —«, át kongsson eptir henni. »Hvað er það, sem þú kallar móður?«

»Veslings ungi maður, veiztu þá ekki einu sinni, hvað móðir er. Móðir er sú kona, sem þú ert fæddur af«.

»Kona —. Hvað er kona?« spurði kongsson.

»Aldrei hef jeg svo fávísan mann fyrir hitt og allra sízt tiginborinn kongsson, er vissi ekki að hann væri af konu fæddur! væri synd að láta þig ganga lengur dulinn slíkra hluta«.

Skýrði hún þá fyrir honum með mörgum fögrum orðum þetta tvennt:

kona og ást. Var þá sem nýtt ljós rynni upp í huga hans; þóttist hann nú gjörla skilja allar tilfinningar sínar og raknaði bæði sæll og gramur úr fákænskurotinu.

»Ó, hvað jeg hef farið mikils góðs á mis fyrir harðýðgi föður míns«, mælti hann og varp mæðilega öndinni. »Hann hefur svipt mig sælu móðurástarinnar og blíðu og yndis æskunnar. Hann einn er orsök í, að lund mín er óþjál og myrk. En nú skulu honum eigi lengur duga brögð sín, er sannleikurinn er fallinn til mín af himnum ofan í líki þínu, unaðsfagra mær«. Sendi hann þegar í stað menn á fund föður síns, til að segja honum, hvar komið var. Föður hans varð heldur en ekki bylt við fregnina og þótti nú í flest skjól fokið, er kona var komin í kastalann til sonar síns, og það með svo undarlegum hætti. Þarna stóð karlfuglinn í standandi vandræðum og vissi eigi, hvað úr skyldi ráða. Ljet hann kalla ráðgjafa sína fyrir sig og spurði þá, hvað tiltækilegast mundi um þetta mál. »Það er mín ætlan«, mælti sá, er elztur var og reyndastur. »að hjer verði eigi viðgjört. Mun nú ekki annað fyrir en að láta kylfu ráða kasti um úrslitin, hvað illt sem aðkoma konu þessarar kann að hafa í för með sjer«. Slíkt hið

sama eða á líka lund mæltu hinir, og fjellst kongur á tillögur þeirra«. Hann rjeðst þá um við þá, hvort eigi skyldi hegna kennara kongssonar og kastalavörðunum; en þeir kváðust eigi skilja, hvernig sök yrði gjörð á hendur þeim fyir atburð, er gjörzt hefði með svo undarlegum hætti. Kvað kongur þá hafa satt að mæla.

Kongur og drottning óku nú til kastalans að hitta son sinn. Var hann hinn reiðasti og og valdi þeim hörð orð og háðuleg. Þau reyndu að blíðka hann á allar lundir og hermdu honum allt um tilefnið til breytni sinnar. Vottuðu þau honum ást sína og blíðu og kváðu sjer hafa fallið sárt, að hann hefði orðið að sæta svo hörðu uppeldi; en velferð hans hafi þeim verið fyrir öllu. Ljet þá kongsson sefast, einkum er drottningin móðir hans fleygði sjer grátandi að brjósti hans og tjáði honum með mörgum viðkvæmum orðum, hve þungt sjer hefði fallið að mega eigi auðsýna honum ást sína og móðurtilfinningu. Bað hann þau þá að minnast ekki framar á umliðinn tíma; skyldi það allt gleymt og grafið frá sinni hálfu, þó því að eins að hann fengi að ganga að eiga kongsdótturina fögru, er þar væri nú hjá sjer ı kastalanum. Var þá kongsdóttir fram leidd,

og urðu kongur og drottning frá sjer numin af fegurð hennar. Hóf kongsson þegar upp bónorð sitt og mælti: »Forlögin hafa sent þig af himnum ofan, fagra mær, til þess að ráða bót á böli mínu og vekja mig til vitundar um æðsta lögmál lífsins. Þú hefur opnað augu mín fyrir alveldi ástarinnar. Þú hefur kveykt yl hennar í hjarta mínu. Því væri það nú illa gjört af þjer, ef þú hættir við hálfunnið verk og ljetir þá þekkingu, er þú hefur veitt mjer, verða mjer til skapraunar og glötunar í stað yndis og ánægju. Yfirgefðu mig ekki framar, ástkæra mær, og fullkomnaðu þannig það starf, er forlögin hafa falið þjer«. Kongsdóttir varð hljóð við og svaraði seinlega máli hans. »Mun skýjakonungnum, föður mínum, þykja lítið leggjast fyrir dóttur sína, ef hún gengur að eiga jarðneskan mann«. Hún bað hann kjökrandi að sýna sjer meðaumkvun og fá sjer ham sinn aptur, að hún mætti komast á fund föður síns. Foreldrar hans tóku í sama strenginn og löttu hann ráðahagsins; kváðu mikið ólán geta af því hlotizt að neyða dóttur goðumborins konungs til ráðahags við sig. Kongsson kvað þess engan kost, að mærin slyppi burt aptur; kvaðst hafa brennt haminn og yrði það eigi aptur tekið. Og hvort sem

rætt var hjer um lengur eða skemur, þá varð sá endir á, þrátt fyrir undanfærslu kongsdóttur og afeggjan gömlu hjónanna, að þegar næsta dag var stofnað til fjölmennrar veizlu í borginni; skyldi þar drukkið brúðkaup kongssonar og dóttur skýjakonungsins. Fór það fram vel og skörulega, enda var ekkert til sparað. Ekkert bar til tíðinda að veizlu þessari, er í frásögur sje færandi, nema mælt var, að mjög væri misskipt gleði brúðhjónanna. Brúðguminn ljek á als oddi og þóttist allra manna sælastur; en brúðurin var döpur í bragði, og var auðsætt, að hún undi illa hag sínum og þóttist í ánægju snauðan og ókunnan heim komin. Kongur sat hljóður mjög og hugsandi um framtíð sonar síns. Þótti honum sem nú væri sú stund komin, er hin illa spá skyldi rætast; jók og hrygðarsvipur og óró brúðarinnar eigi alllítið á hugraun hans. Fann hann á öllu að hún þóttist að litlu víkja, og hugði hana fremur mundu við una, ef hún mætti þegar setjast í drottningarsæti. Fyrir því gjörði hann eptir samráði við drottningu sína og æðstu ráðgjafa heyrum kunnugt að veizlu þessari, að ungu hjónin skyldu þegar taka við ríkisstjórn og konungdómi, en sjálfur hann leggja niður völdin. Var að því góður rómur gjör, og

að aflokinni veizlunni var allt stórmenni með gjöfum á burtu leyst. Óskuðu allir hinum unga konungi og drottningu hans heilla og hamingju.

Svo er mælt, að skömmu eptir brúðkaupið skipti drottning skapi, lagði niður hryggð sína og ljezt alls kostar ánægð. Gjörði hún manni sínum allt til yndis og gleði, enda var hann henni eptirlátur í öllu og elskaði hana svo heitt, að hann mátti ekki af henni sjá stundinni lengur. Hugði hann gleði hennar með eðlilegum hætti og grunaði sízt, að þetta var uppgerð ein og yfirdrepskapur.

Einn góðan veðurdag litlu síðar sýndi hann henni öll auðæfi og góðgripi föður síns. Hann leiddi hana víða um, og ljet hún sjer hvervetna mikið um finnast. Meðan á þessu stóð, spyr hún hann, hvort það sje satt að hann hafi brennt ham sinn; kvað sjer ánægju að sjá hann, þótt það væri ekki nema í svip; hann vekti svo margar sælar endurminningar um æsku sína og uppeldi í föðurgarði. »En ekki skaltu taka það svo, sem mig langi að yfirgefa þig, því að hjer mun jeg ætíð yndi festa og una vel hag mínum hjá þjer, sem jeg ann«. Honum þótti þetta grunsamt og þorði því eigi að segja henni satt um haminn; kvaðst hafa brennt hann þegar. Hún

ljet ekki neitt á neinu bera og þóttist taka orð hans góð og gild. »En seg mjer«, mælti hún að lokum, »hvað geymir þú í kistu þeirri hinni miklu, er þar stendur?« Hann kvað þar geymt gulltaflið góða, er móðir sín hafi gefið sjer í tannfje. Hún bað hann sýna sjer taflið, og gjörði hann svo. Það var haglega gjört og gripur góður. Þegar hann opnaði kistuna, tók hún eptir lítilli skrá, er var innan á lokinu. Hún spurði hann, hvað lokið hefði að geyma. Hann kvað það lítils um vert fyrir hana; geymdi faðir sinn þar ýms mikilsvarðandi ríkisskjöl og gætti sjálfur lykilsins.

Um kvöldið, er þau skyldu ganga til sængur, bað hún hann að tefla við sig eina skák á taflið góða. Hann ljet það eptir henni og sendi eptir kistunni. Tóku þau síðan að tefla, og varð hann svo hrifinn af, að hann skildi taflið eptir á borðinu og gleymdi að læsa kistunni áður en hann lagðist til svefns. Hún hafði allan hug á kistunni, því að hana langaði mjög til að vita, hvað í lokinu væri. Beið hún með mikilli óþreyju, til þess er hann var sofnaður. Hún hafði tekið eptir dálitlum lykli, er hann bar jafnan í festi um háls sjer innan klæða, og þóttist vita að hann mundi ganga að kistunni. Reis

hún nú upp við olnboga í rúminu og fór að hugsa um það, er hún sá æskufegurðina og ánægjuna á andliti manns síns, hve illt hann ætti að eiga svo ótrygga konu, er hugsaði ekki um annað en að komast burt frá honum. Nú fann hún loks, hve vænt henni þótti um hann. Þó gat hún ekki af sjer fengið að hætta við ásetning sinn; hún vildi þó að minnsta kosti forvitnast í kistulokið. Hún tók þá til snúrunnar, er hjekk um háls hans og gekk niður á brjóstið; var hún lengi að handleika snúruna og lagaði sig með hægð eptir hreyfingum hans, svo að hann skyldi eigi vakna. Loks gat hún dregið hana upp og sjer lykilinn; er hún nú ekki lengi að leysa hann af; sætir því næst lagi að stíga niður úr rúminu, fer að kistunni, lýkur upp lokinu og finnur ham sinn. Verður hún harla glöð við. Síðan gengur hún út að glugganum og opnar hann. Þar stóð hún stundarkorn í efa um hvort hún ætti að tæja niður haminn og verða kyr hjá manni sínum eða steypa honum yfir sig og vitja föðurhúsa. Loks varð heimþráin yfirsterkari. Þó gengur hún aptur að rúminu og dreypir þýðum kossi á enni manns síns; gat hún þá ekki tára bundizt, er hún hugsaði til þess, að nú sæi hún hann í síðasta sinni. Samt sem

áður hjelt hún fram fyrirætlan sinni, steypti yfir sig haminum og flaug burt.

Um morguninn vaknaði kongsson við vondan draum, er konan var öll á burt úr sænginni, kistan opin og hamurinn horfinn. Æddi hann þegar frá sjer numinn af harmi á fund föður síns og tjáði honum raunir sínar. Kvaðst hann ekki framar þurfa að vænta sjer nokkurar ánægju eða gleði og væri ekki annað ráð vænna en að gjöra enda á sínu auma lífi. Faðir hans vildi hughreysta hann, en hann sinnti því engu, heldur rauk þegar út úr höllinni og ætlaði samstundis að veita sjer bana. En þá kom í fasið á honum kennari hans gamli, sá er verið hafði í kastalanum, og spurði, hví hann færi svo geyst. Kongsson sagði honum allt hið sanna um konumissinn og ásetning sinn. Karl taldi um fyrir honum og kvað það fásinnu eina að ráða sjer bana að óreyndu. »Lífið verður aldrei aptur tekið, og er nógur tími að grípa til þess óyndisúrræðis þegar fullreynt er, hvort eigi má finna leiðina til hallar skýjakonungsins tengdaföður þíns. Þyki mjer ekki ólíklegt, að einhvern geti þann í jörðu eða á, er leggja megi á ráð með þjer«. Kongsson kvað þess enga von. En karl ljet dæluna ganga og linnti eigi fortölum sínum, fyr en kongsson hafði lofað að

fresta lífláti sínu um nokkra daga, ef vera mætti að eitthvað kynni úr að rætast. Sömdu þeir með sjer að hefja þegar ferð sína báðir samt og leita hallar skýjakonungsins. Kvöddu þeir kong og drottningu og lögðu á stað samdægurs, því að kongsson hafði enga eirð á sjer. Ráfa þeir nú lengi um merkur og skóga og vita naumast, hvað þeir fara. Einn dag síðla kvölds varð þeim reikað um afvikna skógarbraut. Þar mættu þeir dverg einum ljótum og leiðum; hann hafði svo sítt skegg, að tók á tær niður; rangeygur var hann, nefstór og munnvíður. Karl vjek að að honum, ávarpaði hann kurteislega og mælti: »Heill þjer, dvergur; svo lízt mjer á þig sem þú munir yfir nokkurri vizku búa. Þyki mjer þú líklegur til að ráða bót á vandræðum vorum og vísa oss leiðina til borgarinnar fyrir austan tungl og sunnan sól«. Hermdi hann frá öllum málavöxtum og bað hann ásjár. Dvergurinn gaut upp á þá glyrnunum og mælti seinlega: »Sjaldan hefur mjer orðið vizku vant, en nú kann jeg ekki úr að ráða. Þó má vera að jeg fái veitt ykkur úrlausn nokkra, er jeg fæ hugsað málið betur. Skuluð þið vitja mín hjer næsta kvöld um sömu mundir«. Þeir þökkuðu honum og kváðust svo mundu gjöra. Biðu þeir nú með óeirð og kvíða næsta kvölds.

Í ákveðinn tíma kom dvergurinn og var nú allþungur undir brún að sjá, hastur í máli og hinn óþýðasti. Kvaðst hann ekki geta með vissu sagt, hvort hann gæti greitt erindi þeirra, en reyna mætti, hvernig gengi. Kongssyni fór ekki að lítast á blikuna og gjörðist hann vondaufur um málalyktirnar; en kennari hans bað hann ekki um fást, heldur bíða átekta. Dvergurinn tók nú heljarmikla hljóðpípu upp úr vasa sínum, lagðist marflatur upp í lopt, setti pípuna á munn sjer, afskræmdi sig allan og bljes ákaft. Þótti þeim fjelögum bregða undarlega við, því að afarmikill þytur heyrðist í loptinu og hvaðanæva þustu að allir fuglar himinsins og flugu þangað, er dvergurinn lá. Spratt hann þá upp og spurði, hvort þeir vissu nokkuð um borgina fyrir austan tungl og sunnan sól. Þeir kváðu nei við; sögðust aldrei hafa flogið svo hátt. »Örninn er ókominn enn«, sagði dvergurinn; »hann flýgur fugla hæst«. Að stundarkorni liðnu kom örninn. Dvergurinn byrsti sig við hann og spurði, hvað hefði tafið hann. »Jeg flaug svo hátt, að kviknaði í fiðri mínu«, sagði örninn; »varð jeg því að steypa mjer til jarðar á leiðinni og slökkva eldinn í vatni«. »Geturðu sagt mjer nokkuð um borgina fyrir austan tungl og sunnan sól?« mælti dvergurinn. »Nei« sagði

örninn, »víðförull hef jeg verið, en aldrei svo«. »Snautið á burt«, sagði dvergurinn snúðugt, og allir fuglarnir hurfu sinn í hverja áttina. »Ekki er fullreynt enn«, sagði hann og lagðist aptur niður með pípu sína. Hann bljes nú enn meir en áður og tútnaði allur út af áreynslunni. Að vörmu spori heyrðust brak og brestir í loptinu; var það engu líkara, en að himinn og jörð væru að hrynja; þustu þar að allir höfuðvindarnir, Norðanvindur, Sunnarvindur, Austanvindur og Vestanvindur; voru þeir úfnir mjög og ljetu mikinn. Dvergurinn spurði þá, hvort þeir þekktu leiðina til borgarinnar fyrir austan tungl og sunnan sól. »Nei«, sögðu þeir; »opt höfum vjer geisað um lönd og höf og leikið að skýjum himinsins, en sólu og tungli hefur veldi vort aldrei náð. En spyrjið bræður vora hliðvindana, þeir eru vor voldugastir«. Og svo púuðu þeir í skeggið og geystust burt með dunum og dynkjum. »Hliðvindana!« sagði dvergurinn og varp mæðilega öndinni! »Þá verð jeg að neyta allrar orku, og enda óvíst að dugi. Þó skal ekki fráhverfa fyr en í fulla hnefana«. Lagðist hann þá niður og gjörði sig enn ámátlegri en fyr og bljes svo ákaft, að nærri lá að hann spryngi. Þá kvað við svo ógurlegur gnýr, að langt tók yfir hinn fyrra, og í sömu svipan voru þar komnir

þrír af hliðvindunum, Útnyrðingur, Útsynningur og Landnyrðingur, en enn var vant Landsynningsins; voru þeir grimmúðlegir og geystir, svo að þeim fjelögum stóð stuggur af. »Hvað viltu oss?« sögðu þeir við dverginn og þeyttu broddana. »Jeg vil vita leiðina til borgarinnar fyrir austan tungl og sunnan sól«. »Þá borg þekkjum vjer ekki, og höfum þó víða við komið, en vera má að Landsynningur bróðir vor geti frætt þig á því; hann er vor mestur og víðförlastur«, Í sömu andránni heyrðist voðahvinur, og Landsynningur geystist að. »Hvað hefur dvalið þig svo lengi, voldugi vindur?« mælti dvergurinn afarauðmjúkur. »Jeg varð að beygja fyrir turna borgarinnar fyrir austan tungl og sunnan sól og þerra tröf kongsdætranna. En hvers er þjer nú þörf?« Dvergurinn sagði honum þá sögu kongssonar, hversu hann hefði gengið að eiga dóttur skýjakongsins og misst hana aptur; væri hann nú að fram kominn af harmi og því gustuk að veita honum liðsinni. Landsynningur vjek sjer þá að kongssyni og mælti til hans blíðlega: »Fús er jeg að hjálpa þjer, kongsson, því að margt tárið hef jeg þerrað af kinnum konu þinnar er hún hefur grátið í hallargarði föður síns; veit jeg að henni mun mál á komu þinni.

En hvernig fæ jeg flutt þig svo langa leið? Engum manni ætla jeg fært að sitja milli vængja minna, svo hart flýg jeg«. »Sje jeg ráð til þess«, mælti dvergurinn. »Far þú fyrst og sæk gullkerru skýjakongsins, að hann megi koma á sem veglegustum fararskjóta til unnustu sinnar«. Landsynningur ljet ekki segja sjer þetta tvisvar, heldur þaut á stað í sama svip. Kongsson gat naumast ráðið sjer fyrir fagnaðar sakir er hann sá, hve vel rættist úr ráði sínu. Juku orð vindarins eigi alllítið á óþreyju hans og fannst honum eilífðartími meðan hann var að sækja kerruna, og þó var það ekki drykklöng stund. Þegar Landsynningur kom, stje kongsson þegar upp í vagninn, en fóstri hans stakk að honum hulinhjálmssteini, er hann skyldi hafa undir vinstra handlegg sjer, því að óráðlegt mundi að gjöra þegar vart við sig, er hann kæmi á fund tengdaföður síns. Kongsson tók feginsamlega við gjöfinni, og þakkaði síðan körlunum, dverginum og fóstra sínum, ágæta liðveizlu. Þeir báðu hann vel fara og heilan aptur koma. Landsynningur þandi út vængina og sveif á burt með gullkerruna hátt yfir láð og lög, út yfir norðurljósin, langt, langt út í geiminn. Á svipstundu var jörðin horfin. Og enn svifu þeir áfram, unz þá

bar yfir bjartar lendur og blikandi höf. Kongsson var frá sjer numinn, er hann litaðist um á þessum ókunnu stöðum; en óðar en hann varði sagði Landsynningur: »Þarna er nú bústaður tengdaföður þíns«, og kongsson gat að líta, hvar forkunnar fögur borg stóð á sólbjörtum völlum fram undan þeim. Í sömu andránni nam kerran staðar í hallargarði skýjakongsins. Kongsson þakkaði Landsynning hjálpina og kvaddi hann með mestu virktum. Síðan tók hann til steinsins, lagði hann undir vinstri hönd sjer og gekk að því búnu í höllina. Hún var búin með svo mikilli dýrð og vegsemd, að kongsson fjell í stafi af undrun. Í þetta mund sat kongur yfir borðum með allri hirð sinni; þar var drottning og dætur hennar tvær, en konu sína sá hann hvergi. Hann hvarf því aptur út úr höllinni og reikaði um garðinn, ef vera kynni að hún yrði einhvers staðar á vegum hans. Gengur hann nú áfram, unz fyrir honum verður dálítill lækur. Hann fer með læknum og ekki lengi áður hann getur að líta, hvar stúlka situr á bakkanum spölkorn fram undan honum. Greikkar hann nú sporið, og er hann kemur þangað, er stúlkan er, sjer hann að það er kona hans. Situr hún þar hnípin og drúpandi, og við hlið hennar liggur stór hrúga af

óþvegnu líni. Honum verður þá heldur en ekki heitt um hjartaræturnar, og er hann kominn á fremsta hlunn með að gefa sig fram samstundis, en stillir sig þó og hyggst að verða nokkurs vísari um tilefnið til hryggðar hennar, og hvaða hug hún muni bera til sín. Leggst hann því niður við fætur henni með mestu varkárni og hlýðir til, hvað hún segir. Hann heyrir að hún telur sjer sárar harmatölur yfir missi manns síns og lýsir einlægri þrá eptir honum. »Mikil ólánsskepna var jeg, er jeg sveik þann í tryggðum, er jeg unni mest, og leiddi þannig ógæfu yfir okkur bæði. Nú þreyir hann í harmi og trega, sem ef til vill leiðir hann til bana, en jeg veslast upp sem vesöl ambátt systra minna«. Setti þá að henni grát mikinn; tárin streymdu af augum hennar og brjóstið bærðist af þungum ekka. Og er kongsson sá, hversu hörmulega hún bar sig, stóðst hann ekki mátið lengur, brá steininum burt og hallaði höfði í kjöltu hennar. Hún varð sem þrumu lostin af undrun og ætlaði ekki að trúa sínum eigin augum. Urðu þar mestu fagnafundir með þeim og þóttist hún hann úr helju heimtan hafa. Sátu þau nú um stund og ræddust við um það, sem á dagana hafði drifið síðan þau skildu. Hún segir honum að foreldrar sínir hafi talið

það hina mestu smán, er hún þýddist mennskan mann, og lagt á sig fæð mikla og óvirðing fyrir tiltækið. Hafi hún orðið að þjóna systrum sínum sem ambátt þeirra og sæta öðrum afarkostum; en sig hafi líka sárlega iðrað ótryggðar sinnar við hann og ekki getað á heilli sjer tekið fyrir söknuði. Kongsson bað hana að minnast nú ekki á það framar; »enda var þjer ekki sjálfrátt, heldur illum örlögum um að kenna. En hjeðan af skal dauðinn einn megna að slíta samvistum okkar«. Hún bað hann segja sjer, með hvaða hætti hann væri þar kominn; »hugði jeg það ófært hverjum mennskum manni að ná byggðum föður míns«. Sagði hann henni þá allt af ljetta um ferðir sínar, hversu hann fyrir aðstoð dvergsins hafði fengið Landsynning til að flytja sig á gullkerru skýjakongsins föður hennar. Sýndi hann henni hulinhjálmsteininn til sannindamerkis um kunnáttu jarðbúa. Henni fannst mikið um sögu hans og bað að þau skyldu þegar ganga á fund foreldra sinna og herma þeim, hver hann væri; mundu þau fagna honum fegins hugar og samþykkja ráðahaginn er þau fengi að vita, hve voldugur hann væri, þar sem Landsynningur, konungur vindanna, stæði í þjónustu hans. Hann var fús til þess, en kvaðst

þó fyrst skyldu reyna nokkru gjör, hverri ástúð hún ætti að fagna í föðurgarði, og veita henni uppreist nokkra. Lagði hann þá steininn aptur undir hönd sjer; síðan gengu þau til hallarinnar og innar fyrir hásæti kongs. Kongsdóttir heilsaði foreldrum sínum, en þau virtu hana ekki viðlits. Systur hennar tóku þegar að atyrða hana á ýmsar lundir og spurðu, hví hún dirfðist þar að koma; sæmdi henni fremur sæti meðal ambátta, en á kongsbekk. »Eða hefurðu lokið starfa þeim, er við fengum þjer í dag?« Hún kvað nei við, og sagði þeim sjálfum hentast að þvo leppa sína. Þær áttu eigi slíkum svörum að venjast af hennar hendi og urðu óðar og uppvægar við andmælin; báðu hana snauta burt sem skjótast og ljúka því, er fyrir hana hefði verið lagt. En er hún þverskallaðist, skarst kongur í leikinn og mælti: »Manstu eigi þá skipun mína, að þú skyldir systrum þínum í öllu undirgefin sem ambátt þeirra og gjalda þannig smánar þeirrar, er þú hefur leitt yfir oss himinbúa. Það ætlaði jeg þá, er þú brauzt svo mjög ódd af oflæti þínu og gjörðist sú ættarskömm að leggja lag þitt við vesælan jarðbúa og bættir þar á ofan þeirri óhæfu að svíkja hann í tryggðum, að þú hefðir fyrirgjört dótturrjetti

þínum og að þú skyldir eigi hafa framar sæti meðal vor; en fyrir sakir þrábeiðni móður þinnar og óskyldrar ástsemi við þig nennti jeg ekki að gjöra þig brottræka úr föðurhúsum. En nú skaltu vita, að látir þú þjer ekki þann kost lynda að þjóna systrum þínum sem ambátt þeirra, skal þig annað verra henda«. »Hart leikur þú dóttur þína, kongur, og ómannlega«, sagði kongsson og varpaði hulinhjálmssteininum; stóð hann þar í allra augsýn í ægilegri reiði og brann eldur úr augum hans. Alla rak í rogastanz og ekki sízt kong, er hann sá ókenndan mann, hetjulegan sýnum, skyndilega birtast við hlið dóttur sinnar. Varð honum orðfall um stund bæði fyrir undrunar sakir og reiði, er svo þungum orðum var til hans mælt. Kongsdóttir gekk þá fram fyrir föður sinn og mælti: »Hjer er nú kominn maður minn. Still reiði þína, faðir, og veit honum sæmilegar viðtökur. Munt þú brátt reyna, hvílíkt afbragð hann er annara manna«. Ljet þá kongur sefast, tók kveðju kongssonar og hlýddi á sögu hans, með hvaða tilburðum hann var þar kominn. Fannst honum mikið um og leizt maðurinn mikill fyrir sjer og giptusamlegur. Tók hann honum tveim höndum og bauð honum með sjer að vera; kvaðst eigi hafa haldið að

slíkir garpar fyndust á jörðu, og skyldi engin fyrirstaða af sinni hendi um ráðahaginn. Drottning hans mælti á sama hátt. Er nú ekki að orðlengja það, að þegar næsta dag var efnt til brúðkaups og það drukkið með dýrð og fagnaði. Mæltist skýjakongurinn til þess, að tengdasonur sinn ílengdist þar og tæki við ríkisstjórn með sjer. Ljet kongsson sjer það vel líka. Líða nú svo stundir fram, að ekkert ber til tíðinda.

Þegar kongsson hafði dvalið um hríð í ríki tengdaföður síns, fór að brydda á öfund og afbrýði hjá eldri systrunum. Þóttust þær hafa orðið helzt til slyppifengar, er slíkur ráðahagur var þeim úr greipum genginn, og þótti illt að láta systur sína eina um hituna. Þær sem bezt höfðu gengið fram í að álasa henni fyrir það, hve óvönd hún var að virðingu sinni, er hún ljet jarðneskum manni heimila ást sína, felldu nú sjálfar svo ákafan hug til hans, að þær leituðu allra bragða til að ná ástum hans. En er það kom að engu haldi, kostuðu þær á allar lundir kapps um, að spilla fyrir systur sinni og rægja hana við mann hennar og foreldra. Varð af öllu því slík úlfúð og friðarspell við hirðina, að ungu hjónunum þótti þar ekki lengur vært; fengu því orlof hjá kongi að hverfa aptur til jarð-

arinnar og vitja ríkis þess, er kongsson átti eptir föður sinn. Kvöddu þau gömlu hjónin með ástúð og blíðu og þökkuðu þeim gæzku þeirra. Báðu kongur og drottning þeim alls velfarnaðar og mæltu svo um, að hjeðan í frá skyldi ekki svo mikið djúp staðfest milli guða og manna sem fyr. Að svo búnu kallaði kongsson á vin sinn, Landsynning, og bað hann flytja sig og konu sína á gullkerrunni góðu heim í ríki sitt. Stigu þau upp í vagninn og svifu á fleygi ferð niður til jarðarinnar og ljettu eigi fyr ferðinni, en þau komu til borgar þeirrar, er faðir kongssonar hafði aðsetu. Urðu þar miklir fagnaðarfundir og þóttust allir hann úr helju heimt hafa. Kongurinn hafði talið son sinn af og lagzt í rekkju af sorg og trega, en hresstist nú brátt. Var haldin dýrðleg veizla til að fagna ungu hjónunum og tóku þau síðan við ríkisstjórn. Fóstra sínum og dverginum gamla launaði kongsson ríkulega góða liðveizlu. Þau hjónin unnust vel og lengi og áttu börn og buru. Ljúkum vjer svo sögunni af borginni fyrir austan tungl og sunnan sól.

---

# Sagan af Sesselju fögru.

(Sögn V. Gunnarsdóttur, Hnífsdal.)

Einu sinni var kongur og drottning. Ekki er þess getið, í hvaða landi það hafi verið. Drottningin var svo fríð sýnum, að enginn fannst hennar líki um víða veröld. Kongur unni henni mjög, og hafði hann gefið henni í brúðargjöf þann dýrðlegasta drottningarskrúða, sem til var í heimi, til þess að búningur hennar skyldi bera svo af öðrum drottningarskrúðum, sem hún bar sjálf af öðrum drottningum. Þau kongur áttu sjer eina dóttur, er Sesselja hjet. Hún var snemma allra meyja fríðust; einkum var þó til þess tekið, hversu hárprúð hún var og fagureygð. Þegar Sesselja var 10 vetra, dó drottningin móðir hennar. Kongur tók sjer svo nærri missi drottningar sinnar, að hann gáði einskis annars, en að sitja frammi fyrir töfraskuggsjá, er hann átti og geymdi mynd drottningar hans frá brúðkaupsdegi þeirra, þar sem hún stóð í blóma æskunnar, klædd skrúðanum dýra. Þarna sat hann í algleymingi og starði inn í skuggsjána. Liðu svo tvö ár, að ekki ljetti harmi kongs, og vanrækti hann gjörsamlega stjórn ríkisins. Ráðgjafar hans sáu, að svo búið mátti eigi

standa. Ráða þeir því kongi til að leita sjer kvonfangs að nýju; hann tók dauflega máli þeirra og kvað vart mundu þá konu fædda, er jafnast gæti við drottningu sína að fegurð og ástríki. En fyrir bænastað þeirra og fortölur lofaði hann að hlíta ráðum þeirra ef þeir gætu fundið þá mey, er væri eins fögur og drottningin hans sálaða hefði verið, er hann sá hana í fyrsta sinni. Hann fjekk þeim skrúðann; skyldu þeir færa í hann þær meyjar, er þeim þætti líklegastar, og leiða þær fram fyrir skuggsjána, svo að hann gæti dæmt um fegurð þeirra. Var nú leitað víða um lönd til hinna fegurstu kongadætra; en engin stóðst raunina. Loks gjörðu nokkrir af hirðmönnum kongs það af rælni sinni, að þeir færðu Sesselju í skrúðann og leiddu hana fyrir skuggsjána. Jafnskjótt og kongur sá mynd hennar, spratt hann upp og sagði að þessa mey skyldi hann eiga, því að hún væri enn fríðari en drottningin nokkru sinni hefði verið. Honum var sagt að það mætti eigi verða, því að það væri Sesselja dóttir hans. Hann kvaðst nú einu sinni hafa sagt það, og því hlyti svo að vera. Þegar þetta barst til eyrna Sesselju, sló á hana felmtri við þá hryllilegu tilhugsun, að eiga að giptast föður sínum. Hún leitar þá í öngum sínum til gamallar

konu, er verið hafði fóstra hennar. Hún rjeð henni að flýja burt til fjarlægra landa. »Skaltu«, sagði hún, »taka með þjer hörpuna, er jeg gaf þjer í tannfje, og láta þar í skrúðann dýra. Má vera að þeir gripir verði þjer til hamingju«. Sesselja kveður nú fóstru sína, og heldur síðan á stað ein saman. Gengur hún lengi, lengi, þar til hún er komin í annað kongsríki. Þar rjeð fyrir gamall kongur, er átti unga dóttur, er Sesselja hjet og var kölluð hin ríkiláta. Var hún kölluð svo fyrir þá sök, að hún vildi engum biðlum taka, hversu tignir menn sem þeir voru. Sesselja bjó í skemmu skammt frá höll föður síns, og hafði hún þann sið, að safna til sín þeim fegurstu meyjum, er finna mátti, hverrar ættar sem þær voru; gjörðust þær þernur kongsdóttur.

Nú er að segja frá Sesselju fögru. Hún þorði ekki að ganga heim í kongsríki, af kvíða fyrir því, að faðir sinn kynni þá fremur að frjetta til sín. Fer hún því til karls og kerlingar, er bjuggu í skógi skammt frá, og biður þau viðtöku. Karlinn telur öll tormerki á því, og segir að þeim muni ekki haldast á svo fallegri stúlku stundinni lengur fyrir kongsmönnum, er allt af sjeu á flakki að leita að þernum handa Sesselju ríkilátu. Kerling kvað

það lítinn vanda að breyta útliti stúlkunnar, ef hún vilji vinna það til. »Enda ber hjer vel til, því að dóttir okkar er dáin fyrir skömmu og getum við látið sem þú sjert okkar dóttir«. Verður það þá úr, að þau veita henni viðtöku. Tekur nú karl hana og rakar af henni hárið og ber í tjöru; síðan eru henni færðir tötrar að fara í og hetta sett á höfuð henni. Tekur hún þá við sauðageymslu hjá karli og kerlingu. Brátt fór hún að iðrast eptir því að hafa látið raka af sjer hárið, því að hún undi illa tjörukollinum; fer hún því að rækta það aptur á laun við þau karl, og hafði það einatt sjer til gamans í hjásetunni að greiða hár sitt, en batt það upp undir hettuna þess á milli. Aldrei vildi hún lofa þeim að sjá í kollinn á sjer. Liðu svo þrjú ár, að ekkert bar á rekana. Þá var hún orðin steinleið á vistinni í kotinu, enda þótt karl og kerling ynnu henni hugástum og gjörðu til hennar eptir föngum. Einn góðan veðurdag fer hún heiman með fjenu að vanda; karl var einatt vanur að áminna hana um að halda fjenu á láglendinu og varast sem mest að fara upp í fjallshlíðina; hafði hún aldrei breytt út af boðum karls í því efni. Þennan dag ítrekar hann fastlega áminningu sína. Aldrei þessu vön hafði nú Sesselja með sjer hörpuna

óþvegnu líni. Honum verður þá heldur en ekki heitt um hjartaræturnar, og er hann kominn á fremsta hlunn með að gefa sig fram samstundis, en stillir sig þó og hyggst að verða nokkurs vísari um tilefnið til hryggðar hennar, og hvaða hug hún muni bera til sín. Leggst hann því niður við fætur henni með mestu varkárni og hlýðir til, hvað hún segir. Hann heyrir að hún telur sjer sárar harmatölur yfir missi manns síns og lýsir einlægri þrá eptir honum. »Mikil ólánsskepna var jeg, er jeg sveik þann í tryggðum, er jeg unni mest, og leiddi þannig ógæfu yfir okkur bæði. Nú þreyir hann í harmi og trega, sem ef til vill leiðir hann til bana, en jeg veslast upp sem vesöl ambátt systra minna«. Setti þá að henni grát mikinn; tárin streymdu af augum hennar og brjóstið bærðist af þungum ekka. Og er kongsson sá, hversu hörmulega hún bar sig, stóðst hann ekki mátið lengur, brá steininum burt og hallaði höfði í kjöltu hennar. Hún varð sem þrumu lostin af undrun og ætlaði ekki að trúa sínum eigin augum. Urðu þar mestu fagnafundir með þeim og þóttist hún hann úr helju heimtan hafa. Sátu þau nú um stund og ræddust við um það, sem á dagana hafði drifið síðan þau skildu. Hún segir honum að foreldrar sínir hafi talið

það hina mestu smán, er hún þýddist mennskan mann, og lagt á sig fæð mikla og óvirðing fyrir tiltækið. Hafi hún orðið að þjóna systrum sínum sem ambátt þeirra og sæta öðrum afarkostum; en sig hafi líka sárlega iðrað ótryggðar sinnar við hann og ekki getað á heilli sjer tekið fyrir söknuði. Kongsson bað hana að minnast nú ekki á það framar; »enda var þjer ekki sjálfrátt, heldur illum örlögum um að kenna. En hjeðan af skal dauðinn einn megna að slíta samvistum okkar«. Hún bað hann segja sjer, með hvaða hætti hann væri þar kominn; »hugði jeg það ófært hverjum mennskum manni að ná byggðum föður míns«. Sagði hann henni þá allt af ljetta um ferðir sínar, hversu hann fyrir aðstoð dvergsins hafði fengið Landsynning til að flytja sig á gullkerru skýjakongsins föður hennar. Sýndi hann henni hulinhjálmsteininn til sannindamerkis um kunnáttu jarðbúa. Henni fannst mikið um sögu hans og bað að þau skyldu þegar ganga á fund foreldra sinna og herma þeim, hver hann væri; mundu þau fagna honum fegins hugar og samþykkja ráðahaginn er þau fengi að vita, hve voldugur hann væri, þar sem Landsynningur, konungur vindanna, stæði í þjónustu hans. Hann var fús til þess, en kvaðst

þó fyrst skyldu reyna nokkru gjör, hverri ástúð hún ætti að fagna í föðurgarði, og veita henni uppreist nokkra. Lagði hann þá steininn aptur undir hönd sjer; síðan gengu þau til hallarinnar og innar fyrir hásæti kongs. Kongsdóttir heilsaði foreldrum sínum, en þau virtu hana ekki viðlits. Systur hennar tóku þegar að atyrða hana á ýmsar lundir og spurðu, hví hún dirfðist þar að koma; sæmdi henni fremur sæti meðal ambátta, en á kongsbekk. »Eða hefurðu lokið starfa þeim, er við fengum þjer í dag?« Hún kvað nei við, og sagði þeim sjálfum hentast að þvo leppa sína. Þær áttu eigi slíkum svörum að venjast af hennar hendi og urðu óðar og uppvægar við andmælin; báðu hana snauta burt sem skjótast og ljúka því, er fyrir hana hefði verið lagt. En er hún þverskallaðist, skarst kongur í leikinn og mælti: »Manstu eigi þá skipun mína, að þú skyldir systrum þínum í öllu undirgefin sem ambátt þeirra og gjalda þannig smánar þeirrar, er þú hefur leitt yfir oss himinbúa. Það ætlaði jeg þá, er þú brauzt svo mjög odd af oflæti þínu og gjörðist sú ættarskömm að leggja lag þitt við vesælan jarðbúa og bættir þar á ofan þeirri óhæfu að svíkja hann í tryggðum, að þú hefðir fyrirgjört dótturrjetti

þínum og að þú skyldir eigi hafa framar sæti meðal vor; en fyrir sakir þrábeiðni móður þinnar og óskyldrar ástsemi við þig nennti jeg ekki að gjöra þig brottræka úr föðurhúsum. En nú skaltu vita, að látir þú þjer ekki þann kost lynda að þjóna systrum þínum sem ambátt þeirra, skal þig annað verra henda«. »Hart leikur þú dóttur þína, kongur, og ómannlega«, sagði kongsson og varpaði hulinhjálmssteininum; stóð hann þar í allra augsýn í ægilegri reiði og brann eldur úr augum hans. Alla rak í rogastanz og ekki sízt kong, er hann sá ókenndan mann, hetjulegan sýnum, skyndilega birtast við hlið dóttur sinnar. Varð honum orðfall um stund bæði fyrir undrunar sakir og reiði, er svo þungum orðum var til hans mælt. Kongsdóttir gekk þá fram fyrir föður sinn og mælti: »Hjer er nú kominn maður minn. Still reiði þína, faðir, og veit honum sæmilegar viðtökur. Munt þú brátt reyna, hvílíkt afbragð hann er annara manna«. Ljet þá kongur sefast, tók kveðju kongssonar og hlýddi á sögu hans, með hvaða tilburðum hann var þar kominn. Fannst honum mikið um og leizt maðurinn mikill fyrir sjer og giptusamlegur. Tók hann honum tveim höndum og bauð honum með sjer að vera; kvaðst eigi hafa haldið að

slíkir garpar fyndust á jörðu, og skyldi engin fyrirstaða af sinni hendi um ráðahaginn. Drottning hans mælti á sama hátt. Er nú ekki að orðlengja það, að þegar næsta dag var efnt til brúðkaups og það drukkið með dýrð og fagnaði. Mæltist skýjakongurinn til þess, að tengdasonur sinn ílengdist þar og tæki við ríkisstjórn með sjer. Ljet kongsson sjer það vel líka. Líða nú svo stundir fram, að ekkert ber til tíðinda.

Þegar kongsson hafði dvalið um hríð í ríki tengdaföður síns, fór að brydda á öfund og afbrýði hjá eldri systrunum. Þóttust þær hafa orðið helzt til slyppifengar, er slíkur ráðahagur var þeim úr greipum genginn, og þótti illt að láta systur sína eina um hituna. Þær sem bezt höfðu gengið fram í að álasa henni fyrir það, hve óvönd hún var að virðingu sinni, er hún ljet jarðneskum manni heimila ást sína, felldu nú sjálfar svo ákafan hug til hans, að þær leituðu allra bragða til að ná ástum hans. En er það kom að engu haldi, kostuðu þær á allar lundir kapps um, að spilla fyrir systur sinni og rægja hana við mann hennar og foreldra. Varð af öllu því slík úlfúð og friðarspell við hirðina, að ungu hjónunum þótti þar ekki lengur vært; fengu því orlof hjá kongi að hverfa aptur til jarð-

arinnar og vitja ríkis þess, er kongsson átti eptir föður sinn. Kvöddu þau gömlu hjónin með ástúð og blíðu og þökkuðu þeim gæzku þeirra. Báðu kongur og drottning þeim alls velfarnaðar og mæltu svo um, að hjeðan í frá skyldi ekki svo mikið djúp staðfest milli guða og manna sem fyr. Að svo búnu kallaði kongsson á vin sinn, Landsynning, og bað hann flytja sig og konu sína á gullkerrunni góðu heim í ríki sitt. Stigu þau upp í vagninn og svifu á fleygi ferð niður til jarðarinnar og ljettu eigi fyr ferðinni, en þau komu til borgar þeirrar, er faðir kongssonar hafði aðsetu. Urðu þar miklir fagnaðarfundir og þóttust allir hann úr helju heimt hafa. Kongurinn hafði talið son sinn af og lagzt í rekkju af sorg og trega, en hresstist nú brátt. Var haldin dýrðleg veizla til að fagna ungu hjónunum og tóku þau síðan við ríkisstjórn. Fóstra sínum og dverginum gamla launaði kongsson ríkulega góða liðveizlu. Þau hjónin unnust vel og lengi og áttu börn og buru. Ljúkum vjer svo sögunni af borginni fyrir austan tungl og sunnan sól.

# Sagan af Sesselju fögru.

(Sögn V. Gunnarsdóttur, Hnífsdal.)

Einu sinni var kongur og drottning. Ekki er þess getið, í hvaða landi það hafi verið. Drottningin var svo fríð sýnum, að enginn fannst hennar líki um víða veröld. Kongur unni henni mjög, og hafði hann gefið henni í brúðargjöf þann dýrðlegasta drottningarskrúða, sem til var í heimi, til þess að búningur hennar skyldi bera svo af öðrum drottningarskrúðum, sem hún bar sjálf af öðrum drottningum. Þau kongur áttu sjer eina dóttur, er Sesselja hjet. Hún var snemma allra meyja fríðust; einkum var þó til þess tekið, hversu hárprúð hún var og fagureygð. Þegar Sesselja var 10 vetra, dó drottningin móðir hennar. Kongur tók sjer svo nærri missi drottningar sinnar, að hann gáði einskis annars, en að sitja frammi fyrir töfraskuggsjá, er hann átti og geymdi mynd drottningar hans frá brúðkaupsdegi þeirra, þar sem hún stóð í blóma æskunnar, klædd skrúðanum dýra. Þarna sat hann í algleymingi og starði inn í skuggsjána. Liðu svo tvö ár, að ekki ljetti harmi kongs, og vanrækti hann gjörsamlega stjórn ríkisins. Ráðgjafar hans sáu, að svo búið mátti eigi

standa. Ráða þeir því kongi til að leita sjer kvonfangs að nýju; hann tók dauflega máli þeirra og kvað vart mundu þá konu fædda, er jafnast gæti við drottningu sína að fegurð og ástríki. En fyrir bænastað þeirra og fortölur lofaði hann að hlíta ráðum þeirra ef þeir gætu fundið þá mey, er væri eins fögur og drottningin hans sálaða hefði verið, er hann sá hana í fyrsta sinni. Hann fjekk þeim skrúðann; skyldu þeir færa í hann þær meyjar, er þeim þætti líklegastar, og leiða þær fram fyrir skuggsjána, svo að hann gæti dæmt um fegurð þeirra. Var nú leitað víða um lönd til hinna fegurstu kongadætra; en engin stóðst raunina. Loks gjörðu nokkrir af hirðmönnum kongs það af rælni sinni, að þeir færðu Sesselju í skrúðann og leiddu hana fyrir skuggsjána. Jafnskjótt og kongur sá mynd hennar, spratt hann upp og sagði að þessa mey skyldi hann eiga, því að hún væri enn fríðari en drottningin nokkru sinni hefði verið. Honum var sagt að það mætti eigi verða, því að það væri Sesselja dóttir hans. Hann kvaðst nú einu sinni hafa sagt það, og því hlyti svo að vera. Þegar þetta barst til eyrna Sesselju, sló á hana felmtri við þá hryllilegu tilhugsun, að eiga að giptast föður sínum. Hún leitar þá í öngum sínum til gamallar

konu, er verið hafði fóstra hennar. Hún rjeð henni að flýja burt til fjarlægra landa. »Skaltu«, sagði hún, »taka með þjer hörpuna, er jeg gaf þjer í tannfje, og láta þar í skrúðann dýra. Má vera að þeir gripir verði þjer til hamingju«. Sesselja kveður nú fóstru sína, og heldur síðan á stað ein saman. Gengur hún lengi, lengi, þar til hún er komin í annað kongsríki. Þar rjeð fyrir gamall kongur, er átti unga dóttur, er Sesselja hjet og var kölluð hin ríkiláta. Var hún kölluð svo fyrir þá sök, að hún vildi engum biðlum taka, hversu tignir menn sem þeir voru. Sesselja bjó í skemmu skammt frá höll föður síns, og hafði hún þann sið, að safna til sín þeim fegurstu meyjum, er finna mátti, hverrar ættar sem þær voru; gjörðust þær þernur kongsdóttur.

Nú er að segja frá Sesselju fögru. Hún þorði ekki að ganga heim í kongsríki, af kvíða fyrir því, að faðir sinn kynni þá fremur að frjetta til sín. Fer hún því til karls og kerlingar, er bjuggu í skógi skammt frá, og biður þau viðtöku. Karlinn telur öll tormerki á því, og segir að þeim muni ekki haldast á svo fallegri stúlku stundinni lengur fyrir kongsmönnum, er allt af sjeu á flakki að leita að þernum handa Sesselju ríkilátu. Kerling kvað

það lítinn vanda að breyta útliti stúlkunnar, ef hún vilji vinna það til. »Enda ber hjer vel til, því að dóttir okkar er dáin fyrir skömmu og getum við látið sem þú sjert okkar dóttir«. Verður það þá úr, að þau veita henni viðtöku. Tekur nú karl hana og rakar af henni hárið og ber í tjöru; síðan eru henni færðir tötrar að fara í og hetta sett á höfuð henni. Tekur hún þá við sauðageymslu hjá karli og kerlingu. Brátt fór hún að iðrast eptir því að hafa látið raka af sjer hárið, því að hún undi illa tjörukollinum; fer hún því að rækta það aptur á laun við þau karl, og hafði það einatt sjer til gamans í hjásetunni að greiða hár sitt, en batt það upp undir hettuna þess á milli. Aldrei vildi hún lofa þeim að sjá í kollinn á sjer. Liðu svo þrjú ár, að ekkert bar á rekana. Þá var hún orðin steinleið á vistinni í kotinu, enda þótt karl og kerling ynnu henni hugástum og gjörðu til hennar eptir föngum. Einn góðan veðurdag fer hún heiman með fjenu að vanda; karl var einatt vanur að áminna hana um að halda fjenu á láglendinu og varast sem mest að fara upp í fjallshlíðina; hafði hún aldrei breytt út af boðum karls í því efni. Þennan dag ítrekar hann fastlega áminningu sína. Aldrei þessu vön hafði nú Sesselja með sjer hörpuna

og skrúðann. Um daginn gengur hún upp í hlíðina, fleygir þar af sjer tötrunum og fer í skrúðann; ljet hún glóbjart hárið liðast um sig alla. Síðan sezt hún niður og slær hörpuna. Ekki líður á löngu, áður þar koma að menn Sesselju ríkilátu. Verða þeir öldungis forviða af fegurð meyjarinnar og þykjast þar fundið hafa gott þernuefni handa kongsdóttur. Þeir spyrja hana, hver hún sje. Hún segist vera dóttir karls og kerlingar. »Viltu gjörast þerna Sesselju ríkilátu?« segja þeir. »Fús er jeg til þess«, segir hún, »og tel jeg víst að foreldrar mínir muni sleppa mjer, ef þeim er boðið nóg fje til«. Þeir fara nú að finna karl og kerlingu og segja þeim frá meyjunni fögru með glóbjarta hárið, er þeir hafi fundið þar uppi í fjallshlíðinni, og mælast til þess að þau lofi henni að fara með sjer heim í kongsríki. Þau aftaka það með öllu að það geti verið þeirra dóttir, er þeir eigi við, hún, sem sje nauðasköllótt; segjast gjarnan skulu sýna þeim hana til þess að taka af öll tvímæli. Er nú sent eptir Sesselju. Hefur hún þá klæðzt tötrum sínum aptur. »Öðruvísi er þessi mær búin en sú, er við sáum fyr«, sögðu þeir, »en augun eru hin sömu«. Sesselja kastar þá tötrunum og fer í skrúðann. Þykir nú karli og kerlingu hún hafa heldur en ekki leikið

á sig; segjast fyrir engan mun vilja missa hana. Sesselja segir að þau megi vel af sjer sjá ef þau fái svo mikið fje fyrir, að þau megi lifa kvíðalaust það sem eptir sje æfinnar. Verður það úr, að Sesselja fer heim í kongsríki og gjörist þerna Sesselju ríkilátu.

Kongsdóttur fannst mikið um fegurð og atgjörvi karlsdóttur, — því að Sesselja fagra ljet ekki getið ættar sinnar -- og gjörði hana að trúnaðarmey sinni. Fjell henni við hana hverjum deginum betur og brátt gjörðist mjög kært með þeim.

Einn dag voru þær nöfnur á gangi úti. Komu þær þá að gljúfri einu miklu. Frá gljúfrinu heyra þær vesallegt væl og verða þess varar, að það er fugl, er kvakar niðri í berginu og ber sig aumlega. Kongsdóttir vill endilega hjálpa fuglinum, því að hann muni eiga eitthvað bágt, og biður karlsdóttur að kenna sjer ráð til þess að ná honum. Karlsdóttir segist hafa heyrt þess getið, að fuglar hænist að hári og þyki gaman að hjúfra sig í því. Kongsdóttir leysir þá hár sitt, leggst á gljúfurbarminn og lætur hárið lafa fram af. En það kom fyrir ekkert, því að hárið var of stutt. Hún stendur þá upp og biður karlsdóttur að reyna, því að hún hafi meira hár. Karlsdóttir leggst þá fram á

brúnina, en kongsdóttir heldur í fætur henni. Hárið náði langt niður; leitar nú fuglinn þangað og hjúfrar sig í það. Kongsdóttir tosar þá öllu upp á bakkann og nær fuglinum. Þótti henni mjög vænt um hann, fer með hann til skemmu sinnar og hefur hann í svefnherbergi sínu um nóttina.

Þess verður að geta, að konginn föður Sesselju ríkilátu hafði eitt sinn dreymt draum þess efnis, að illa mundi fara fyrir dóttur sinni í ástasökum. Hafði hann því nánar gætur á hegðun hennar. Kongur átti tvo kostgripi, gullhring einn svo mikinn, að hvergi gat slíkan, og gull eitt þeirrar náttúru að sjá mátti, hvort sú mær hafði karlmann kennt, er á gullinu hjelt, því að það varð svart, ef spjölluð mær hjelt á. Gripi þessa hafði hann gefið dóttur sinni og var síðan vanur að koma við og við í skemmuna og skoða gullið, til þess að fullvissa sig um hreinlífi dóttur sinnar. Annað gull átti kongsdóttir, sömu náttúru, og gaf hún það nú karlsdóttur í launa skyni fyrir að hafa náð fuglinum.

Morguninn eptir, er fyr var frásagt, var fuglinn horfinn úr herbergi kongsdóttur. Þótti henni það mikill skaði, og það því fremur, sem hana hafði dreymt svo yndislega um nóttina. Fám dögum síðar kemur hún að

máli við karlsdóttur og segir, að sjer sje eitthvað svo undarlegt, og skilji hún ekkert í, hvað valda muni. Hún segir henni líka, hvað sig hafi dreymt nóttina, sem fuglinn var í herberginu hjá sjer. Fara þær þá að skoða gullin; verða þau svört í höndum kongsdóttur, en jafnskjótt og karlsdóttir tekur við þeim, verða þau björt sem fyr. Þetta þótti kongsdóttur kynlegt, því að hún þóttist með öllu saklaus af karlmönnum. Gjörist hún harla hugsjúk um sinn hag og kvíðir mest reiði föður síns og þeirrar hneysu, að mega ekki halda sóma sínum. Biður hún karlsdóttur í guðanna bænum að finna nú upp einhver ráð, til þess að koma sjer úr þessum vandræðum. Karlsdóttir segir að næst er faðir hennar komi til skemmunnar, skuli þær sitja saman, og muni hún þá geta brugðið sínu gulli fyrir og villt honum þannig sjónir. Kongsdóttir fellst á þetta. Þegar kongur kom, hittir hann þær nöfnur saman. Hann biður að vanda að fá að sjá gull þeirra. Karlsdóttir leggur handlegginn utan um kongsdóttur og getur brugðið svo fyrir gulli sínu, að kongur hjelt að það vær gull dóttur sinnar. Síðan skoðar hann gull karlsdóttur, því að hann vildi vera viss um að sú, sem dóttir hans hafði valið sjer að vinstúlku, væri henni

samboðin að skírlífi. Verður hann glaður við, er bæði gullin voru björt. Þannig fóru þær jafnan að, er kongur kom að hnýsast um hegðun þeirra.

Nú líður að þeim tíma, er kongsdóttir skyldi verða ljettari. Veit hún þá ekki sitt rjúkandi ráð, hvernig fara skuli að, svo að hún megi halda heiðri sínum. Karlsdóttir biður hana að vera ekki hugsjúka um það efni. Hún skuli láta það spyrjast meðal skemmumeyja sinna, að hún sje veik og vilji ekki láta neina aðra hjúkra sjer en Sesselju karlsdóttur. Síðan skuli hún láta sig leggjast og segja að hún hafi alið barnið. Þetta þótti kongsdóttur óskaráð. Hún leggst síðan á sæng og elur sveinbarn, forkunnar frítt. Var karlsdóttir ein yfir henni. Þegar kongsdóttir fór að hressast, reis hún úr rekkju, en karlsdóttir lagðist. Varð það brátt hljóðbært um kongsríkið, að skemmumærin fagra hefði alið barn, og þótti það mikil hneysa. En sakir vináttu við kongsdóttur fjekk hún þó að halda vistinni. Var kongsdóttir henni mjög þakklát fyrir hjálpina og kvaðst ávallt skyldu muna henni það. Gaf hún henni hringinn góða í launaskyni.

Nú líða fram stundir, þar til er sveinninn er fjögra vetra. Þá var það einn dag, að

skrautleg skip koma af hafi. Þar rjeð fyrir kongssonur einn, auðugur að fje og fríður sýnum. Sá bað Sesselju ríkilátu, og var hún nú fús til ráðahagsins. Eptir að festarölið var drukkið, kom hann eitt sinn að máli við heitmey sína; kvaðst hafa heyrt þess getið, að hún ætti gull eitt, er væri hinn mesti kostagripur; biður hann hana sýna sjer það. Hún lætur sjer ekki bylt við verða, heldur leiðir hann til skemmunnar og fer að svipast eftir gullinu. Þykist hún þá hvergi geta fundið það og segir að einhver af skemmumeyjum sínum hljóti að hafa stolið því. Segir hún, að sú skuli hörðu gjalda þjófnaðinn. Lætur hún nú leita hjá nokkrum af þernum sínum og síðan hjá Sesselju karlsdóttur; þykist hún þar finna gullið; en það var reyndar gull Sesselju sjálfrar. Verður þá kongsdóttir óð og uppvæg, svo að Sesselja getur engum afsökunum fyrir sig komið. Skammar hún hana blóðugum skömmum, segir að hún sje dáfalleg dækja; fyrst hafi hún stofnað heiðri sínum í hættu með því að drýgja ólifnað í sínum húsum og svo bæti hún nú gráu ofan á svart, með því að stela einasta dýrgrip sínum. Rekur hún hana og drenginn á burt með harðri hendi og biður þau aldrei þrífast. Sesselja leitar þá

sem fyr til gömlu hjónanna í kotinu, og taka þau henni fegins hugar.

Nú er efnt til brúðkaups í kongsríkinu. Fyrsta dag veizlunnar segir Sesselja fagra við drenginn, að nú skuli hann fara heim í kongsríki. Skuli hann ganga inn fyrir brúðarbekkinn og segja þrysvar sinnum við brúðina eins hátt og hann geti: »Hvað gafstu henni móður minni þegar hennar var lengra en þitt?« Drengurinn gjörir sem honum var boðið, heldur heim í kongsríkið, gengur fyrir brúðina og segir hátt og snjallt: »Hvað gafstu henni móður minni þegar hennar var lengra en þitt? Hvað gafstu henni móður minni þegar hennar var lengra en þitt? Hvað gafstu o. s. frv.?« »Þegiðu, þorparinn þinn«, sagði brúðurin og brá litum; »berja skal jeg þig ef þú snautar ekki í burt sem skjótast«. Drenghnokkinn verður lafhræddur og hraðar sjer heim aptur til mömmu sinnar, segist aldrei fara slíka sendiferð optar. Daginn eptir biður móðir hans hann enn að fara heim í kongsríki og segja þrysvar sinnum við brúðina: »Hvað gafstu henni móður minni þegar hennar var bjartara en þitt?« Drengurinn var tregur til að fara, en ljet þó loks tilleiðast, er móðir hans lofaði honum gullum og góðgæti fyrir. Þegar hann kemur í höll-

ina, nemur hann staðar fyrir framan brúðina og segir hátt: »Hvað gafstu henni móður minni þegar hennar var fagrara en þitt? Hvað gafstu henni móður minni o. s. frv.?« Brúðurin verður óð og uppvæg af reiði og segir að það sje þó býsna djarft af dyravörðunum, að hleypa slíku illþýði í höllina hvern daginn eptir annan. Heitir hún á menn að veita þessum pútusyni maklega ráðningu fyrir veizluspjöllin. Er nú drengurinn hrakinn með hörðu út úr höllinni. Kemur hann hágrátandi heim til mömmu sinnar og segist aldrei vilja koma í kongsríki optar. Næsta dag biður móðir hans hann enn að fara til hallarinnar. Skuli hann halda sjer sem næst brúðgumanum og segja þrysvar sinnum við brúðina eins hátt og hann geti: »Hvað gafstu henni móður minni fyrir, að hún gjörðist móðir að mjer?« Drengurinn vildi með engu móti fara, en móðir hans segir að þetta skuli verða í síðasta sinni og lofar að gefa honum miklu meira af gullum og góðgæti, en hann hafi fengið nokkru sinni áður, meðan þau lifðu í alls nægtum í skemmu kongsdóttur. Drengurinn herðir þá upp hugann og fer til kongsríkis. Hann gengur innar fyrir brúðhjónin og segir svo hátt, að heyra mátti um alla höllina: »Hvað gafstu

henni móður minni fyrir að hún gjörðist móðir að mjer? Hvað gafstu henni móður minni o. s. frv.?« Brúðinni bregður svo við, að hún verður ýmist rauð sem blóð og ýmist bleik sem nár; ætlar hún að þrífa til sveinsins í bræði, en kongssonur verður fyrri til og biður hana að láta drenginn í friði. Segist nú hafa heyrt nóg til þess að skilja, að hjer sje ekki allt með felldu. »Eða hverra manna er sveinn þessi?« Kongsdóttir segir að hann sje sonur ókvendis eins, er búi í karlskoti skammt þaðan. »Kynleg þykja mjer orð þau, er sveinn þessi hefur haft upp þrjá daga í röð, og vil jeg þegar fá að finna móður hans«, Sendir hann þá nokkra af mönnum sínum með sveininum og biður hana koma á sinn fund. Hún bregður við skjótt, tekur skrúðann dýra úr hörpunni, fer í hann og heldur síðan á fund kongssonar. Hann tekur henni virðulega og biður hana að segja sjer æfisögu sína, en hún segir að bezt muni, að heitmey hans segi fyrst frá. Kongsdóttir aftekur það með öllu. »Þá er ekki annað fyrir en að jeg taki sjálfur til frásagna«, segir kongsson. «Er það þá upphaf sögu minnar, að foreldrar mínir rjeðu fyrir víðlendu og voldugu ríki. Jeg var einkabarn þeirra. Meðan jeg var á unga aldri dó móðir

mín. Faðir minn leitaði sjer kvonfangs aptur, en það kom brátt upp, að stjúpa mín var hið versta flagð. Lagði hún það á mig að jeg skyldi verða að fugli og sitja fastur í bergsnös í gljúfri einu, er hún tiltók, þar til er einhver kongsdóttir hætti lífi sínu til að frelsa mig og þætti síðan svo vænt um mig, að hún hefði mig í svefnherbergi sínu eina nótt. Hvernig jeg losnaði úr álögunum, er ykkur sjálfum kunnugt. Þvínæst hjelt jeg heim til mín og frelsaði föður minn úr klóm stjúpu minnar. Síðan var það mitt fyrsta að vitja aptur meyjarinnar, er jeg átti lausn mína að launa. Meira hef jeg ekki að segja í máli þessu, og vildi jeg nú gjarnan heyra frásögn ykkar«. Kongsdóttir sat við sinn keip og þverneitaði að segja frá nokkru. Tók þá Sesselja fagra til máls og gat þess fyrst, að hún hefði af ógreindum ástæðum hrakizt burt úr ríki föður síns, og síðan greindi hún frá öllu, er fram hafði farið í skemmunni. Þegar hún hafði lokið sögu sinni, vjek kongsson sjer að Sesselju ríkilátu og kvaðst ekki geta gengið að eiga þá stúlku, er þannig hefði farið að ráði sínu. Að svo mæltu sneri hann sjer að drengnum og sagði að nú skyldi hann eigi framar þurfa að skiljast við þá konu, er hefði ekki

skammazt sín fyrir að vera móðir að honum. Er nú ekki að orðlengja það; kongsson hefur þegar upp bónorð sitt til Sesselju fögru. Var það auðsótt af hennar hendi. Síðan sigla þau með drenginn heim í ríki kongssonar, en Sesselja ríkiláta situr eptir með sárt enni og skömm í stað göfuglegs eiginorðs. Lýkur svo að segja frá Sesselju fögru.

---

## Ríki og fátæki bóndinn.

(Helgi Jónsson á Grænavatni eptir Guðríði Jónsdóttur s. st.)

Einu sinni bjuggu tveir bændur í nágrenni, er báðir hjetu sama nafninu; en að öðru leyti voru þeir ekki líkir nje ástæður þeirra. Annar var svo ríkur, að hann vissi ekki aura sinna tal, en hinn svo fátækur, að hann átti ekki málungi matar handa sjer nje hyski sínu. Í hjeraðinu, þar sem þeir nafnar áttu heima, var örbyrgð mikil og fjöldi þurfamanna; var það títt, að þessum vesalingum, ungum og gömlum, var komið fyrir hjá ríka bóndanum, og voru þeir aldrei

svo margir, að hann veitti þeim eigi viðtöku. En það þótti mönnum kynlegast, að þeir hurfu jafnóðum, og vissi enginn hvað af þeim varð. Lagðist því sá orðrómur á, að hann fyrirfæri þeim og losaði sig við þá á þann hátt. Samt var þessu ekki gaumur gefinn að öðru leyti en því, að menn sneiddu hjá heimili hans og komu þar ekki nema brýna nauðsyn bæri til. Nafni hans var sá eini, er kom þar stöku sinnum og átti bágt með að festa trúnað á orðróm þennan, enda þótt honum fyndist, að eitthvað hlyti að vera bogið við hegðun granna síns. Leið svo fram langur tími.

Einn morgun vaknar fátæki bóndinn í rúmi sínu með ekka miklum og andfælum. Konu hans verður bylt við og spyr, hvernig á þessu standi. Bóndi segir að sig hafi dreymt, að til sín kæmi maður, göfuglegur og bjartur yfirlitum, og segði við sig, að þeir nafnarnir ættu að deyja að þrem dögum liðnum og væri þeim ætlað að hafa sálarfjelag saman hinum megin grafarinnar; þetta verði hann að tilkynna nafna sínum. Segir bóndi, að fyrir utan það að verða að skilja við konu sína og börn, hryggi sú tilhugsun sig mest, að eiga að hafa sálarfjelag við nafna sinn í öðru lífi; þó muni ekki annað duga

en að hlýða því, sem sjer hafi verið boðið og fara að finna hann. Býr hann sig nú að heiman, kveður konu og börn og gengur til bæjar nafna síns. Ríki bóndinn er staddur úti á hlaði þegar hann kemur; tekur hann honum glaðlega og spyr tíðinda. Fátæki bóndinn segist fátt hafa í frjettum að segja, og er harla daufur í bragði. Fer þá nafni hans að grafast eptir því, hvað valda muni ógleði hans. Hinn segir honum þá draum sinn. Ríki bóndinn segir að sjer finnist engin ástæða til að æðrast yfir þessu; þetta sje það sem komi fyrir alla, fyr eða síðar. Býður hann nú nafna sínum til stofu, lætur bera fyrir hann mat og er sjálfur hinn glaðasti. En fátæki bóndinn getur einskis neytt fyrir áhyggju. Ríki bóndinn segir það sje bezt að þeir skilji ekki þessa daga, sem eptir sjeu æfinnar, heldur njóti þeirra saman; skuli þeir fara og líta yfir eigur sínar, því að nú þurfi hann í mörgu að snúast og mörgu að ráðstafa, úr því hann eigi svona skammt eptir ólifað. Fátæki bóndinn tekur því dauflega, og heldur að þeim sje þarfara að búa sig undir burtför sína á annan hátt. Hinn segir að enginn tími sje til þess í dag; og verður svo að vera sem hann vill. Er hann nú allan daginn að ganga um hýbýli sín og milli

hjúa sinna, segir fyrir um allt og ráðstafar öllum eigum sínum með hinni mestu nákvæmni, eins og ekkert sje um að vera. Sofa þeir svo saman nafnarnir um nóttina.

Næsta morgun er ríki bóndinn snemma á fótum og er hinn kátasti; segir að ekki megi þeir halda kyrru fyrir í dag, því að nóg sje að starfa; nú skuli þeir ríða í kaupstaðinn; þurfi hann að líta yfir reikninga sína. Fátæki bóndinn vill að þeir haldi kyrru fyrir og búi sig undir dauða sinn. Samt verður hinn að ráða, og ríða þeir nú í kaupstaðinn; er ríki bóndinn þar allan daginn að rannsaka reikninga sína, en fátæki bóndinn hefur ekkert að starfa og kvelst sífellt af umhugsuninni um kæruleysi og ljettúð nafna síns; þykist hann sjá það á öllu, að hann hugsar ekki um annað en auð sinn og munað. Samt tók hann eptir því að síðustu, að hann ljet skrifa út úr reikningi sínum allstórar upphæðir til ýmsra fátæklinga, og datt honum þá í hug, að hann væri þó ekki með öllu tilfinningarlaus. Um kvöldið hjeldu þeir heimleiðis og sváfu saman um nóttina sem fyr. — Þriðja daginn er ríki bóndinn enn snemma á fótum og segir, að nú muni ekki af veita að nota vel seinasta daginn, því að margt sje ógert enn. Fátæki bóndinn

hefur sömu svör og áður; en það tjáir ekki; nafni hans hlaut að ráða sem fyr. Eru nú komnir heim hestar söðlaðir. Stíga þeir svo á bak og ríða til skógar. Þeir fara um einstigi nokkurt, þar til er fyrir þeim verður dalverpi eitt lítið með grænum grundum og skógi vöxnum hlíðum. Þar var bær vel húsaður, og margt fólk; fagnar það allt ríka bóndanum og kallar hann föður sinn. Það voru bæði gamalmenni og unglingar. Þekkir þar fátæki bóndinn þurfamenn þá og aumingja, sem komið hafði verið fyrir hjá nafna hans. Eru þeir þar lengi dags og er ríki bóndinn að ræða við fólkið og leggja því heilræði; skipar hann þar fyrir um allt. Og er þeir fara, fylgir allt fólkið þeim á leið og kveður ríka bóndann með sorg og söknuði. Á heimleiðinni spyr ríki bóndinn nafna sinn, hvort hann vilji ekki fara heim til sín og kveðja konu og börn, því að hann muni ekki sjá þau framar. Hinn tekur því fegins hugar, því að nú hafði hann líka fengið aðra skoðun á nafna sínum, en hann hafði áður haft. Þeir dvelja um stund á heimili fátæka bóndans, og er ríki bóndinn að hughreysta konu nafna síns; leggur hann henni ýms heilræði og gefur henni góða jörð að skilnaði. Á heimleiðinni spyr hann nafna sinn,

hvernig honum lítist nú á framferði sitt og fjelagsskaparhorfurnar. Hinn varð klökkur við og kvað það vera allt á annan veg en áður og orð hefði á legið; sagðist nú hyggja gott til. Ríki bóndinn spyr, hvað menn hafi haldið um niðursetningana. Hinn segir það orð hafa á legið, að hann fyrirfæri þeim. Ríki bóndinn segist að vísu ekki hafa þurft að spyrja um það, því að hann hafi vitað það og sjeð það á því, hversu menn hafi sneitt hjá sjer og heimili sínu, allir nema hann. Fátæki bóndinn segist nú vera ánægðari eptir en áður yfir því, að hafa ekki dæmt hann alveg eins hart og aðrir, því að nú sæi hann með vissu, að sá orðrómur hefði eigi verið á rökum byggður. -- Um kvöldið háttuðu þeir að vanda báðir í sama rúminu, en næsta morgun, er þeirra var vitjað, voru þeir andaðir. Eptir ráðstöfun ríka bóndans voru þeir lagðir í sömu gröfina báðir.

---

## „Jeg vildi jeg væri komin — hvurt?"

Þá sögn heyrði jeg á Vestfjörðum, að einu sinni hefði verið stúlka, er var mjög

gjörn á að láta sjer leiðast; raulaði hún þá vanalega vísu þessa fyrir munni sjer:

Jeg vildi jeg væri komin — hvurt?
Kannske eitthvað langt í burt,
vantaði hvorki vott nje þurt
og væri aldrei til mín spurt.

Einu sinni um vortíma sat hún yfir ám; leiddist henni þá venju fremur og kvað vísuna af miklum móð. Þá hvarf hún, að henni virtist, eitthvað ofan í jörðina. Hún kom þar í herbergi; þar var rúm inni og allt, er hún þurfti hendinni til að rjetta, grautarskál á syllunni uppi yfir henni og kolla undir rúminu. Enga sá hún þar mannlega veru, en allt af fylltist grautarskálin á syllunni, og allt af tæmdist kollan undir rúminu af sjálfsdáðum, og var henni einskis vant. Þó fór henni um síðir að leiðast þetta sællífi, og harmaði hún það mest, að hún skyldi ekki sjá neina lifandi veru í kring um sig. Að lokum varð hún svo yfirkomin af leiðindum, að hún hugsaði sjer að gera bragarbót fyrir vísuna gömlu, og þurfti ekki að toga andann í hana til þess. Fór hún síðan að kveða bragarbót sína í ákafa og er hún svona:

Jeg vildi jeg hefði verið um kjurt
og væri aldrei horfin burt,

vantað mig gæti vott og þurt,
ef væri nú að eins til mín spurt.

Brá þá svo við, að hún hvarf aptur til mannheima. Upp frá því ljet hún sjer aldrei leiðast úr hófi fram.

Á. H.

---

## Fiðlu-Björn.

(Sbr. Konrad Maurer: Isl. Volkssagen, Leipzig 1860.)

Hildigunnur, systir sjera Hálfdáns að Felli í Sljettuhlíð*), hafði nýlega misst mann sinn; flutti hún þá búferlum að Lónkoti og bjó þar einyrkja við mikla fátækt. Hún átti son einn, Björn að nafni; hann var hraustur drengur og óbilgjarn og ljek forkunnar vel á fiðlu. Björn var ekki heimafastur og hjálpaði lítt móður sinni; honum var það lægnara að flakka bæ frá bæ og úr einni sveit í aðra, enda var honum vel tekið allstaðar sakir listar sinnar; en lítill var það búbætir fyrir Björgu, og ákvað móðir hans loks að koma honum fyrir hjá

*) Sjá Ísl. Þjóð. og æfint., I. 515—20

sjera Hálfdáni bróður sínum, til þess að reyna, hvort hann fengi fremur haldið honum að nýtilegri vinnu. Nú býr hún Björn á stað einn góðan veðurdag og gefur honum nesti og nýja skó. Heldur hann svo leiðar sinnar, og hafði hann opt farið þar áður. Er ekki neins að geta um ferð hans, nema að hann heyrði huldumál á leiðinni, eins og stundum hafði fyrir hann komið áður. Það bar og til, að hann hreppti þoku og dimmviðri, svo að hann sá ekki þverhandarskil, en varð að setjast fyrir undir kletti einum miklum, er hann kom að. Þá er það, að hann þóttist heyra vísur kveðnar í klettinum. Erindi þau, er geymst hafa úr gleymsku, eru svo fögur að innihaldi, að rjett þykir að skrá þau hjer:

Mjer verður skipsins dæmi,
er skorðulaust kúrir
eitt við ægi kalda,
engan stað fær góðan;
rísa bárur brattar,
í briminu illa þrymur. –
Svo kveður mann hver, þá morgnar,
mæddur í raunum sínum.

Mjer verður fuglsins dæmi,
er fjaðralaus kúrir;
skríður hann fljótt að skjóli,

Skundar hann veðrum undan;
týnir hann söng og sundi,
Sína gleðina fellir. —
Svo kveður mann hver, þá morgnar,
mæddur í raunum sínum.

Mjer verður hörpunnar dæmi,
hennar er á vegg hvolfir
stjórnarlaus og strengja,
Stillirinn er frá fallinn;
fellur á sót og sorti,
saknar mans í ranni. —
Svo kveður mann hver, þá morgnar,
mæddur í raunum sínum.

Þess er helzt til að geta, að Björn hafi ort þetta sjálfur, sungið það og spilað undir á fiðlu sína. Nú er ekki frekar að segja af ferðum hans. Hann finnur sjera Hálfdán og flytur honum orðsending móður sinnar. Tekur sjera Hálfdán honum vel, en fer brátt að leiða honum fyrir sjónir, hve ósæmilegt það sje fyrir hann að una hvergi og mega teljast allra sveita kvikindi; talar prestur svo um fyrir Birni, að hann ræður sig loks í vinnumennsku hjá honum. Sjera Hálfdán var glettinn eins og sögur bera honum, og þótti honum nú gaman að reyna þolrifin í Birni; hann vissi að Björn var áræðinn og óbil-

gjarn, en vildi nú reyna hann til þrautar og gerði honum því ýmsar sjónhverfingar. Það var einu sinni sem optar, að hann sendi Björn niður í naust um kvöldtíma að sækja ýms veiðarfæri, er orðið höfðu eptir þar um daginn. Þegar Björn kom niður eptir, var þar allt á tjá og tundri; veiðarfærin voru á strjálningi hingað og þangað; og ekki nóg með það; þar voru tólf eða fleiri djöflar og draugar, er ljetu öllum illum látum, öskruðu upp yfir sig, sindruðu eldglæringum, spúðu innýflunum og þeyttu af sjer hausunum. Björn tók þetta allt með stillingu, en honum veitti ærið örðugt að tína saman pjönkurnar; þó tókst honum það um síðir, og hjelt hann heimleiðis; vofurnar eltu hann alla leið heim að bæ, en hann ljet sem hann sæi þær ekki. Þegar hann kom heim, spurði prestur hann, hvort ekkert hefði fyrir hann borið. Hann kvað lítið mark að því, en skrambans færin hefðu legið eins og hrossataðskögglar hingað og þangað. Prestur spurði, hvort hann hefði ekki sjeð piltunga nokkra vera að leika sjer þar niðrifrá. Björn sagði það vera, en sjer hefði verið skemmtún ein í því. Öðru sinni sat Björn yfir lömbum prests. Komu þá til hans tólf menn þegar fór að halla degi, og spurðu hvort hann vildi ganga

að leikjum með sjer. Hann var til í það, þó leikurinn reyndist allskrítinn. Mennirnir fóru að iða og sprikla og dangla hver til annars, en þó kvað mest að, er þeir tóku af sjer hausana og fóru að henda þeim hverir í aðra. Lentu kúpurnar óvægilega á Birni engu síður en öðrum, en hann ljet þá ekki sitt eptir liggja og tók líka ofan. Þannig skemmtu þeir sjer um stund; en loks kom hlje á leikinn, og settu þeir hausana á sig aptur, en þá sneru þeir allir aptur á bak og höfuðið á Birni líka. Svo hurfu mennirnir, en Björn fór að reka heim, og veitti honum það nokkuð örðugt, þó hann sæi í iljar sjer og allan limaburð. Prestur kom til móts við hann og spurði hvernig gengi. »Og vel«, sagði Björn, »en ögn kemur mjer það skrítilega fyrir að jeg skuli sjá betur að baki mjer en framundan; en vel má vera, að jeg venjist því ágætlega«. Strauk prestur þá brosandi hendinni um höfuð honum, og komst það í samt lag. Skömmu síðar var komið með lík hreppakellingar nokkurar að Felli og var það borið í kirkju; það var seint á degi. Í sama mund komu gestir til prests, og beiddi hann þá Björn að sækja handa þeim sængurfǫt út á kirkjulopt. Hann gerði það. En þegar hann kom niður stigann með fötin í

fanginu, reis líki kellingar á fætur á bak við hann, hljóp upp á axlirnar á honum, krækti löppunum í síðurnar en krumlunum um hálsinn á honum og ætlaði rjett að kyrkja hann. Þá varð Birni að orði: »Skyld' 'enni vera alvara«, gekk að dyrastafnum og lamdi henni við; en það tjáði ekkert, hún sat því fastar. Komst hann nauðulega með byrði þessa á bakinu út um kirkjudyrnar og heim til bæjar; þar tók prestur á móti honum og spurði, hvernig honum líkaði nú. »O vel, mjer veitir að eins lítið eitt örðugra að komast út og inn um dyr«, sagði hann. Prestur hjelt það satt vera og losaði hann við líkið, en all trauðlega ætlaði það að ganga, svo prestur hjet því, að leika ekki slíkt við hann framar. Var Björn eptir þetta í miklu eptirlæti hjá móðurbróður sínum. Nú víkur sögunni þar að, er maður hjet Grímur og bjó skammt frá Felli. Hann átti dóttur, er Valdís hjet, væna stúlku og fríða sýnum. Einn kvöldtíma gekk hún út til þvotta og slóst þá maður einhver ókenndur í för með henni, og vildi tæla hana til ásta við sig. Stúlkan tók þvert fyrir öll tilmæli hans; áttu þau lengi orðakast saman. Loks kom Grímur bóndi þar að, og varð maðurinn þá frá að hverfa. En upp frá því varð

Valdís mállaus og hálf undarleg á geðsmunum. Grímur neytti árangurslaust allra upphugsanlegra ráða til þess að bjarga stúlkunni, og er allt annað brást, fór hann til sjera Hálfdáns og bað hann liðsinnis. Hann færðist undan og vildi sem minnst við því hreyfa; sagði hann, að sjálfsagt væri þetta álög á stúlkunni og yrði þá að finna þann fyrst, er á hana hefði lagt, svo að hann gæti ljett þeim af henni, en það væri sjálfsagt bergrisi, og sjer væri ofvaxið að knýja þá til hlýðni. Grímur gekk nú fast á prest um að hjálpa sjer úr þessum vandræðum. Ljet þá prestur loksins tilleiðast og lofaði að reyna það hann gæti; þóttist þó færast ærið í fang, því stefna þyrfti hann álfum öllum, dvergum, draugum og tröllum, er byggja milli Blöndu og Öxarár. Sú varð raunin á, að sjera Hálfdán gerði þetta; en ekki fannst sakadólgurinn. Kom prestur þá að máli við Björn og spurði hann hvort hann mundi þora að ríða góðviljugum hesti, er færi jafnt yfir láð og lög. Björn kvað sjer ekki hafa verið svimagjarnt hingað til, þó hann kæmi á hestbak. Þá leiddi prestur fram fola móálóttan og sagði honum að ríða til Grímseyjar, klappa á standberg eitt, er lægi við sjó fram nálægt Básum og segja: »Sjera Hálfdán

særir þig, Bergfinnur, úr bjarginu og stefnir þjer og hyski þínu til Fellsendaþings.« Björn fer á bak og ríður, en svo fóru þeir lágt á Grímseyjar sundi, að Björn vöknaði í báða fætur. Hann leysti allt erindi sitt vel af hendi og komst heim heilu og höldnu. En þegar hann stje af baki, sá hann að reiðskjótinn var mjaðmarbein úr manni. Prestur spurði, hvernig honum hefði líkað hrossið, en hann lauk litlu lofi á og sagði, að naumast hefði það verið stríðalið. Bergfinnur kom til Fellsendaþings á ákveðnum tíma með konu sinni. Var hann fremur tregur til að meðganga og hugði að veita sjera Hálfdáni bana með því að þeyta á hann stórgrýti, og hefði hann naumast mátt við þeim báðum, ef Hildigunni systur hans hefði ekki grunað, hvað um var að vera, og brugðið sjer þangað í skyndi. Fengu þau bæði yfirbugað tröllin, svo þau urðu að meðganga og gefa sig presti á vald. Ljet hann Bergfinn ljetta álögunum af Valdísi, og varð hún heil heilsu, en með kynjakrapti sínum fjekk Hildigunnur tröllskessuna til að skella u . . . . karli manni sínum fyrir tiltækið. Sögu þessari af Fiðlu-Birni lýkur svo, að hann fjekk Valdísar; settu þau bú saman á Bræðraá og bjuggu þar í farsæld til ellidaga.

Björn varð gildur maður, ráðsettur og vel metinn, en ávallt hjelt hann þó tryggð við fiðlu sína.

Á. H.

---

## „Fjandinn vill nú finna þig".

Einu sinni var bóndi, sem var orðlagður fyrir hvað hann væri vondur við hjú sín, vinnuharður, matsár og harðorður. Það var einhverju sinni, að honum þótti einn vinnumanna sinna ganga heldur sleitulega að verki. Fer hann þá að ávíta hann fyrir það, en vinnumaður hefur þau svör um, að hann vinni þó alltjend fyrir matarsleikjunni, sem hann fái; hún sje ekki svo rífleg. Bóndi verður þá vondur og segir, að ef honum líki ekki vistin, geti hann farið til andskotans í sinn stað; en vinnumaður svarar því einu, að ekki muni vistin reynast verri þar. Nú fer bóndi burt reiður, en um nóttina þykir honum þessi vinnumaður koma til sín og kveða þetta uppi yfir sjer:

Fjandinn vill nú finna þig,
fyr en rennur dagur;
hann vill ekki hafa mig,
honum þykir jeg magur.

Eptir þetta batnaði allur viðurgjörningur bónda við hjúin.

---

## Gestur Pálsson og svipurinn.

(Hdr. Sigurðar Pálssonar, verzlunarstjóra á Hesteyri).

Á útmánuðunum, mig minnir veturinn 1876, villtust tveir menn á Bæjardalsheiði, sem liggur milli Arnkötludals í Steingrímsfirði og Reykhólasveitar í Barðastrandarsýslu, Hafliði nokkur úr Strandasýslu, og Guðfinnur Hjaltason úr Geiradal. Voru menn þessir komnir sunnarlega á heiðina, er skall á kafaldshríð og ofsaveður. Eins og opt á sjer stað þá menn villast í kafaldi, varð ágreiningur um, hver væri hin rjetta stefna til bæja, og urðu svo mikil brögð að því, að menn þessir skildu þar á fjallinu í

styttingi og jafnvel heitingum; hjelt svo hvor í sína áttina.

Daginn eptir um nónbil fann sauðamaður í Mýrartungu Guðfinn skríðandi á fjórum fótum heima undir bæjarhlaði. Var þegar vitjað læknis -- Ólafs sál. Sigvaldasonar, — til næsta bæjar, og menn sendir á stað með sleða og ýmsan útbúnað, til að leita Hafliða. Fannst hann helfrosinn undir steini frammi í Bæjardal; var lík hans flutt að Gillastöðum, næsta bæ fyrir norðan Mýrartungu. Guðfinnur var færður í lítið þilhús í frambænum í Mýrartungu og vakað yfir honum nótt og dag, því maðurinn var skamınkalinn á höndum og fótum.

Fyrst voru vinnukonur látnar vaka, enn af því þeim fór ekki að verða um sel að vaka þar frammi um nætur, er þær heyrðu högg mikil, skrölt og skrjáf eins og af freðnum fatnaði bæði utan dyra og innan um frambæinn, þótti rjettara að taka starf þetta af istöðulitlum kvennmönnum, og var húskörlum síðan boðið að vaka yfir sjúklingnum. Gestur sál. bróðir minn stundaði háskólanám um þessar mundir; las hann heima í Mýrartungu veturinn, er saga þessi gerðist. En er húskarlar kváðu við sama tón, sem vinnukonur, og sögðu hjer meiri en meðalbrögð

að reymleika og afsögðu að vaka þar frammi um nætur, var kvöld eitt mál þetta all vel og rækilega rætt í baðstofu, og þó að föður mínum og Gesti lægi við að gera talsvert gaman að þessu, var sem steini væri ljett af öllum, er Gestur bauðst til að vaka aleinn næstu nótt. Jeg var ekki heima í Mýrartungu þennan vetur, en Gestur sagði mjer sögu sína á þessa leið:

Þegar búið var að lesa og »fara ofan«, fór fólk að hátta; jeg bauð öllum góða nótt og tók með mjer olíulampa. Er jeg viss um að engum liðsforingja geta fylgt betri og einlægri óskir, þegar hann leggur á stað frá heimili sínu út í orustuna en mjer fylgdu frá ungum og gömlum, er jeg stje í »skarir« til ofangöngu. Jeg settist á stól andspænis rúmi sjúklingsins; borð var mjer til vinstri handar, og setti jeg lampann frá mjer; fór síðan að lesa í bók, því sjúklingurinn lá í svefnmóki. Hurð svefnherbergisins hafði jeg lokað á eptir mjer.

Allt í einu rís Guðfinnur upp til hálfs, lítur til dyranna og segir um leið: »Farðu frá mjer, Hafliði. Seint ætlarðu að hætta að kvelja mig með komunum þínum hingað«. Meðan jeg er að hlýða á orð hans, kemur svo voðalegt högg á þilið bak við mig, að

jeg hrekk frá því undan högginu. Síðan heyri jeg gengið fram bæjardyrnar og hark mikið fyrir utan, án þess þó að jeg yrði þess var, að anddyrið væri opnað. Tek jeg þá undir mig stökk út um svefnherbergisdyrnar, opna bæjarhurðina í skyndi, og hleyp út í bylinn, til að sjá, hvort nokkur sje úti. Sje jeg þá mann albrynjaðan snjó og klaka standa við næsta bæjarþil. Hafði jeg eitt sinn áður sjeð þennan Hafliða, og þykist jeg þekkja hann þar. Kalla jeg svo: »Hver ert þú!« En þá hvarf svipur þessi út í hríðina. Jeg beið nú ekki lengur, hleyp inn, loka, vek fólk í baðstofu, og segi mínar farir ekki sljettar.

Snemma morguns daginn eptir, andast Guðfinnur.

---

## Gróttuvísan.

Það bar til fyrir nokkrum árum, að skip úr Gróttu á Seltjarnarnesi syðra, er gengið hafði haust- eða vetrar-vertíðina, eins og vandi var til þá, suður í Garðsjó, fórst á

heimleiðinni, rjett undir Gróttu, að menn halda. Það var á næturþeli og nær lágnætti, og sagði maður úr Gróttu, er þá var drengur og lá vakandi í rúmi sínu þessa nótt, að farið hefði líkt og fellibylur yfir bæinn og eyna, en rjett á eptir hefði hann heyrt kveðna á glugganum vísu þessa:

Dauðinn sótti sjávardrótt;
sog var ljótt í dröngum.
Ekki er rótt að eiga nótt
undir Gróttu töngum.

Taldi hann þetta strax fyrirboða þess, að menn hefðu farizt þarna undir eynni, enda sást það síðar, því aldrei kom Gróttuskipið fram eptir það. Þar sem í vísunni stendur, að ekki sje rótt undir Gróttu, þá er það sannast að segja, því það er allra mesta brimabæli.



## Sagan af Hvekk og karlinum illa.

(Kristján realstúd Guðnason eptir Guðríði Jónsdóttur á Grænavatni)

Einu sinni var karl og kerling. Þau áttu sjer þrjá sonu, er hjetu Hálfdán, Sigurð-

ur og Þorsteinn. Þeir voru í miklu afhaldi Hálfdán og Sigurður, en Þorsteinn, hinn yngsti, var hafður útundan.

Svo bar til eitt haust, að karl föður þeirra vantaði 10 sauði af fjalli; fundust þeir hvergi, þó víða væri leitað.

Hálfdán býr sig þá á stað með nesti og nýja skó og kveðst ætla að leita sauða föður síns. Leggur hann á stað, en svo líður haustið og veturinn, að hann kemur ekki heim, þó víða sje leitað og spurzt fyrir um hann. Svo kemur næsta haust og vantar bónda þá enn 10 sauði. Fer nú á sömu leið, að Sigurður býr sig til að leita þeirra, en kemur ekki heim fremur en Hálfdán. Nú kemur þriðja haustið. Vantar bónda þá enn 10 sauði, og eru þá horfnir 30. Veit hann nú ekki hvar staðar muni nema með fjártjón sitt, en þó þykir honum hitt miklu verra, ef synir hans skyldu báðir vera dauðir eða í tröllahöndum. — Þorsteinn kemur þá að máli við föður sinn, og býðst til að leita sauðanna. Tekur karl því illa og heldur að hann muni ekki fá miklu áorkað, þar sem svona hafi farið fyrir bræðrum hans, sem hafi þó verið honum miklu fremri að allri manndáð. Segist hann verða feginn að hafa hann heima, heldur en ekkert sjer til

hjálpar. Þorsteinn kann illa þessum svörum og býst að heiman, hvað sem hver segir. Fær hann lítið nesti og að öllu ljelegri útbúnað en bræður hans. Hann leggur nú leið sína yfir fjöll og firnindi, þartil hann kemur að djúpum dal. Niðri í dalnum sjer hann lítinn kotbæ, Þangað gengur hann og drepur á dyr. Kemur þar út karl, úfinn og illilegur. Þorsteinn spyr hann að nafni. Hann kveðst heita »karlinn illi«. »Þá muntu illur vera«, segir Þorsteinn. Karl spyr þá Þorstein til nafns, en hann segist Hvekkur heita. »Þá muntu hvekkjóttur vera« segir karl.

Þorsteinn skorar síðan á hann til veturvistar. Karl segist skuli gjöra það, ef hann gangi að þeim kostum, sem hann setji honum. Þorsteinn vildi fá að heyra þá. Karl segir, það sje hið fyrsta, að hann verði að standa yfir fjenu sínu í vetur, og fylgja hundi sínum á hverjum morgni jafnsnemma og hann vilji á stað, og aldrei fara fyr til húsa, en hann vilji. Annað sje það, að eta æfinlega úr sömu skál og hundurinn. Þriðja, að gegna jafnan, er veiðiköttur sinn kalli, og fjórða, að ef annarhvor viðurkenni, að honum mislíki við hinn, þá megi sá drepa hann. Þorsteinn játar þessu öllu. Býður karl hon-

um svo til baðstofu; sjer hann þar ekki nema tvær stúlkur, aðra við aldur, en hina unga. Þykist hann vita, að það sje kona karls og dóttir. Ekki voru þau ræðin við hann um kvöldið. Þegar komið er að háttatíma, ber kerling inn 8 marka ask, fullan af hræringi og mjólk, og setur á gólfið. Bóndi kallar þá á seppa sinn og skreiðist hann framúr horni og tekur að lepja úr askinum. Þorsteini er þá og fenginn spóngepill, og sjer hann þá ekki annað vænna en að ráðast til matar með seppa. Þegar þeir eru á að gizka hálfnaðir úr askinum heyrir Þorsteinn mjálm. Þá segir karl »Nú kallar veiðiköttur minn«. Verður Þorsteinn þá að hætta við askinn og fara að leita köttinn uppi.

Skimar hann nú í hvert horn, sem honum finnst líklegt, að köttur geti dulizt í, en finnur ekkert. Þegar hann kemur inn aptur, er seppi búinn að þrífa askinn. Síðan er Þorsteini vísað til rúms. En þegar hjónin eru sofnuð um kvöldið, kemur bóndadóttir með mat og færir honum. Segist hún kenna í brjósti um hann, að hann skuli vera hingað kominn; segist hún sjá að hann sje bróðir manna þeirra tveggja, sem hjer hafi komið áður og faðir sinn hafi svelt til bana. Hún segir honum að hljóð þetta, sem hann heyri,

sje ekki mjálm, heldur sje það vein úr foreldrum bónda, sem nú sjeu nærri dauð úr hor og elli; sje þeim um þetta leyti færð ofurlítil næring, sem haldi við lífi þeirra, og sjeu þau að kalla eptir henni, en karl vilji með þessu ginna þá frá matnum, svo þeir fái aldrei fylli sína, en horist niður, og honum veiti því hægra að sálga þeim seinna. Þorsteinn þakkar henni fyrir góðvilja sinn, og spyr hana, hvort hún geti ekki vísað sjer á ljósfæri. Hún gerir það, og þegar nokkur stund er liðin, kveykir hann ljós og lýsir fyrir sjer, þar til hann kemur í skála einn. Sjer hann þar gamalmenni tvö örvasa og yfirkomin. Verður honum það þá fyrst fyrir, að hann nær í felhelluna og leggur hana yfir höfuð þeirra og þjappar ofan á; hugsaði hann á þá leið, að þau skyldu ekki banna sjer matfriðinn optar. Síðan fer hann í rúm sitt og sofnar.

Um morguninn vekur karl hann snemma til að fara með fjenu, segir að nú sje hundur sinn kominn á flakk. Þorsteinn klæðist skjótt og er þá askurinn kominn á gólfið. Taka þeir nú til matar síns, Þorsteinn og seppi. Þegar komið er ofan í miðjan askinn, gýtur Þorsteinn augum til karls, og þykir hann fara að ljókka á svip, og þyngjast brýrnar

því meir, sem neðar kemur í askinn, en lætur þó allt kyrt. Heldur Þorsteinn svo á stað með fjeð; voru þar sauðir svo margir, að ekki varð tölu á komið. Þekkir hann þar sauði föður síns, þá er seinast hurfu og nokkra fleiri. Hann stendur nú yfir allan daginn, og ekki leitar seppi heim fyr en í myrkri. Þegar Þorsteinn er búinn að hýsa og kominn heim að bæ, stendur karl í dyrum. Þorsteinn heilsar honum. Karl tekur því stuttaralega og segir »Drapstu foreldrana mína Hvekkur?« »Já«, segir Hvekkur, »eða fjell þjer það miður?« »O, ekki held jeg mjer fjelli það miður«, segir karl. Svo gengur Þorsteinn inn og fær askinn móti seppa eins og áður, og svo færði bóndadóttir honum mat um nóttina þegar hjónin voru sofnuð. Svona gengur nú á hverjum degi, að Þorsteinn stendur yfir fjenu og seppi fylgir honum, þartil honum fer loksins að leiðast, hve seppi er þrásætinn á kvöldum. Tekur hann það þá til bragðs einu sinni, að hann dregur ristarband úr skó sínum og bindur þjettingsfast um hálsinn á seppa, og gengur svo frá, að enginn misfella sást. Úr því fer seppi að ókyrrast og leita fyr heim á kvöldin, og loks fer svo, að hann hættir að eta, og einn morgun er þorsteinn býr sig með

fjenu, liggur hann dauður í bæli sínu. Um kvöldið þegar Þorsteinn kemur heim, stendur karl fyrir dyrum, afarillilegur og segir: »Drapstu hundinn minn, Hvekkur?« »Já« segir Þorsteinn »eða fjell þjer það nokkuð miður?« »O, ekki held jeg mjer fjelli það miður«, segir karl. Fer Þorsteinn nú inn og hefir allt eptir sínum geðþótta, etur einn allt úr askinum og stendur ekki yfir lengri tíma en honum þykir hæfilegt.

Um vorið verður karl þess var, að dóttir hans er farin að gildna undarlega mikið. Spyr hann þá Þorstein, hvort hann sje valdur að þessu. »Já«, segir Þorsteinn, »eða þótti þjer nokkuð miður?» »O, nei«, segir karl, »hvað ætli mjer þætti það miður«. Segir karl honum samt, að honum sje nú skammar nær að eiga hana, úr því hann sje búinn að fara svona að ráði sínu. Hvekkur sagðist vera fús til þess. Karl segir að þeir verði þá að byggja veizlusal, því ekki sjeu hjer húsakynni fyrir svo marga boðsgesti sem þurfi. Hvekkur tók því vel og taka þeir nú í samlögum að byggja, og gengur það greitt, því að Hvekkur var hagur vel. Fer karl síðan að bjóða til veizlunnar, en á meðan safnar Hvekkur hrísi og alls konar eldsneyti að skálanum. Kemur karl nú með boðs-

fólkið í ákveðinn tíma og er það flest ærið stórskorið og við hæfi karls. Allt hafði það hesta til reiðar, og eru þeir hýstir í rjett. Síðan er fólkinu boðið til skálans og sett við alls konar kræsingar og fagnað. Segir karl nú við Hvekk, að hann verði að kasta hýru auga til boðsgestanna. Gengur Hvekkur þá út og stingur annað augað úr öllum hestum boðsfólksins og tínir þau í belg; gengur síðan inn til boðsfólksins og kastar sínu auganu í hvern. Setur karl þá dreyrrauðan á að sjá, brestur á fætur og segir: »Hvar tókstu þessi augu Hvekkur?« »Jeg tók þau úr hestum boðsgestanna, því að jeg gat hvergi annars staðar fengið nógu mörg augu handa þeim; eða þótti þjer nokkuð miður?« »Já, víst þótti mjer miður«, segir karl. »Fyrst drapstu foreldrana mína, svo drapstu hundinn minn, svo gjörðirðu dóttur mína óljetta, svo stakkstu augun úr hestum boðsgestanna, og seinast drepurðu mig sjálfan«. Og er karl hafði þetta mælt, rennur Hvekkur á hann, og glíma þeir lengi, þartil Hvekkur fellir hann aptur á bak og hryggbrýtur hann. Að því búnu stekkur hann út, skellir hurðinni í lás, slær síðan eldi í viðinn og brennir allt til kaldra kola, nema þær mæðgurnar; hafði hann áður gefið þeim

bendingu um að forða sjer. Að þessu búnu tekur hann alla gripi karls, sem hann má komast með, og fjenað, og heldur með það heim. Fylgja þær mæðgur honum til byggða, og er nú ekki að orðlengja það, að hann giptist dóttur bónda um sumarið og setti bú saman. Varð hann hinn mesti auðnu- og merkismaður.

---

## Hafmærin á Sljettusandinum.

(Jón Davíðsson á Nesi í Norðfirði. Eptir Gunnhildi Einarsdóttur).

Einu sinn bjó ríkur bóndi á Eyri við Reyðarfjörð; eigi er þess getið, hvað hann hjet eða hvenær hann var uppi. Tvö af börnum hans eru nafngreind, sonur, Jón að nafni, og dóttir, er Guðrún hjet. Jón var hygginn maður og stilltur vel og Guðrún systir hans var kvenna fríðust og talin beztur kostur þar um slóðir í þann tíma. Þá bjó og bóndi nokkur í Bakkagerði, norðanmegin Reyðarfjarðar, búhöldur góður og

vel að manni. Sonur hans hjet Árni, gleðimaður mikill, hávaðasamur og ófyrirleitinn, sem síðar mun sagt verða. Þá er Árni var nær því fulltíða maður, tók hann að venja komur sínar að Eyri, til að skemmta sjer þar við þau syskin, er voru honum mjög jafnaldra. Leið hans lá inn fyrir Reyðarfjörð og út Sljettuströnd, sem er löng og ill yfirferðar. Brátt fór hann að leggjast á hugi við Guðrúnu, og þar kom, að hann bað hennar. Var það mál auðsótt bæði við hana og föður hennar, því að Árni var álitlegur maður og vel fjáreigandi. En er karl faðir hans vissi þetta, mælti hann: »Fögur er mærin og þjer fullkosta; en þunglega segir mjer hugur um þetta mál«. Árni hjelt fram uppteknum hætti og fór jafnan til fundar við þau syskin, er hann fjekk því við komið. Innar fyrir Reyðarfirði er sandur, sem nefndur er Sljettusandur og tekur nafn af bænum Sljettu, er stendur skammt fyrir ofan. Eitt haust, er hjer er komið sögunni, fóru menn að taka eptir því, að stelpuhnokki nokkur var einatt á ferli á sandinum á kvöldin, er rökkva tók, einkum ef tunglskin var á. Hún var á stærð við 10 ára gamalt stúlkubarn og hafði það til skemmtunar sjer að kasta smásteinum í lopt upp og hæfa þá.

Þetta sáu bæði þeir, er um sandinn fóru, og þeir, er bjuggu þar í grenndinni. Enginn skipti sjer neitt af henni, enda gaf hún sig ekki að neinum. Þá er bóndinn í Bakkagerði, faðir Árna, heyrði þessara tíðinda getið, kvað hann það vera mundu hafmey, er vildi tæla einhvern í greipar sjer. »En gefi sig enginn að henni að fyrra bragði, mun ekki saka«. Hann tók syni sínum sterklega vara fyrir, að skipta sjer í nokkru af hafmeynni, ella mundi illt af hljótast. Árni hjet góðu um. Litlu síðar hittust þeir gömlu bændurnir við kirkju að Hólmum. Biður þá Bakkagerðisbóndinn Eyrarbóndann að lofa Jóni syni sínum að fylgja Árna heim á kvöldin, ef hann yrði seint fyrir; skuli Jón sjá svo um, að hann gefi sig ekki í nokkru að hafmeynni. Karlinn lofar þessu fúslega og fer svo fram um hríð að Jón fylgir Árna heim á kvöldin, er dimma tók. Jafnan sjá þeir stelpuna á sandinum, en skipta sjer ekkert af henni og hún gefur sig heldur ekkert að þeim. Eigi leið samt á löngu, áður Árni fór að ympra á því við Jón, að hættulaust mundi að ganga í veg fyrir stúlkuna. Jón aftók það í alla staði, en Árni elur á. Það var eitt kvöld á jólaföstu í góðu veðri og glaða tunglsljósi að þeir ganga norður

sandinn að venju. Sjá þeir þá sem fyr, hvar stúlkan er að sínu vana verki, að hæfa steina á lopti. Árni talar enn við Jón, að gaman væri að koma til hennar. »Varast skaltu að breyta af ráðum föður þíns«, segir Jón, »mun þar ekkert gott af leiða«. »Hættulaust mun vera«, segir Árni, og skal jeg að vísu freista, hvernig fara mun«. »Hvergi mun jeg fara«, segir Jón, »en ráða verðurðu þínum gjörðum er þú vilt ekki góðra manna ráðum hlíta«. Árni snarast nú þar að, er mærin er fyrir, þrífur til hennar og segir með þjósti: »Hvað ert þú að gjöra hjer, kindin!« Jóni þykir þá undarlega bregða við, því að mærin verður allt í einu geysistór, grípur Árna í fang sjer, tekur á rás til sjávar og steypist á kaf. Kom þar hvorugt upp aptur. Hann snýr þá heim aptur til föður síns og segir tíðindin. Allir harma mjög afdrif Árna, einkum Guðrún. Er mælt að hún spryngi af harmi litlu síðar. Þá er faðir Árna frjetti lát sonar síns og með hverjum atburðum það hefði orðið, varð honum að orði: »Svo fór sem mig varði; en ekki má sköpum renna«. Hann var þá maður á gamals aldri og fjekk þetta honum svo mikils harms, að hann lá í rekkju fram á útmánuði um veturinn. En er hann var orðinn hress aptur, bað hann menn að gjöra

sjer aðvart, ef nokkur sæi hafmeyna aptur. »Er það lítill skaði, þótt jeg fari sömu leiðina og sonur minn, enda mun nú skemmst eptir leiðar fyrir mjer«. Þegar 3 ár voru liðin frá láti Árna, sáu menn enn á ný stelpu nokkra á Sljettusandi, er hafði sjer til gamans að hæfa steina á lopti. Þetta barst til eyrna gamla bóndans í Bakkagerði. Bregður hann þá við, fer í smiðju og smíðar sjer vopn eitt mikið. Litlu síðar fer hann heiman eitt kvöld i góðu veðri og var einn saman. Enginn vissi, hvað tíðinda gjörðist í förinni, en um morguninn var bóndi kominn í rekkju sína. Er mælt að hann hafi það eitt sagt frá atgjörðum sínum, að nú hafi hann hefnt sonar síns og muni enginn framar þurfa að óttast hafmeyna. »En einu sinni náði hún til mín og mun það verða minn bani«. Karl lá nú rúmfastur í viku og dó síðan. Þótti mönnum það mikill skaði, því að hann var hvers manns hugljúfi og sönn prýði sveitarinnar, fyrir dugnaðar sakir og vitsmuna.

---

## LEIÐRJETTINGAR.

Bls. 3. 14. l. a. n. »inn eptir«, l. »inn á eptir«.
— 9. 12. l. a. o. »vill svo«, l. »kveðst svo.«
— 15. 13. l a. o. »að honum þætti jafngott«, l. »er honum þætti jafngott að vera«.
— 15. 3—4. l. a. n. »honmu«, l. »honum«.
— 22. 6. l. a. n. »illt var«, l. »illt væri«.
— 27. 9. l. a. n. »enginn«, l. »engin«.
— 39. 6. l. a. o. »fyir«, l. »fyrir«.
— 48. 10. l. a. o. »Sunnarvindur«, l. »Sunnanvindur«.
— 81. 11. l. a. o. »mans«, l. »manns«.

sjer aðvart, ef nokkur sæi hafmeyna aptur.
»Er það lítill skaði, þótt jeg fari sömu leiðina

# SAGNAKVER

## II

ÚTGEFANDI

**BJÖRN BJARNASON**

FRÁ VIÐFIRÐI



ÍSAFJÖRÐUR

PRENTSMIÐJA »VESTRA«

1903

# Efnisyfirlit.

## Biðillinn.

(Hdr. Helga Jónssonar, Grænavatni).

Einu sinni voru ríkishjón nokkur, sem áttu sjer einn son. Hann var allra mesti aulabárður og varð honum eigi talið annað til ágætis en arfsvonin ein. Eitt var það, sem einkendi hann öðru fremur, og það var, að hann þurfti ósköpin öll að jeta. Þegar hann var kominn um tvítugt, fór honum sem mörgum karlmanni er títt, að hann vildi endilega fá sjer konu og giptast. Varð það úr að faðir hans lagði á stað með hann í bónorðsför. Móðir hans hafði áður borið ilmvatn í föt hans og gefið honum svo hljóðandi heilræði: »Et þú mat þinn ofurnett, allt eins og þú vitur sjert.« Segir nú ekki af ferðum þeirra feðga fyr en þeir komu á bæinn, þar sem konuefnið átti heima. Þeim var boðin gisting og veittur góður beini; ásamt fleiru góðgæti fengu þeir þykkan mjólkurgraut með smjöri út í. Biðillinn hafði í huga áminningar móður sinnar og þorði því ekki að borða nægju sína; þótti honum þó sárt að hætta við grautinn.

Svo var háttað húsakynnum á bæ þessum, að gengið var úr öðrum baðstofuenda í búrið; þangað voru leifarnar bornar; sá biðillinn að grauturinn var látinn í krukku og hún lokuð inni í skáp andspænis dyrum. Um kvöldið, er húsfreyja kemur inn frá frammiverkum, fer hún að fussa og sveia; segir að það sje eitthvað svo vond lykt í baðstofunni; hundarnir sjeu þó aldrei inni. Þá gellur biðillinn við og segir: »Ef hjer er nokkur lykt, þá er hún af mjer!« Húsfreyja brosti. Þegar leið að háttum, fann biðillinn á sjer, að hann mundi ekki geta sofnað fyrir hungri; bað hann því föður sinn að lofa sjer að hvíla við stokk og hugðist að ná sjer í matarbita úr búrinu um nóttina. Þegar allir voru sofnaðir í baðstofunni, skreiðist hann á fætur og læðist fram í búr; en er hann ryðst inn úr dyrunum, rekur hann sig á eitthvað, og verður af því mikill skarkali og gusugangur, eins og steypt sje úr mörgum kyrnum. Hann gefur sig ekki að því. Dimmt var í búrinu, því að enginn gluggi var á þeirri hliðinni, er mót tungli vissi; hann finnur að gólfið var allt rennvott; þreifar hann nú fyrir sjer og finnur loks skápinn með matarleifunum; tók hann þar sláturkepp af diski og grautarkrúsina og fer með það til baðstofu, því að honum þykir nota-

legra að borða það þar í hlýjunni en frammi í kuldanum og bleytunni. Ofurlítil tunglskinsglæta var í baðstofunni. Fyrst leggur hann að keppnum og stýfir hann úr hnefa; því næst vill hann gæða sjer á grautnum og hyggst að súpa hann úr krúsinni, því að enginn var spónninn; en þegar til kom var grauturinn svo þykkur, að hann hnje ekki. Nú dettur honum í hug að nota fingurna fyrir spón; rekur því höndina niður í krúsina; en þá vill svo óheppilega til að hún situr rígföst, er hann vill draga hana að sjer aptur. Veit hann nú ekki sitt rjúkandi ráð. Loks dettur honum í hug að fara fram í göng og mölva krúsina við stein heldur en að sitja svona fastur til morguns. Í sama bili sjer hann glitta í eitthvað gráhvítt rjett hjá sjer og heldur að það sje steinn; reiðir hann þá til höggs og rekur krúsina af alefli í steininn, er hann hugði vera. En samstundis heyrist ógurlegt hljóð, svo að allir vakna í baðstofunni; fer bóndadóttir á fætur og kveykir. Sjer hún þá heldur verks ummerki; trogabekknum í búrinu hafði verið rutt um koll, svo að gólfið flaut allt í mjólk og í baðstofunni fann hún föður sinn rotaðan í rúminu. Hafði tunglið skinið á skallann á karli og það hjelt biðillinn að væri steinn. Nú var búið með bónorðið og

hjeldu þeir feðgar heimleiðis þegar um nóttina. Mælt er að karl hafi heitið því syni sínum, að fara eigi með honum í fleiri bónorðsfarir.

---

## Kistufoss.

(Sögn stud. jur. M. Jónssonar).

Í útsuðurhorninu á Úlfljótsvatnskirkjugarði er leiði, sem nú er lágt og lítið um sig. Þar kvað vera grafinn útlendur höfðingi, sumir segja danskur aðalsmaður, er vera skyldi höfuðsmaður á Íslandi. Hann ljezt í hafi á leið út hingað, en mælti svo fyrir áður hann dó, að smíða skyldi þegar utan um sig og leggja með sjer í kistuna allt gull sitt og gersimar; skyldi síðan kistunni skotið fyrir borð og hún grafin að þeirri kirkju, er næst stæði þeim stað, er hana bæri að landi, því að þar mundi beztur legstaður á Íslandi. Nokkru síðar fannst kistan undir fossi þeim í Soginu, er síðan heitir Kistufoss. Það er í Úlfljótsvatnskirkjusókn og því var hún jarðsett að þeirri kirkju.

---

## »Kalt er mjer löngum.«

(Hdr. Lárusar stúdents Halldórssonar frá Miðhrauni).

Einu sinni voru hjón á bæ. Ekki er þess getið, hvar það var eða hvað þau hjetu. Þau áttu margt barna, og öll á ómagaaldri, er saga þessi hefst. Vinnuhjú höfðu þau ekki ráð á að halda sakir efnaskorts, og varð því konan að ganga á engjar á sumrum og raka á eptir bónda sínum; var það vandi hennar að hafa með sjer börnin til þess að hún gæti haft auga á þeim. Einn dag sem optar voru þau hjón að heyskap. Hafði þá konan, áður en hún byrjaði á rakstrinum, svæft yngsta barn sitt, tvœvetra stúlku, og búið um hana undir fangahnapp; skyldu eldri systkin hennar hafa gætur á henni. En svo fór, að þeim leiddist að sitja alltaf hjá henni og hlupu burt að leika sjer. Á meðan kom örn og hremmdi barnið. Flaug örnin á burt með það í klónum. Foreldrunum brá heldur en ekki í brún, þegar börnin sögðu frá því, er þau höfðu sjeð, að stór fugl hefði komið og hremmt systur þeirra. Ljetu hjónin leita barnsins lengi og

víða, en allt kom fyrir ekki, og urðu menn einskis vísari um það, hvar stúlkan væri niður komin, með því engin örmol sáust. Liðu svo mörg ár og gleymdist atburður þessi smám saman. En þá víkur sögunni í annað hjerað, allfjarri átthögum stúlkunnar horfnu. Þar bar svo við um haust, 6 árum eptir að mærin hvarf, að menn fóru í eptirleitir fram á afrjetti. Einn af leitarmönnum var bjarggöngumaður góður og vanur að sækja fje í kletta. Nú kom þar, sem optar, að hann þurfti á brattgengi að halda til þess að ná kindum úr klettasvöðum í hárri fjallsbrún. Gekk hann eptir stöllunum, unz hann komst fyrir kindurnar; en þar sem hann komst lengst í klettunum var kringlótt grastó og ofurlítill skúti inn undir bergið. Hann sjer þar í tónni eins og bæli eða hreiður og liggur þar hálfnakið meybarn á að gizka 8—9 vetra. Hann sá skjótt að þetta var fuglshreiður; ægði þar saman lambabeinum og eggjaskurni; þóttist hann þekkja að skurnið var af arnareggjum. Maðurinn tók nú meyna með sjer; var hún treg til að fara, þótt fátt mælti hún. Flutti hann hana til mannabyggða og kom henni í fóstur á þeim bæ, er hann hitti fyrst fyrir. Hún lærði brátt málið og var fljót að semja sig að siðum manna. Komust menn þá að raun

um, að örnin hefði haldið lífi í henni í 6 ár, fært henni mat með ungum sínum og látið hana sjúga blóðfjaðrir sínar. Engin deili vissi fólk þar á henni, og var því farið með hana líkt og gerist með sveitarómaga. Var mærin sífellt óánægð og fáskiptin, enda var hún lítils metin og horn haft í síðu hennar af flestum. Hún var látin vinna allt það versta og fjekk ekki annað rúm að liggja í en heybæli gegnt dyrum, þar sem kaldast var. Eitt kvöld er fólk var gengið til rekkju, heyrir það að tökustúlkan mælir þessa vísu fyrir munni sjer:

»Kalt er mjer löngum,
kúri jeg ein í sæng. —
Heitara var mjer forðum
undir arnar minnar væng.«

»Enda skal jeg nú leita aptur til fóstru minnar,« sagði hún. Hjeldu menn þetta markleysu eina og fengust eigi um. Leið svo nóttin. Að morgni, er fólk kom á fætur, var stúlkan horfin. Var hennar leitað nokkuð, en hún fannst eigi fyr en löngu seinna. Var hún þá örend og sat undir steini frammi á afrjetti, neðan undir hömrunum háu, þar sem örnin bjó, fóstra hennar. Mælt er að foreldrar hennar hafi fengið að vita alla þessa atburði löngu síðar, þegar orðið var um seinan að bjóða

henni betri vist en þá, sem hún hafði notið undir arnarvængnum.

---

## Sólheima-Móri.

**(Eptir sögn stúdents úr Breiðafirði).**

Í tíð síra Búa Jónssonar á Prestbakka gengu miklar sögur af Sólheima-Móra. Prestur var lítt trúaður á drauga og forynjur, og kallaði það hindurvitni. Gjörði hann einatt gys að, er menn töldu harma sína yfir usla þeim, er Móri hefði valdið. Eitt sinn sem optar er prestur að hallmæla draugsa og heitir á hann að hann sýni sig ef hann þori. Kemur þá kona hans að og biður hann fara varlega í heitingar við Móra; hann kunni að finna hann í fjöru, þótt síðar verði. Prestur brá á glens og kvað:

»Sólheimóttur sýnist mjer
sig fyrir utan gluggann spreyta.
Uggir mig hann ætli þjer
árásir í nótt að veita.«

Um kvöldið er þau hjón voru gengin að

sofa, lá prestur lengi andvaka og gat ekki fest svefninn; fannst honum eins og einhverjar kynjamyndir væru á flökti frammi fyrir rúmstokknum, og loks er lagst á gluggann og kveðið með ámátlegri röddu:

»Vaki þú Búi,
viljirðu finna Móra!
Knæfur er knúi;
kyrkt hef jeg fjóra!
Lítt' upp í ljóra!
Lítt' upp í ljóra!

Er mælt að presti yrði svo hverft við, að hann þyti í ósköpum upp fyrir konu sína í rúminu.

---

## Jón og Ólöf.

(Að mestu eptir hdr. frá Einari Sigurðssyni á Búðum).

Einu sinni var prestur; ekki er þess getið, hvað hann hjet eða hvaða brauði hann þjónaði. Kvongaður var hann og átti sjer tvö börn, pilt og stúlku; hjet pilturinn Indriði

en stúlkan Ólöf. Það segir ekkert frá þeim systkinum fyr en þau voru komin vel á legg. Var þá Indriði sendur í skóla, en Ólöf var kyr heima og nam af móður sinni allt, er þurfa þótti, því að prestskonan var einkar vel að sjer bæði til munns og handa. Gjörðist Ólöf afbragð annara kvenna að kunnáttu og vitsmunum, og fríðleik bar hún af flestum öðrum.

Það bar við eitt haust að fjárheimtur voru illar þar í sveitinni. Ráðgjörðu bændur því að senda menn í eptirleit og hjeldu fund þess efnis eptir messu einn sunnudag. Ákváðu menn að vinda svo bráðan bug að þessu, að leitin skyldi hafin þegar á mánudagsmorgun; skyldi fara einn maður frá hverjum bæ. En það er frá presti að segja að hann var bláfátækur og vinnufólksfár; hafði hann engum á að skipa nema Indriða syni sínum, er þá var nýfarinn til skólans. Gjörði hann honum því orð að bregða við sem skjótast og koma heim. En svo var skólinn langt frá prestssetrinu, að Indriði náði ekki heim fyr en á mánudagskvöld. Var þá allt tilbúið, er hafa þurfti til göngunnar; skyldi hann leggja á stað að morgni á eptir leitarmönnum. Þegar Ólöf vissi þessa ráðagjörð, vildi hún endilega fara með bróður sínum; en prestur aftók það. Ólöf sat við sinn keip og kvaðst ekki sleppa

Indriða einum, því að hann átti vanda fyrir að fá aðköst svo hættuleg, að hann mátti naumast vera einn saman. Svo varð það þá úr að Ólöf fór með Indriða í leitina. Þegar þau höfðu farið eina dagleið, verður Jóni svo illt að hann treysti sjer ekki að halda fram ferðinni. Tjölduðu þau þar um nóttina. Þetta var eigi alllangt frá skólanum, og kom þeim systkinum ásamt um að Indriði skyldi fara aptur til skólans, en Ólöf halda fram leitinni. Fjekk Ólöf honum brjef, er hún skrifaði um nóttina og bað hann færa það skólastjóra; var það þess efnis að hann skyldi veita Indriða aptur viðtöku og kvaðst hún mundi sjá um borgunina er hún kæmi aptur. Indriða þótti sárt að skilja við systur sína og láta hana fara eina á fjöll upp á haustdegi; en svo varð nú samt að vera sem hún vildi; fylgdi hún honum í nánd við skólann og kvaddi hann þar. Hjelt hann á fund skólastjóra, fjekk viðtöku og tók upp nám sitt að nýju. — En það er frá Ólöfu að segja að hún hjelt áfram upp um fjöll cg firnindi heila viku samfleytt og verður einskis vör, hvorki fjenaðar nje hinna leitarmannanna. Svo var það einn morgun, er hún vaknaði í tjaldi sínu, að dottin var á kafaldshríð; hún hjelt samt fram göngunni; en er á leið daginn, dimmdi veðrið

og jókst snjókoman, svo að hún sá sjer ekki annað fært en að búast um í tjaldi sínu löngu fyr en vandi hennar var til, því að bæði var að hún vissi ekki lengur, hvað hún fór, og svo var hún orðin steinuppgefin af kafstrinum. Var hún nú mjög hnuggin og hugsandi og þótti tvísýnt um, hvort henni mundi nokkru sinni auðið að ná til byggða ef veðráttu brigði. Loksins sofnaði hún úrvinda af angri og þreytu. Um nóttina dreymir hana að maður komi til sín og segi við sig: »Vertu hughraust, stúlka mín! Nú er bráðum sigurinn unninn. A morgun þegar þú vaknar mun verða birt upp snjóveðrið; muntu þá sjá hátt fjall hjer fyrir ofan þig; þú skalt ganga upp á fjallið og muntu þá sjá ofan í dal einn, þar sem snjólaust er. Í dal þessum muntu finna það, sem þú leitar að.« En er hún vaknaði um morguninn og leit út úr tjaldi sínu, var komið bjart veður og heiðskírt. Varð henni þá hugsað til draumsins og þóttist vita að þetta mundi hafa verið vísbending frá guði. Hún sá og fjallið, er draummaðurinn hafði vísað henni á. Fór hún nú að hypja sig til ferðar og hjelt upp eptir hlíðunum; voru þær snarbrattar og illar uppgöngu; hafði hún aldrei áður komizt í slíkar torfærur, enda lá við sjálft að hún hyrfi frá, en tilhugsunin um drauminn

hjelt hugrekkinu uppi og jók henni afl um helming. Eptir langa mæðu náði hún fjallsegginni, og blasti þá við henni ljómandi fallegur dalur; þar var auð jörð upp í efstu tóar og blómleg engi hið neðra. Skundaði hún nú niður brekkurnar harla ljett í spori; þótti henni þar svo yndislegt um að litast, að henni fannst sem hún mundi geta unað þar æfilangt.

Nú víkur sögunni til foreldra hennar. Þegar hinir komu úr leitinni og höfðu ekki orðið varir við þau systkin, Indriða og Ólöfu, urðu þau næsta hugsjúk um, hvað af þeim mundi orðið Skömmu síðar frjettist að Indriði hefði horfið aptur til skólans, en Ólöf haldið ein til fjalla í sauðaleit. Við þessi tíðindi þyngdi þeim hjónum mjög, því að nú þótti örvænt um apturkomu Ólafar. Lagðist prestkonan í rekkju og tregaði dóttur sína sáran. Leiddi sá harmur hana til bana. Prestur varð þá lítt mönnum sinnandi er hann varð að sjá þeim báðum á bak. En það er frá Ólöfu að segja, að þá er hún var komin ekki alllangt niður í dalbrekkurnar, heyrði hún hó og hundgá, og litlu síðar gat hún að líta fjárhóp einn mikinn og mann á eptir. Skömmu á eptir sjer hún, hvar kemur annar fjárhópur og maður á eptir. Bíður hún nú þar til hann

er kominn áveðurs við hana; hún gengur þá í veg fyrir hann og heilsar honum, en hann tekur ekki undir; ljet hann sem hann sæi hana ekki og hjelt áfram með fjeð, en hún gekk í humáttina á eptir. Hún sjer þá bæ einn framar í dalnum, er stóð á sljettum völlum við ána; maðurinn stefnir þangað. Rekur hann tjeð heim að húsunum og fer að hýsa, en hún hjálpar honum. Þegar þau eru búin að koma fjenu inn, ætlar hann að halda rakleiðis til bæjar án þess að skipta sjer hót af henni. Hún gengur þá að honum og segir: »Sje jeg gjörla að jeg er hjer ekki velkominn gestur; en þó vil jeg biðja þig að skila til þess, er hjer á húsum að ráða, hvort hann vilji leyfa mjer næturvist.« Maðurinn verður dapur við og segir: »Ekki mun jeg fara með þeim skilaboðum, því að viljirðu mínum ráðum gegna og sjertu ekki feig, þá haf þig á brott hjeðan sem skjótast; engum manni, sem hjer hefur verið gisting gefin, hefur auðnazt að sleppa burt með lífi og limum. En mjer er ekki um það gefið að sjá þig drepna fyrir augum mjer.« »Ekki skal jeg trúa því, að húsbændur þínir, sjeu svo ósvífnir þorparar, að leggja hendur á varnarlausa stúlku, er ber hjálparþurfa að húsum þeirra.« Maðurinn hljóðnaði við, en sagði svo eptir stundarumhugsun:

»Fari þá sem auðið er, þótt vel megi vera að þetta verði bani okkar beggja.« Síðan leiðir hann hana í afhýsi eitt og biður hana bíða sín þar, unz hann vitji hennar aptur. Skuli hún ekki láta sjer bregða, hvaða ógang og læti sem hún kunni að heyra, heldur bíða róleg komu hans. Að svo mæltu fer hann inn. Að stundu liðinni heyrir hún einhver óskapa læti, líkast því sem fleiri sæktu að einum; þetta hjelzt alllengi, unz allt datt í dúnalogn. Kveið hún því að nú mundi úti um sig, en í sama bili kemur sami maðurinn aptur til hennar og segir að nú sje henni óhætt að koma inn með sjer. Fylgir hann henni til baðstofu og sjer hún þá, hvar tveir menn liggja dauðir á gólfinu; var það karl og kerling. Segir hann henni að það sjeu foreldrar sínir, er þar liggi; hafi hann ráðið þeim bana í þessum svifum til þess að bjarga lífi hennar og gjöra henni greitt fyrir um gistinguna. Þau drógu nú líkin út og dysjuðu þau skammt frá bænum. Að því loknu settust þau að snæðingi og gengu því næst til rekkju. En er Ólöf var nýbúin að festa svefninn, talar maðurinn til hennar og biður hana að standa upp og hjálpa sjer, því að hann geti ekki sofið fyrir sviða í sári, sem hann hafi fengið á herðablaðið í viðureigninni um kvöldið.

Olöf fer þá á fætur og kannar sárið; var það bæði mikið og ljótt. Þvoði hún það upp og bjó um sem bezt hún mátti.

Líða nú svo stundir fram, að Ólöf dvelst í dalnum, og er allt tíðindalaust fram að jólum. Þá tók sárið sig upp aptur og hafðist svo illa við, að maðurinn gat ekki gætt fjárins og varð að leggjast í rekkju. Fór þá Ólöf með fjenu á degi hverjum. Manninum fór dagversnandi, og eitt kvöld er Ólöf kom heim frá sauðum, var hann að kominn dauða. Fjell henni þungt að sjá hann svona sárþjáðan og þótti sár tilhugsun að hann ætti allt þetta upp á sig. Hann bað hana með veikum burðum, að reyna að komast í skáp einn gamlan, er þar stóð í baðstofuhorninu, og vita hvort hún fyndi þar ekki smyrslabauk; sagðist hann einu sinni hata sjeð kerlinguna fara inn í skápinn og taka þar smyrsl, er karlinn hafði höggvið sig í fingur. Ólöf náði smyrslunum og bar á sárið; dró þá jafnskjótt allan sviða úr. — Maðurinn hafði jafnan verið fálátur og lítið talað við hana; vissi hún því engin deili á honum önnur en þau, er hann hafði sagt henni að karlinn og kerlingin, sem hann drap, hefðu verið foreldrar sínir. Hún hafði heldur ekki grennslast neitt eptir um hagi hans og ekki viljað biðja hann að fylgja sjer til byggða fyr

en hann væri algróinn sára sinna. En nú innti hann henni allt af ljetta um ástæður sínar. »Var það raunar ekki satt, er jeg taldi þjer trú um í fyrstu, að jeg væri sonur karls og kerlingar, enda geturðu ímyndað þjer, að jeg mundi þá ekki hafa orðið banamaður þeirra. Hitt var heldur að þau voru hið versta útileguhyski. Nafn mitt er Jón og er jeg ættaður af Norðurlandi; þaðan rændi karlinn mjer fyrir 16 árum, og hafði mig jafnan síðan til að stela með sjer fje frá byggðarmönnum, mjer að þvernauðugu. En svo fer jafnan sem mælt er, að frekur er hver til fjörsins, og vann jeg mjer það til lífs að láta að vilja hans; en að öðru leyti hef jeg engum manni mein gert. Fyrst framan af sat jeg um það öllum stundum að strjúka til byggða, en fjekk aldrei færi á því; en síðan er sekt hlóðst á höfuð mjer af stuldi þeim, er karlinn ljet mig fremja, hugði jeg af því ráði, enda vissi jeg að byggðarmenn mundu óðar taka mig og hengja. Þannig er jeg dæmdur af illum örlögum til að lifa sem óbótamaður alla æfi og ala aldur minn í einveru og stríði fjarri öllum mannabyggðum. Jeg var barn, er mjer var rænt, og hef því ekkert numið, nema illt eitt; á jeg engu öðru fyrir að þakka en guði og því góða upplagi, er jeg hefi erft frá for-

eldrum mínum, að jeg er ekki orðinn forhert-
ur ræningi og manndrápari sem karlinn fóstri
minn.« Jón varp mæðilega öndinni og sýnd-
ist Ólöfu tár hrjóta af augum hans. Hún
reyndi að hughreysta hann á allar lundir og
stakk upp á því við hann að koma með sjer
til byggða þegar er sumraði. Jón tók því fjarri
og kvað það ekki mundu verða til annars en
að hann yrði þegar drepinn sem hver annar
fjallaþjófur. »Fjarri fer því«, sagði Ólöf;
»kann þá faðir minn illa að launa lífgjöf dótt-
ur sinnar, ef hann lætur slíkt viðgangast; það
get jeg sagt þjer, að honum þykir vænna um
mig en svo. Mun honum innan handar að fá
þig friðaðan á þingi í vor. En Jón var tregur
að trúa því; þó kom svo fyrir þrábeiðni henn-
ar og fortölur að hann hjet að fara með henni,
þó með því einu skilyrði að hún hjeti sjer eig-
inorði. Ólöf tók því vel og kvað hann manna
maklegastan að njóta sín. – Nú fór Jón bráð-
um að hressast og að hálfsmánaðarfresti frá
því, er hann fjekk smyrslin, var hann algró-
inn. Það sem eptir var vetrarins notaði Ólöf
til að kenna Jóni hina nauðsynlegustu fræði,
svo sem undirstöðuatriði trúbragðanna, skript
og reikning. Gekk Jóni vel námið, enda var
hann bæði skýr og námfús. Fór hann einatt
skrifandi með staf sínum, er lausamjöll var á

jörðu. Svo liðu stundir fram, þar til er vika var af sumri. Bjuggust þau þá til ferðar með allt það, sem fjemætt var í kotinu. Höfðu þau fjóra hesta undir burði og tvo til reiðar. Fjeð ráku þau á undan sjer; var mikill hluti þess eign bænda í sveit Ólafar.

Nú víkur aptur sögunni til prests. Hann hafði sjaldan fylgt fötum síðan Ólöf hvarf. Þó var sem einhver vonarneisti lifði hjá honum enn um að sjer mundi ef til vill auðnast að sjá hana, því að hann lagði það í vanda sinn að spyrja jafnan þann, er fyrstur var á fótum á morgnana, hvort hann hefði engin nýbrigði sjeð úti, er hann leit til veðurs. Einn morgun er rúm vika var af sumri segir ráðsmaðurinn, er Einar hjet, að stóreflis fjárbreiða sje að fara niður í afrjettina og kveðst hann ekki vita hverju það sæti. Presti brá svo við tíðindin, að hann klæddist þegar, og er hann kom út, riðu þau Ólöf og Jón í hlaðið. Varð þar mikill fagnaðarfundur. Ólöf tók í höndina á Jóni, leiddi hann fyrir föður sinn og mælti: »Hjer er sá maður, sem þú átt fyrir að þakka að þú sjerð mig á lífi. Hefur hann frelsað mig úr illra manna höndum, og máttu nú launa honum sem þjer þykir vert.« Innti hún föður sínum frá öllu og bað hann nú reynast Jóni sem maklegt væri. Prestur

kvaðst ekki geta umbunað það, eins og hann ætti skilið, en viljann vantaði sig ekki. Þóttust sumir taka eptir því að hann liti höllum augum til Jóns og teldi hann vondan gest, þótt hann ljeti það ekki á sjer finna. — Prestur sendir nú mann um sveitina og biður bændur að koma og vitja fjár síns, því að hann vildi að það yrði skilið frá um daginn. Kom þar saman fjöldi manns við rjettina, og var hverjum dregið, það er átti, og þeim rekið, er eigi voru viðstaddir. Jón áskildi sjer allt það fje, er ómarkað væri, og líkaði öllum það vel. Þess skal getið að þar við rjettirnar var staddur fátækur maður, sem Einar hjet, og sonur hans ungur, Jón að nafni. Sveininum þótti gaman að kindum, en átti þó enga sjálfur. Var hann löngum um daginn að strjúka mókollótta á, sem þar var í rjettinni og Jón átti, og dáðist mjög að, hvað hún væri falleg. Nafni hans vjek sjer þá að honum og sagði að hann mætti eiga ána ef honum ljeki hugur á. Varð Jón litli einkarglaður við, hljóp um hálsinn á nafna sínum og sagði: »Guð launi þjer gjöfina, Jón, því jeg veit að jeg mun aldrei gota það.« Ekki er þess getið að fleira hafi borið til tíðinda við rjettina; fóru bændur heim til sín og þóttust vel hafa heimt.

Jón var heima á prestssetrinu fram yfir

fráfærur. Þá var hann látinn fara í sel til að gæta ásauða um sumarið. Ólöf fór líka og skyldi hún vera selkona; ein griðkona var og með, til þess að hjálpa henni við ljósaverk og mjaltir. Nú líður og bíður fram til þess dags, er menn skyldu ríða til þings. Kom þá fjöldi manna á prestssetrið, sem ætluðu að verða presti samferða. Var þeim öllum boðið til stofu og sátu þeir þar á tali við prest. Þess verður að geta, að þar í sveitinni var flökkudrengur einn, er Magnús hjet. Það var vani hans að hafa sig jafnan þangað, er eitthvað mikið var um að vera. Hann kom þennan dag á prestssetrið og hafði sig að stofudyrum, og beið þess að honum yrði vikið góðu af því, er á borð var borið fyrir gestina. Um kvöldið, þegar farið var að hátta, hafði hann sig aptur á kreik, og kom um morguninn þangað, sem Jón litli átti heima; stóð svo á að Jón litli kom frá ánum, er Magnús bar að garði, og var nýbúinn að smala til morgunmjalta. Magnús heilsaði honum kumpánlega og bauð honum þegar í glímu. En Jón kvaðst nú ekki vera í þeim ham, að hann gæti farið að glíma, þar sem sig vantaði hana kollu sína, sem hann nafni sinn hafi gefið sjer. Magnús hló við og sagði: »Hann gefur þjer víst ekki fleiri ærnar hjeðan af.« »Hvað

segirðu?« spurði Jón og fór ekki að standa á sama. »Það var ekkert,« sagði Magnús. »Jú víst,« sagði Jón; »þú sagðir, að hann nafni minn mundi víst ekki gefa mjer fleiri ær. Hvað meinarðu með því?« »O, ekki svo sem neitt,« sagði Magnús og sýndi á sjer fararsnið. »Segðu mjer, góði Magnús, hvers vegna þú sagðir þetta; jeg skal þá útvega þjer heila pottbrauðssneið hjá henni mömmu og væna smjörsköfu ofan á,« sagði Jón. Magnús innti þá allt af ljetta um samtal prests og gesta hans; kvað hann þá hafa orðið ásátta um að fara með Jón á þing og láta taka hann af, því að hann hlyti að vera argasti þjófur, sem nú hefði leitað til byggða, er hann hefði aflað sjer fjárstofns af stolnu fje bænda. Jón litli spurði hvort þeir hefðu verið farnir. »Já,« sagði Magnús, »það var sent eptir Jóni þegar um kvöldið og ljet prestur segja honum að hann yrði að fara með á þing til að láta friða sig, því að því gæti ekki orðið framgengt nema hann væri sjálfur með. Þegar Jón litli heyrði þessi tíðindi, beið hann ekki boðanna, heldur hljóp þegar inn til móður sinnar og sagði sig vantaði hana kollu og færi hann nú að leita að henni; bað hann líka móður sína að gefa Magnúsi væna brauðsneið, því að hann hefði hjálpað sjer að smala. Að

svo mæltu þaut Jón litli á stað og hljóp allt hvað aftók, unz hann kom þangað, er Ólöf var við mjaltir í selinu. Hann fleygði sjer á kvíavegginn og gat engu orði upp komið fyrir mæði. Ólöf heilsaði honum og sagði: »Mikið hefur þú fyrir henni kollu þinni, Jón litli; hún er hjerna í kvíunum.« »Jeg er annað að hugsa núna en um hana kollu,« sagði Jón og bað Ólöfu að finna sig út þegar. Sagði hann henni frá öllu, sem hann hafði orðið vísari af Magnúsi. Ólöfu brá næsta mjög við tíðindin og sá að nú var ekki til setunnar boðið. Bað hún Jón að flýta sjer heim til föður síns og skila til hans, að hún bæði hann að ríða með sjer til þings og ljá sjer hesta; skyldi hann hafa sem hraðast við og vera kominn um kvöldið á prestssetrið; mundi hún þá verða tilbúin. Jón litli ljet ekki segja sjer þetta tvisvar og tók þegar á rás. Ólöf bað vinnukonuna að gæta búverka, því að hún yrði að bregða sjer heim. Enginn var hestur í selinu, og varð hún því að fara fótgangandi. Jafnskjótt sem hún kom heim fór hún að tygja sig til þingreiðar og hafði hún lokið því um kveldið, er Einar kom á prestssetrið með hesta og allan útbúnað, er hafa þurfti til ferðarinnar. Lögðu þau á stað þegar um kvöldið og fóru náttfari og dagfari, unz þau

komu á Þingvöll. Þá mættu þau tveimur mönnum, er höfðu Jón bundinn á milli sín; voru þeir á leið með hann til gálgans. Jón leit angurværum augum til Ólafar og mælti: »Þetta grunaði mig löngum.« Ólöf gaf sig ekkert að því, en bað þá, er með hann fóru, að hinkra við fjórðung stundar meðan hún færi á fund dómarans og gæfi upplýsingar í málinu. Þeir lofuðu henni því. Ólöf gekk til lögrjettu og rakleitt inn, þótt það þætti í þann tíma ósvinna mikil, að konur gengu í lögrjettu. Hún gekk innar fyrir dómarann, hneigði honum og fleygði skjali á borðið, er hún hafði ritað, áður en hún lagði á stað að heiman; bað hún dómarann að lesa það. Hann gjörði sem hún beiddi; en er hann hafði lesið nokkuð, gjörði hann ýmist að fölna eða roðna. Byrjaði hann þá á því á ný og las upphátt, þar til er hann kom að því, er Ólöf sagði frá að Jón væri lífgjafi sinn; spurði hann þá prest, hvort það væri satt; en hann svaraði engu og sat fölur sem liðið lík. Dómarinn innti þá aðra sveitarmenn eptir hinu sama, og kváðu þeir það satt vera. Kallaði hann þá til þjóns síns og bað hann fara sem hraðast til aftökustaðarins og láta sleppa Jóni, ef það væri ekki ofseint. Í því bili, er þjónninn kom til gálgans hafði böðullinn brugðið snör-

unni um hálsinn á Jóni; en ljet hann nú lausan. Presti var mjög hallmælt fyrir tiltæki sitt og kvað dómarinn maklegast að hann væri hengdur í stað Jóns. En sakir fyrirbæna Ólafar og sveitarmanna, slapp hann við svo harða hegningu, en var þó dæmdur frá kjól og kalli og yfirráðum eigna sinna. Var búið fengið í hendur þeim systkinum Indriða og Ólöfu. Prestur fór ekki heim af þingi, heldur eitthvað austur á land, og er hann úr sögunni. En það er af þeim Jóni og Ólöfu að segja, að þau giptust þegar er þau komu heim aptur. Jón litla tóku þau til sín og veittu honum uppeldi og menntun; varð hann seinna mesti merkisbóndi. Einari föður hans gáfu þau sex hundraða jörð fyrir þingfylgdina. Sömuleiðis tóku þau Magnús af vergangi og gjörðu hann að dugandi manni. Endar hjer svo sagan af Jóni og Ólöfu.

---

## Skriðu- Gvöndur.

(Sögn Þorsteins hreppstjóra Guðmundssonar á Höfðahúsum).

Einu sinni, rjett eptir 1600, voru hjón nokkur frá Skriðu í Breiðdal stödd við kirkju

að Heydölum með son sinn tvævetran, Guðmund að nafni. Þegar lokið var guðsþjónustugjörð, bauð prestur þeim til stofu að þiggja góðgjörðir, sem opt er títt á Íslandi. En er þau hafa setið um stund, sakna þau drengsins. Fara þau þá að svipast eptir honum, en hann finnst hvergi lengi vel. Loks kemur þar einhver að og segist hafa heyrt barnsgrát úti í kirkju. Konan hleypur þá á stað; en er hún kemur út að kirkjudyrunum, mætir henni ókenndur maður með son hennar hágrátandi í fanginu. Þegar er hann sjer hana, fleygir hann til hennar sveininum harla óþyrmilega og kveður snúðugt:

»Skal þá Skriðu- Gvönd,
með skerðan fót og hönd,
færa í fjötur og bönd
og flytja í önnur lönd.«

Spáin rættist, því að þegar Tyrkir rændu Austfjörðu 1627, lenti Guðmundur í klóm þeirra og var ásamt öðrum fluttur til Algier.

Maðurinn, sem vísuna kvað, ætluðu menn að verið hefði huldumaður, er heilla vildi sveininn.

---

# Um Vött og Ko freyju.

A utanverðu Reyðarfjalli er nes það, er Vattarnes kallast. Það er mál manna, að Vöttur sá, er nesið dregur nafn af, hafi þar fyrstur land numið. Næsti bær við Vattarnes, Fáskrúðsfjarðarmegin heitir að Kolfreyjustað; þar tók byggð Kolfreyja hin gamla í þann tíð er Vöttur nam nesið. Hún var kona margskunnandi, forvitra og framsýn, en ekki einhöm talin. Fram undan nesinu var fiskisælt mjög og fjölsótt veiðistöð; var það vandi Kolfreyju að róa til fiskjar ein síns liðs á nökkva einum stórum. Vel var þeim til vina Vetti og Kolfreyju og hjeldu einatt saman á sjó. Það var einn dag sem optar að fjöldi báta bæði úr Reyðarfirði og Fáskrúðsfirði höfðu róið út fyrir Vattarnes og lágu þar að handdorgi. Þau Vöttur og Kolfreyja voru líka róin, og var sem jafnan skammt á milli skipa þeirra. Um daginn, er sem hæst stendur veiðin, kallar Kolfreyja á skip til Vattar og segir: »Hafðu upp, Vöttur vinur; ský dregur á Skúmhött*.« Vöttur fer að ráðum hennar, og varla hefur hann dregið upp færi sitt og er seztur undir árar, þá skellur á ofsa-

---

* **Fjall inn af Sandvík.**

veður af landi; gjörir brátt sjógang harðan, svo að hann fær varla varið bátinn ágjöf. Kolfreyja kallar til hans og biður hann róa í kjölfar sitt. Vöttur gjörir svo, og bíður hún þar til hann hefur náð nökkvanum. Kolfreyja leggst nú á árar og gekk nökkvinn sem í logni væri; er Vöttur mátti hafa sig allan við að stýra bát sínum í farinu. Svo rjeri Kolfreyja mikinn, að allt skinn var gengið úr lófum henni er að landi kom, enda voru þau hin einu er komust lífs af þeirra manna, er á sjó voru um daginn. Svo sagði Kolfreyja sjálf frá um róður sinn: »Fyrst reri jeg hnattvör, svo reri jeg brattvör, [rjetti jeg annan og kreppti jeg hinn*]; sá jeg aldrei 12 karla betur róa.« Vöttur sendi Kolfreyju vænt sauðarreyfi í launaskyni fyrir lífgjöfina; skyldi hún hafa það í sjóvetlinga handa sjer. En næst er fundum þeirra bar saman, sagði Kolfreyja: »Kort var efnið, Vöttur vinur, það vantaði í alla þumlana.« Aðrir segja að hann hafi gefið henni 12 álnir vaðmáls.

* Aðrir: »reis jeg við og rykkti aptur úr.«

# Frá Vetti og Skrúðsbónda.

(Sögn Þorsteins hreppstjóra á Höfðahúsum við Fáskrúðsfjörð).

Úti fyrir Fáskrúðsfirði vestanvert er eyja há og sæbrött, er nefnist Skrúður eða Fáskrúður, og dregur tjörðurinn nafn af henni. Hellir einn mikill gengur inn í bjargið þeim megin á eynni, er að landi veit, og er það trú manna að þar hafi lengi búið tröllkarl. Var hann nefndur Skrúðsbóndi og þótti góðvættur mikil; einkum hjálpaði hann opt sjómönnum, er leita urðu hælis undir Skrúð í veðrum. Mælt er að þeir hafi verið þrír bræður og rjeði sinni eynni hver, Grímsey, Papey og Skrúð. Höfðu vinir Skrúðsbónda það eptir honum, að hann þættist minnstur fyrir sjer þeirra bræðra og mennskastur í eðli. Enda gat hann ekki fengið af sjer að leita ásta við tröllbornar meyjar, heldur nam hann burtu prestsdóttur eina frá Hólmum í Reyðarfirði.*

* Sbr. Þjóðs. J. Árnasonar, I, bls. 196—97 og Þjóðs. Jóns Þorkelssonar I. bls. 150—51. — Þess má geta, að danskur listamaður, Nielsen að nafni hefur fyrir skömmu gjört höggmynd af því er Skrúðsbóndinn nemur burtu prestsdótturina. Karl er kominn með hana út fyrir túnið á Hólmum; mærin stritar mjög á móti, en karl stikar stórum til þess að vera kominn heim áður en sól rísi; þó getur hann

Þeim Vetti og Skrúðsbónda var vel til vina. Sóttu þeir heimboð hvor að öðrum og skiptust gjöfum á. Lítt var Vetti kunnugt um átrúnað eyjarskeggja og kom honum því til hugar að beita hann brögðum nokkrum og sjá, hvers hann yrði vísari. Eitt sinn er Skrúðsbóndi skyldi sækja heimboð að Vetti, ljet hann hringja á móti honum kirkjuklukkum frá skeri einu niðrundan bænum; heitir þar síðan Klukkusker. Skrúðsbóndi gjörðist nokkuð þungbrýnn við, en ljet þó ekki neitt á neinu bera og hjelt til boðsins. Vöttur spurði hann, er hann fylgdi honum til strandar frá boðinu, hvernig honum hefði fallið viðtektirnar. Bóndi eyddi því, en bað Vött koma til sín út í ey áður en langt um liði. Vöttur lofaði því, enda þótt hann þættist skilja, að bóndi hugsaði sjer þegjandi þörfina. Nokkru siðar kom Vöttur út í Skrúðey Bauð bóndi hann velkominn og bað hann vera þar um nóttina. Vöttur játti því; þáði hann hinn bezta beina um kvöldið. En er að háttum leið, vísaði bóndi honum til sængur í afhelli einum. Var þar vel og ríkmannlega um búið. Bóndi

---

**sjer tíma til að skáka sjer á sauð, er hann vill hafa með sjer til veizluhaldsins (sbr. hugmyndirnar um náttröll og tröllriður).**

beið meðan Vöttur afklæddist, skrafaði við hann og var hinn altillegasti. Síðan bauð hann honum góðar nætur, og bað honum sofnast vel. Vöttur vill nú taka á sig náðir, en þá verður honum litið upp og sjer, hvar biturlegt sverð hangir á hárfínum þræði uppi yfir rúminu og veit oddurinn niður. Var ekki annað fyrir að sjá en að það hlyti að detta þá og þegar. Verður hann nú harla smeykur og vill forða sjer úr rúminu, en svo mikið magnleysi hafði gripið hann, að hann gat hvorki hrært legg nje lið. Liggur hann þarna í angist og óumræðilegri hugarkvöl alla nóttina og kemur ekki dúr á auga. Árla um morguninn kemur bóndi til hans, og var nokkuð kýmileitur. Spyr hann hvernig honum hafi sofnazt, en svo mjög var dregið af Vetti að hann mátti varla mæla. Biður hann bónda með veikum burðum að taka sverðið, er vofi þar yfir höfði sjer. »Sverð? Jeg sje ekkert sverð,« sagði bóndi og hló dátt, »nema þú eigir við dordingulsskömmina, sem lafir þarna í loptinu; það er alltaf svoddan ótætis raki hjerna í hellinum.« Vöttur sá þá, að hann hafði satt að mæla, og að þetta höfðu verið sjónhverfingar einar af völdum hellisbúa. Segist Vöttur litlar þakkir kunna honum fyrir næturgreiðann, en bóndi kvað það bara hafa ver-

ið lítil þóknun fyrir það, er hann ljet hunda sína gjamma að sjer á skerinu fyrir skömmu. Ekki er þess getið að í nokkru hafi kólnað vinátta þeirra Vattar og bónda við þessar errur.

---

## Enn um Skrúðsbónda.

(Eptir Gunnhildi Einarsdóttur í Norðfirði).

Drungaldi hjet vinnumaður á Kolfreyjustað. Hann var sjóróðrarmaður og fiskinn mjög. Hann var og talinn manna sterkastur og jafnan dró hann sitjandi, hvaða stórdrættir sem á veru, jafnt hákarla sem annað. Eitt sinn sem optar sat Drungaldi að dorgi undir Skrúð. Kom þá svo þungt á færi hans, að hann brá af vanda sínum og reis upp við. Var það spraka svo fönguleg, að ekki varð innbyrð, og reri hann hana því utanborðs inn í Staðarhöfn. Svo var sprakan mikil, að kjalbeinið úr henni nam yfir feræringsnaust. Nóttina eptir dreymir Drungalda, að Skrúðsbóndinn kemur til hans og segir að nú hafi illa tiltekizt; hafi hann dregið spröku sína, þá er

hann hafi alið á bollaleyfum sínum og ætlað bróður sínum í Papey. »Tek jeg nú eign mína, nema kjalbeinið skalt þú hafa eptir til merkis um drátt þinn. Skal jeg sjá svo um að þú verðir skaðlaus af þessu og fáir spröku í staðinn.« Um morguninn var allt horfið af sprökunni nema kjalbeinið. En eptir um daginn veiddi Drungaldi svo stóra spröku undir Skrúð, að slíkar hafa aldrei þekkzt fyr nje síðar.

---

Einu sinni varð maður eptir af bát í Skrúð. Hann gekk á land og lagðist til svefns. Dreymdi hann þá að tveir menn kæmu til sín, annar aldraður, en hinn á unglingsaldri. Honum þótti sá hinn eldri segja við sig: »Óvarlega liggur þú, maður, því að í dag gengur hjer um búrtíkin úr Þursaskerinu.« Maðurinn hrökk upp við orð draummannsins og þóttist um leið og hann opnaði augum sjá á bak þeim fjelögum, er þeir hurfu fyrir bergið. — Þursasker það, er hjer ræðir um, liggur undir Skrúð, og þótti þar harla reymt í fyrri daga. Er haft eptir Jóni gamla skálda á Berunesi, er kallaður var kraptaskáld, að heldur vildi hann »kveða Skrúð að Hólmahálsi en þoka Þursaskeri um þumlung.«

---

# Kisa kongsdóttir.

**(Að mestu eptir hdr. Kristjáns realstúd. Guðnasonar. Sögn Guðríðar Jónsdóttur á Grænavatni.)**

Einu sinni var kongur og drottning, sem rjeðu fyrir ríki. Þau voru auðug og lifðu í alls nægðum. Þó var eitt, sem skorti á hamingju þeirra, og það var að þau áttu ekkert barn. Þetta olli þeim mikillar hryggðar og angurs, en ekki varð þó aðgjört.

Einu sinni sem optar bjóst kongur að heiman í leiðangur og gerði ráð fyrir að vera lengi á burtu. Kemur hann þá að máli við drottninguna og segir henni, að hafi hún ekki alið sjer barn þegar hann komi heim aptur, skuli hann láta drepa hana. Drottningin segir að þetta sje furðu illmannlega mælt, því að hann viti að sjer sje það ekki mögulögt. Hann sagði að við þetta yrði nú að sitja, og reið síðan brott.

Drottningin verður nú svo yfirkomin af harmi og ótta, að hún veit ekkert, hvað hún á af sjer að gjöra. Hún ráfar í örvílnun sinni eitthvað út fyrir borgina og fleygir sjer þar niður með gráti. Þegar hún hefur grátið um stund, kemur þar að henni gömul kona og spyr, hvað að henni gangi. Drottning heldur það muni til lítils að segja henni það; hún

muni hvort eð er ekki geta ráðið bót á raunum sínum. Kerling leitar ríkt eptir meini hennar, og fer þá svo, að drottning innir henni allt af ljetta um orð kongs. »Daprastu ekki af því drottning mín!« segir kerling; kvaðst hún skyldi kenna henni ráð, er duga mundi ef ekki væri út af brugðið; segir að hún skuli ganga þar að, er lækur renni; þar muni hún sjá tvo silunga, annan bjartan og fagran, hinn dökkvan og ljótan; skuli hún leggjast niður að læknum og drekka; muni þá bjarti silungurinn renna í munn henni og skuli hún kyngja honum, en það skuli hún varast að gleypa dökkva fiskinn. Drotning fer nú sem henni var ráð til kennt og leggst niður að læknum; rennur bjarti silungurinn þegar í munn henni og kyngir hún honum, en þá varð hún of sein að loka munninum, svo að dökkvi fiskurinn komst líka ofan í hana. Fer hún síðan heim og lœtur ekki neitt á neinu bera. Brátt finnur hún að að hún er kona ekki ein saman, og líður svo, þar til er hún leggst á sæng. Fæðir hún fyrst meybarn forkunnar frítt. Síðar elnar henni enn sóttin og þykir þá kynlega bregða við, er svartur köttur kvikar í grasinu. Óðar en kisa sjer ljósið, stekkur hún úr höndum ljósmóðurinnar og segir: »Eg er þá orðin kongs-

dóttir samt!« Kisa var svo stygg, að enginn kom höndum á hana, hvernig sem reynt var, og þótti mönnum það mein mikið, því að búast mátti við að kongur mundi drepa drottningu sína ef hann yrði þess vísari að hún hefði alið kött. En svo hvarf kisa, og vissi enginn, hvað af henni varð.

Nú kemur kongur heim aptur, og er hann frjettir að drottning hefur alið barn, verður hann svo feginn, að hann lætur slá upp gleðiveizlu. Mærin var svo fögur og björt álitum, að menn þóttust ekki sjeð hafa fegurra. Var henni nafn gefið og kölluð Ingibjörg. Hún dafnaði vel og þótti afbragð annara meyja. Kongur unni henni mjög; ljet hann byggja henni fagra skemmu og fjekk henni fjölda fríðra meyja til þjónustu.

Svo líða tímar fram, þar til Ingibjörg kongsdóttir er orðin gjafvaxta. Þá var það eina nótt að kisa kemur á skemmugluggann og segir: »Sæl og blesssuð Ingibjörg systir mín!« »Fussum svei! Ekki ertu systir mín, ókindin þín!« segir Ingibjörg. Að morgni er drottning kom í skemmu að vitja dóttir sinnar, segir Ingibjörg henni, hvað fyrir sig hafi borið um nóttina. Drottningu verður hverft við, en segir að hún skuli ekki geta um það við neinn; næstu nótt skuli hún vera hjá henni í skemm-

unni. Skömmu eptir að þær voru gengnar til rekkju um kvöldið kemur kisa enn á gluggann og segir: »Sæl vertu nú, móðir mín! Sæl vertu nú systir mín!« »Svei þjer burtu, svartlöppin þín!« segir drottning; »vertu ekki svo djörf að kalla mig móður þína eða Ingibjörgu systur þína, ella skaltu eiga mig á fæti!« Veslings kisa snautaði burt út á skóg og sveiuðu þær mæðgur á eptir henni.

Einn dag sem optar gengur Ingibjörg fyrir föður sinn og biður að mega fara út á skóg að skemmta sjer með þernum sínum. Kongur leyfir henni það. Ganga þær nú sem vandi var til skammt á skóginn, og fylgdu hermenn þeim eptir. Þegar þær voru í þann veginn að hverfa heim aptur, beiddist kongsdóttir að mega ganga spölkorn burt með tveimur skemmumeyjum sínum. Henni var leyft það. En er þær voru skammt komnar, slær yfir þær þoku svo dimmri, að þær vita ekki, hvert halda skal. Ráfa þær nú lengi, þar til er fyrir þeim verður hóll einn. Þar leggjast þær niður yfirkomnar af þreytu og sofna skjótt. Sofa þær lengi, unz Ingibjörg vaknar, og ekki við góðan draum. Stendur þar yfir henni risi hræðilega ljótur og illúðlegur. »Hvort viltu nú heldur, Ingibjörg kongsdóttir, sofa hjá mjer í helli mínum í nótt eða deyja hjer á

skóginum?« spyr risinn. »Heldur kýs jeg að deyja,« segir hún. Bregður hann þá saxi og heggur af henni báða fætur og svo höfuðin af þernunum; fer síðan burtu og hefur með sjer fætur kongsdóttur. Sezt nú Ingibjörg upp og grætur sárt og lengi. Loks sjer hún, hvar kisa fer um skóginn og dregur nú kerru í róunni. Kisa lætur sem hún ætli að fara hjá, en Ingibjörg kallar þá til hennar og segir: »Æ, ertu þarna kisa systir? Hjálpaðu mjer nú!« »Á, á, nú gaztu kallað mig kisu systur. Nýta flest í nauðum skal!« »Æ, vertu ekki reið, systir mín. Þú ætlar þó ekki að láta mig deyja hjerna hjálparlausa!« segir Ingibjörg grátandi. Þá var kisu allri lokið. Hún dregur þar að kerruna, er kongsdóttir lá, og biður hana brölta upp í hana, og gerir Ingibjörg það, þótt örðugt gengi. Ekur nú kisa á stað og fer góða stund, þar til er hún kemur að húsi einu snotru; þar fer hún inn með kerruna; uppbúið rúm stóð í stofunni og lítið borð hjá, og allt var þar snoturt og hreinlegt inni. Kisa dregur kerruna með rúmstokknum og biður Ingibjörgu að velta sjer í sængina. »Hjer verðurðu nú að una um hríð þó ekki sje ríkmannlegt,« segir hún. Fer hún síðan að kanna sár kongsdóttur, fægir þau mjúk-

lega, leggur lífgrös við og græðir fyrir stúfana.

Ingibjörg dvelur nú í kotinu hjá kisu í mesta yfirlæti. Þær sofa saman og matast saman og gerir kisa kongsdóttur allt til hæfis enda unir hún vel vistinni.

Einu sinni kemur kisa að máli við Ingibjörgu og segizt þurfa að skreppa að heiman til aðdrátta, því sig vanti smjör. Ingibjörg fer þá að gráta og segist muni deyja úr leiðindum, ef hún fari. Kisa segist ekki verða lengur burtu en einn dag, og telur svo um fyrir henni, að Ingibjörg lofar henni að fara. Kisa fer nú leiðar sinnar, þar til hún kemur að fiskibúð einni; sezt hún þar við glugga og býður sjómönnunum að syngja fyrir þá. Þeir segjast litla trú hafa á söng hennar. Hún byrjar samt og syngur svo vel, að þeir verða hrifnir af. Nú spyr hún, hvað þeir ætli að gefa sjer í kvæðalaun. Þeir segja að hún skuli kjósa. Hún segist þá kjósa sjer smjörkvartil. Þeir segja að hún muni ekki geta borið svo mikið. »Bindið um skott mitt og mig miðja, og vitið svo hvernig fer,« segir kisa. Þeir gera svo, og hoppar kisa svo á stað. Þegar hún kemur heim, fagnar Ingibjörg henni vel og segir að sjer hafi ekki fundizt tíminn langur. Öðru sinni segir kisa

við Ingibjörgu, að hún verði að fara að heiman; sig vanti fisk. Ingibjörg lætur það svo vera. Fer nú kisa til hinnar sömu búðar sem fyr, sezt þar við gluggann og býður sjómönnunum að syngja fyrir þá. Þeir könnuðust nú við hana og tóku því vel. Syngur hún nú fyrir þá enn betur en fyr. Síðan spyr hún um launin. Þeir segja henni að kjósa. Hún segist þá vilja fá vætt af fiski. Þeir segja það sje of þungt fyrir hana. »Bindið um skott mitt og mig miðja,« segir kisa. Þeir gerðu það, en kisa fór heim með fiskinn. Nokkru seinna kemur kisa enn að máli við kongsdóttur og segist þurfa að heiman og ekki geta komið fyr en eptir viku. Ingibjörg biður hana blessaða að vera ekki svona lengi að heiman, segist munu deyja úr leiðindum, ef hún sje ein allan þann tíma. Kisa segist mega til að fara þetta, og svo kveður hún kongsdóttur og leggur af stað. Fer nú allt eins og fyr, að hún kemur til sjómannanna, syngur fyrir þá og tekur saltkvartil að launum. Heldur hún nú í öfuga átt við það sem hún fór áður, yfir öræfi og vegleysur, þar til hún kemur að dal einum djúpum og dimmum. Hún hoppar ofan í dalinn og kemur þar að helli stórum. Hún gengur upp á glugga, sem yfir hellinum var, og sjer þar pott á hlóðum

og í öðrum stað í hellinum sjer hún 3 tröll; voru það tvö kvennflögð og einn tröllkarl, ljótur og illúðlegur. Kisa losar nú um kvartilið og lætur saltið hrynja ofan í pottinn. Litlu seinna fara tröllin að smakka á grautnum; annála þau, hvað hann sje sætur og góður, og eta hann allan. Nokkru seinna fer karlinn að kvarta um að sig sæki þorsti, og biður annað flagðið að sækja sjer vatn út í lækinn. Hún gerir það, en þegar hún kemur út, finnur hún að hún er orðin þyrst sjálf og segir: »Mig met eg mest;« leggst síðan niður og sötrar stórum. Kisa bíður þá ekki boðanna, heldur hleypur að og hrindir henni ofan í lækinn svo hún lætur þar líf sitt. Karli leiðist nú eptir vatninu og biður hina tröllkonuna að fara; en það fer á sömu leið: kisa kemur henni í lækinn líka. Karl verður nú órór þegar hvorug kemur aptur, gengur út sjálfur og að læknum, leggst þar niður og svelgur ákaft. Kisa ræðst þar enn að og fær með herkjum hrundið honum í lækinn, og drukkna þau þar öll tröllin. Nú fer kisa að kanna hellinn; finnur hún þar ekkert fjemætt. Loks rekur hún sig á þrjár kistur, sem standa hver upp af annari og er lykill í skránni á efstu kistunni. Hún lýkur þar upp og finnur ekkert fjemætt, en á botninum er lykill að mið-

kistunni. Svo opnar hún hana, og fer á sömu leið. Loks opnar hún neðstu kistuna, og finnur þar böggul vafinn í brjefum; rífur hún þau öll utan af; þá koma þar innan við silkidúkar margir, og innan úr þessu öllu koma loksins fætur Ingibjargar, bjartir og óskemmdir, sem nýafhöggnir væru. Hún hefur með sjer fæturna, og heldur síðan heim. Verður Ingibjörg henni fegin. Kisa sýnir henni nú fæturna og tekur að ýfa upp stúfana og græða saman. Gengur það fljótt og vel; að nokkrum tíma liðnum eru fæturnir grónir við. Nú fer kisa að tala um það við Ingibjörgu, að mál muni fyrir hana að fara að vitja heim; hún sje nú búin að vera að heiman í tvö ár, og muni foreldrum hennar verða það til mikillar gleði, að sjá hana aptur heila á hófi. Segir hún, að svo sje ástatt heima í ríki föður hennar, að þangað hafi komið kongsson einn frá fjarlægu landi, er hafi ætlað að biðja hennar, og sje henni bezt að fara heim sem fyrst og giptast honum. Ingibjörg verður hrygg við þessa ræðu og segist helzt ekkert vilja frá kisu fara, hún hafi kunnað þar svo vel við sig. Kisa telur um fyrir henni, þar til hún lætur loks tilleiðast, og fylgir henni síðan á leið. En áður en þær skilja, segist kisa ætla að biðja hana dálítillar bónar.

Kongsdóttir spyr, hvað það sje. Kisa segist ætla að biðja hana, ef svo fari að hún giptist kongssyni þessum, að lofa sjer þá að sofa til fóta þeirra fyrstu nóttina, sem þau rekki saman. Kongsdóttir lofar því og kveður síðan kisu með tárvotum augum og þakkar henni alla góðvild við sig.

Þegar Ingibjörg kongsdóttir kemur heim, verða foreldrar hennar fegnari en frá megi segja, því að þau höfðu ekki búizt við að sjá hana lifandi aptur. Fer nú svo fram sem kisa sagði, að hún giptist kongssyni þeim, er fyr var getið. Fyrsta kvöldið, er þau gengu bæði í eina sæng, kemur þar svartur köttur og stekkur upp í rúmið til fóta þeirra. Kongssonur æpir upp yfir sig og vill reka köttinn burtu, en Ingibjörg biður hann að lofa kisu greyinu að hýrast þarna; sjer þyki svo vænt um hana. Lætur kongssonur þá kisu hlutlausa og liggur hún þar um nóttina. Morguninn eptir þegar ungu hjónin vakna, liggur kattarhamur á gólfinu en í rúminu hjá þeim hvílir ungmær ein, fögur álitum, og þykist Ingibjörg þekkja þar systur sína. Kongsson spyr, hverju slík undur sæti, en Ingibjörg segir að það sje bezt að hafa sagnir af meynni sjálfri. Dreypa þau nú á hana víni og raknar hún við skjótt. Síðan tekur hún til frá-

sagna um allt, er á daganı hafði drifið fyrir þeim systrum. Segir hún að faðir þeirra hafi verið kongur yfir miklu ríki og afbragð annara höfðingja. Móðir þeirra hafi og verið svo frábærlega fríð, að enginn hafi fundizt hennar jafningi. »Meðan við vorum enn í æsku ljezt faðir okkar, og með því að margir urðu til að biðja drottningar, en ríkið hins vegar forstöðulaust, leið ekki á löngu áður hún giptist í annað sinn. En þessi seinni maður hennar var hinn mesti galdraseggur og tröll. Ljet hann sjer ekki nægja að hafa ginnt móður okkar til eiginorðs, heldur bætti hann þeirri svívirðingu ofan á að sælast eptir ástum okkar systra. Sætti hann hverju færi er gafst, til þess að koma fram sínum andstyggilega ásetningi, og beitti í fyrstu fagurgala, en síðan hótunum. Einkum varð jeg þó fyrir á sóknum hans. Ekki þorðum við að bera okkur upp við drottninguna móður okkar, enda þótt okkur sárnaði að hún skyldi vera beitt svo hræðilegum svikum, því að við töldum víst, að hann mundi þá ekki svífast að drepa hana, ef honum byði svo hugur um. En er hann gjörðist örvona um, að við mundum verða honum að skapi, lagði hann það á okkur, að við skyldum verða að silungum og aldrei komast úr þeim álögum nema við yrð-

um endurbornar af einhverri drottningu. Þó skyldi mínum raunum ekki þar með lokið; skyldi jeg hafa það fyrir þrályndi mitt og illar umtölur við yngri systur mína, að jeg skyldi endurborin í kattarlíki og aldrei losna úr þeim álögum, nema jeg fengi að hvíla til fóta systur minnar fyrstu nóttina er hún samrekkti manni sínum. Eptir hvarf okkar systra magnaðist stjúpi okkar svo mjög í tröllskap og ódáðum, að hann drap drottningu sína og margt annað göfugra manna í ríkinu. Tók hann því næst á sig tröllsmynd sína aptur og og hvarf heim í helli sinn til skessu sinnar og dóttur.« Hermdi hún nú allt um það, hvernig hún hefði bjargað Ingibjörgu frá bana, er risinn hafði búið henni, og síðan drekkt honum í læknum sem fyr er sagt. Og er »Kisa kongsdóttir« hafði lokið máli sínu, föðmuðust þær systur og grjetu af fögnuði.

Nú segir frá því, að kongurinn tekur sótt og andast; taka þá ungu hjónin við ríkisstjórn og verða bæði voldug og vinsæl. En það er frá »Kisu kongsdóttur« að segja að hún dvaldi hjá Ingibjörgu systur sinni í bezta yfirlæti, þar til er kongsson úr fjarlægu landi kom að biðja hennar og hafði hana heim með sjer í ríki sitt þegar eptir brúðkaupið. Mælt er að þeir svilar hafi ein-

hverju sinni boðið út leiðangri miklum og unnið aptur erfðaland drottninga sinna. Lýkur svo hjer að segja frá »Kisu kongsdóttur.«

---

## Hvar á að byggja?

(Hdr. Jóns Davíðssonar á Nesi í Norðfirði.)

Síra Jón Jónsson Reykjalín var fyrst prestur að Glæsibæ í Krœklingahlíð við Eyjafjörð frá 1817 til 1839; þá var honum veitt Rípur í Hegranesi og var hann þar prestur til þess 1857, að hann fjekk veitingu fyrir Heydölum í Breiðdal. Fór hann að flytja sig austur þangað þetta sumar landveg, sem þá var títt. En aldrei komst hann að Heydölum; hann andaðist á leiðinni með þeim hætti að hann varð bráðkvaddur.

Tveimur eða þremur nóttum fyrir andlát sitt dreymdi síra Jón það, að hann þóttist hitta mann nokkurn tignarlegan á svip. Þóttist hann vita að maður þessi mundi vita fleira en fólk vissi almennt, og ávarpar hann því á þessa leið:

»Hvar á að byggja. Hvernig fer?
Hvar á að bera að landi?
Hvað á að tryggja hag minn hjer?
Hvað á að liggja fyrir mjer?«

Þótti honum þá maðurinn svara:

»Þar um varðar þig ei grand,
þjer á að nægja vonin.
Guð ákvarðar líf og land,
lán, búgarð og auðnustand.«

Jón Jónsson blindi, skáld, sem orti Bertoldsrímur, fáorður og sannorður maður, sagði sögu þessa í Skuggahlíð í Norðfirði. Hann var einn af förunautum prests þessa austur. Ekkja síra Jóns bjó lengi á Ósi í Breiðdal.

---

## Sörli í Sörlagili.

### (Eptir sögnum í Norðfirði.)

I Hólafjalli sunnanmegin Fannardals í Norðfirði, gegnt bæ þeim, er að Hólum heitir, er hamragil eitt mikið, sem kallað er Sörlagil. Sú er saga til nafnsins, er hjer fer á eptir.

I þann tíma er Guðmundur ríki, faðir Bjarna, föður Mekkínar, móður Bjarna, föður Guðfinnu Bjarnadóttur á Hellisfjarðarseli bjó að Hólum, hafðist tröllkarl einn eða stórvaxinn sakamaður við í gili þessu. Enginn vissi, hvernig á honum stóð, enda þorðu menn ekki að grennslast um hagi hans. Hann var kallaður Sörli og gilið, sem hann bjó í, heitir síðan Sörlagil. Sörli karl var meinlaus og gjörði engan usla af sjer, er orð væri á gerandi. En sauð tók hann frá Guðmundi bónda á hverju hausti, og fann bóndi ekki að. Einatt sást Sörli á ferli snemma á morgnana og hjelt til sjáfar með færi sitt í hendinni; og á kvöldin sáu menn opt til ferða hans inn sveitina með fiskkippu á baki. Jafnan gekk hann sunnanmegin árinnar. Ekki er þess getið að hann hafi nokkru sinni átt orðaskipti við menn, heldur hafi hann jafnan sneitt úr vegi fyrir öðrum og aðrir fyrir honum. — Eitt sinn er þess getið að Sörli karl kom utan með á er Guðmundur bóndi á Hólum var staddur á hlaði og hundur hans hjá honum. Hundurinn spratt upp, er hann sá manninn, og hljóp geltandi niður að ánni. Blístraði þá Sörli á móti hundinum, hændi hann og hafði með sjer. Skömmu síðar var Guðmundur einn morgun að dengja ljá sinn úti í smiðju; veit

hann þá ekki fyrri til en seppi kemur og flaðrar upp á hann. Sjer hann þá hvar Sörli fer með ánni. Guðmundur tekur hákarlslim og hengir yfir hrygg hundinum. En seppi bregður við og heldur aptur til Sörla. Eptir það sást rakkinn aldrei í för með karli, og var þess til getið, að hann hafi eigi viljað láta hann hlaupa optar í sníkjuferðir fyrir sig.

Guðmundur ríki átti tvo sonu; hjet hinn eldri Bjarni, hinn yngri Erlendur. Þegar Erlendur eltist, var honum fenginn sá starfi að gæta sauða um vetur við beitarhús þau, er niður undan eru Sörlagili. Hafði hann þá opt þá venju er hann gekk með Sörlagili að hrapa grjóti niður af bakkanum og þótti gaman að, er undir tók í gljúfrinu. Faðir hans bað hann láta af þeim ósið og vandaði mjög um við hann; kvað Sörla mundu líka miður að raskað væri friði í byggðum hans. Erlendur var ófyrirleitinn og hirti ekki um fortölur föður síns, heldur hjelt fram uppteknum hætti um glettur sínar við gilbúa. En eitt kvöld síðla vetrar brá svo við, að Erlendur kom ekki heim frá beitarhúsunum; þótti mönnum það kynlegt, því að veður hafði verið gott um daginn. Svo leið af nóttin, að ekki bólaði á Erlendi. Morguninn eptir var farið að leita hans og fannst hann loks ör-

endur í austanverðu Sörlagili, klemmdur upp við gjárbarminn, milli hans og fannkyngi mikillar. Gátu menn þess til, að hann hefði orðið fyrir snjóflóði, er gengið hefði fram af gjárbakkanum; en hvernig flóðið hefði getað tekið þá stefnu og hvernig það yfir höfuð hefði getað komið flóð á þeim stöðvum þótti öllum óskiljanlegt. Var það því ætlan margra að Sörli væri valdur að verkinu, þótt hann væri eigi ella kunnur að því að gjöra mönnum mein.

Á ofanverðum dögum Guðmundar hvarf Sörli og þóttust menn vita að hann væri dauður. Nokkru síðar fóru menn að forvitnast um helli hans, en fundu bjarg mikið fyrir munnanum, er ekki mátti þoka. Þó var hola inn með bjarginu, nægilega stór til þess, að smjúga mætti inn um; en enginn var svo hugaður, að hann þyrði að ráða til inngöngu.

---

## Sagan af karlinum alvitra.

(Sögumaður Guðrún Einarsdóttur á Grænavatni. Hdr. Kristjáns realstúd. Guðnasonar).

Einu sinni var kongur og drottning, sem rjeðu fyrir ríki. Þau áttu eina dóttur,

sem Hildur hjet; hún var svo fögur að varla fannst hennar líki, enda unnu þau henni mjög. Þegar hún var gjafvaxta, komu konga- og greifasynir af ýmsum ríkjum til að biðja hennar, en allir urðu þeir að fara svobúnir, sökum þess, að kongurinn faðir hennar hafði strengt þess heit, að gipta hana engum nema þeim, sem gæti sagt sjer, hvað hann væri að hugsa um hvern sumardag fyrsta. Biðlarnir sátu og spreyttu sig á gátu þessari, en enginn fjekk getið í hug kongs. Þá voru og enn margir, sem látið höfðu lífið fyrir þessa sök, því í fjarlægu landi og í fjalli einu bjó karl einn fjölkunnugur, sem margir höfðu sótt heim til að leita sjer fróðleiks af, en hann gjörði þeim öllum sömu skil, og kom enginn til baka aptur.

Þá er þess getið, að í nánd við kongsríki bjuggu hjón ein fátæk. Þau áttu son, sem Þorsteinn hjet. Hann var fríður sýnum og gjörvilegur snemma, en pöróttur þótti hann í æsku og ljek jafnvel kongsmenn svo sárt, að þeir klöguðu hann, en kongur var jafnan vægari í sökum við strák, og sagði að vera mætti að einhvern tíma yrði maður úr honum. Þegar hjer var komið sögunni var Þorsteinn 19 vetra gamall og svo stór og sterkur sem fullorðnir menn. Þykir honum

nú heldur dauf heimavistin, og ræðir eittsinn við foreldra sína, að sjer leiki hugur á að fara að heiman og á fund karlsins alvitra ef ske kynni að hann gæti fræðst af honum um eitthvað, er sjer mætti að gagni koma. Karl og kerling löttu hann þess, en hann býst ekki að síður. Hann hagaði þannig ferðum sínum, að hann lá tvær nætur úti undir berum himni á skógum og eyðimörkum, en þriðju nóttina gisti hann jafnan í mannabyggðum. Fyrstu nóttina gisti hann hjá bónda einum, sem spurði hann að vanda, hvert ferðum væri heitið. Þorsteinn dró ekki dulur á það, kvaðst ætla að finna karlinn, sem vissi allt. Bóndi sagði að fáir hefðu hingað til komizt að fróðleik hans, því enginn hefði, svo hann vissi, komizt þaðan lífs, en þó segist hann vilja biðja gestinn nokkurs, því sjer lítist svo á hann, að hann sje ekki með öllu giptulaus. Segir hann, að sig vanti 12 sauði, er horfið hafi fyrir þrem nóttum, og geti hann ómögulega vitað, hver valdur sje að hvarfinu. Biður hann nú Þorstein að grafa karlinn um þetta. Þorsteinn heitir því og kveður síðan. Liggur hann enn á mörkum úti tvær nætur, en þriðja kvöldið ber hann að prestssetri einu. Þar bjó pokaprestur gamall og auðugur. Ekki geðjaðist Þorsteini að þeirri gistingu, því þar lá

hann í útiskemmu kaldri og var fátt um fagnáð. Um morguninn hitti hann prest á hlaði. Þorsteinn bauð honum góðan daginn og bað guð að launa honum gestrisnina sem vert væri. Prestur spurði, hvað hann væri að flakka. Þorsteinn sagði honum eins og var, að hann ætlaði að finna karlinn alvitra og fræðast af honum. Prestur glotti og mælti: »Þá eru nú flestir sótraptar á sjó dregnir, er Þorsteinn karlsson vill gjörast vísindamaður, og illa get jeg karlinum alvitra sje brugðið ef slíkir sækja sigurinn á fund hans!« Þorsteinn kveður nú klerk í styttingi og nöldrar um leið svo hátt, að vel mátti heyra: »Einatt eru flónin frökkust í getunum!« Þegar Þorsteinn er kominn skammt út fyrir traðirnar, kemur dóttir prests þar á eptir honum og biður hann að staldra við og tala við sig. Hún var stúlka fríð sýnum og ólíkt viðmótsþýðari en karl faðir hennar. Hún biður hann að taka það ekki illa upp fyrir sjer, þótt hún leiti til hans með lítilræði, er sjer standi á miklu. Svo sje mál með vexti, að staðarlyklarnir sjeu týndir og finnist eigi þó leitað hafi verið durum og dyngjum; faðir sinn kenni sjer um lyklahvarfið og megi hún búast við öllu illu af honum, ef þeir komi ekki í leitirnar; kveðst hún því ætla að biðja Þorstein að komast eptir því

hjá karlinum alvitra, hvar lyklarnir sjeu niðurkomnir, því að svo segi sjer hugur um, að ferð hans muni giptusamlega takast. Þorsteinn lofar að gjöra sem hún beiddi. Síðan heldur Þorsteinn leiðar sinnar og gengur þann dag allan til kvölds; er hann þá kominn á völlu víða og fagra og sjer nú í fjarska bláma fyrir fjallinu, þar sem karlinn alvitri átti heima. Gengur hann nú enn um stund, þar til fyrir honum verður lítill kotbær. Karl einn gamall og grár fyrir hærum sat á hlaði og dyttaði að annboðum; var hinn mesti sægur af krökkum í kringum hann. Þorsteinn heilsar honum og spyr, hvort hann geti fengið þar húsaskjól næturlangt. Karl tekur kveðju hans og heldur þurlega; segir þar húsrúm lítið, en þó muni honum ekki frávísað ef hann geti gjört sjer að góðu ljelegan beina. Leiðir nú karl Þorstein til baðstofu; þar eru fyrir konur tvær, önnur hnigin að aldri, en hin á bezta skeiði; sátu þær undir sínu barninu hvor, en tíu komu inn í hælunum á karli. Þorsteini lízt yngri konan mjög raunaleg en þó óvenjulega fögur; langar hann mjög til að vita, hvort hún eigi allan króatjöldann. »Tarna er fallegur blessaður hópur,« segir hann; »eða eru þetta þín börn bóndi?« Karl varð fár við; svaraði hann seint og gaut um leið aug-

um til yngri konunnar. »Onei, en viljirðu fræðast um ætterni þeirra, væri reynandi að spyrja hana dóttur mína!« Hún setti dreyrrauðan og leit undan. Varð ekki meira um þá orðræðu að sinni. Þorsteinn er nú þarna um nóttina í bezta beina. Morguninn eptir spyr bóndi, hvernig á ferðum hans standi. Þorsteinn segir honum að hann ætli á fund karlsins alvitra. Bóndi bað hann hyggja af slíkri fásinnu; segir hann að allir, er í þeim erindum hafi farið, hafi gist hjá sjer síðustu nóttina, en enginn komið aptur; muni karlinn alvitri hafa sjeð fyrir þeim. Þorsteinn segir að eigi sje öllum einn veg skapað, og muni hann láta arka að auðnu um ferð sína. Bóndi sjer þá að ekki tjáir að letja hann; fylgir hann honum því á veg og segir honum leið til fjallsins. Áður en þeir skilja, kveðst bóndi ætla að biðja hann einnar bónar; eins og hann hafi látið hann skilja kvöldið áður, eigi dóttir sín öll börnin, sem hann hafi sjeð í kotinu; en sá sje hængur á ráði hennar, að hún viti eigi hver faðirinn sje; taki þau sjer öll mjög nærri, að hún skuli hafa ratað í þetta ólán; segist hann nú vilja biðja Þorstein að komast eptir því hjá karlinum alvitra, ef hann nái tali af honum, hver sje faðir að börnum dóttur sinnar. Þorsteinn heitir honum góðu

um það og að svo mæltu skilja þeir. Gengur nú Þorsteinn langa lengi, þar til hann kemur að háum hömrum; er þá komið undir kvöld; hann sjer stóran hellismunna uppi í hömrunum og er einstigi bratt upp að ganga. Þorsteinn ræður að einstiginu og kemst við illan leik upp í hellinn. Hann gengur þegar inn; er þar eldur á glæðum og kjötpottur uppi yfir; innar í hellinum sjer hann rúmflet mikið og í því ókjörin öll af dýrafeldum. Þorsteinn skarar nú að eldinum, og soðnar brátt maturinn; síðan býr hann um í rúminu, og er því var lokið, fleygir hann sjer niður á afvikinn stað í hellinum og hvílir sig. En ekki hefur hann lengi legið er hann heyrir dunur og dynki úti, og í sömu svipan snarast risi einn inn í hellinn, harla stórskorinn; sá hafði fuglakippu á baki; þykist Þorsteinn vita að þar muni kominn karlinn alvitri, en það furðar hann að slíkt stórmenni skuli sælast eptir öðrum eins smádýrum til fæðu sem fuglum þeim. Karl þrammar innar að hlóðunum, kastar fuglakippunni á gólfið og segir: »Hver hefur soðið mat minn? — Það hefur þú gjört fíflið Þorsteinn karlsson. Eigi að síður mun jeg drepa þig á morgun; í dag hef jeg verið svo vel að verki að jeg nenni því ekki.« »Ljett verk og löðurmannlegt að drepa mig varnar-

lausan og þarftu ekki þess vegna að geyma það til morguns!« segir Þorsteinn. Karl ansar því engu, en sezt á hlóðarsteininn og tekur að snæða úr pottinum. Þorsteinn hefur sig þá á kreik, nemur staðar frammi fyrir risanum og horfir á aðfarir hans. Hann var orðinn matlystugur eptir gönguna og vænti þess að karl viki sjer bita. En er honum þykir örvænt um það segir hann: »Kvikinzkur karl ertu, er þú sveltir gesti þína!« Karl kastar þá til hans kjötflykki og segir honum að jeta það ef hann geti, því að lítið muni kviðrúm í smásmíði því. Þegar karl hefur snætt, röltir hann að fleti sínu, fleygir sjer niður og segir um leið: Rótað hefur þú í rekkju minni, fíflið karlsson. Drepa skal jeg þig samt!«

Þorsteinn kastar sjer niður á hellisgólfið fyrir framan rúm karls. Þykir honum það hörð rekkja og hlýindasnauð. Kallar hann þá til risans og segir: »Fleygðu til mín nokkrum feldum, karl! Þeir eru ekki svo fáir í fletinu þínu!« Karl snarar þá til hans tveim feldum, en biður hann um leið að gjöra svo vel að hafa hægt um sig. Litlu seinna gellur Þorsteinn við og segir: »Gaman væri að vita, hvað kongurinn er að hugsa um hvern sumardag fyrsta!« »Þegiðu á þjer þverrif-

unni, strákur,« segir karl; »en ef þú endilega vilt vita það, þá er hann að hugsa um að drepa drottninguna sína; dóttur sína vill hann ekki gipta neinum og hefur því tekið það til bragðs að láta biðla hennar geta þessa í huga sjer, vitandi að enginn myndi svo ills til geta.« »Ójá, sízt hefði mjer nú dottið það í hug,« segir Þorsteinn. Nú líður stundarkorn, þá kallar Þorsteinn aptur: »Gaman væri að vita, hver hefur stolið sauðum bóndans?« Karl bregzt reiður við og kallar hann firna djarfan að glepja sjer svefn með fleipri sínu; þó segir hann honum að vinur bónda og nágranni, er hann gruni sízt, hafi stolið sauðunum og feli hann þá í helli að fjallabaki og ætli að koma þeim á miðsvetrarmarkaðinn. »O, ekki hefði mjer nú komið það til hugar,« segir Þorsteinn. Skömmu síðar gellur hann enn við og segir: »Gaman væri að vita, hvað orðið hefur af staðarlyklunum, sem prestsdóttirin var að vandræðast um!« »Drepa skal jeg þig, ef þú þegir ekki, þrjóturinn þinn!« grenjar karl og er nú hinn reiðasti. »Hún má líklega vita það bezt sjálf, prestsdóttirin, hvar lyklarnir eru, því að þeir liggja undir eikinni, þar sem hún lofaðist honum Manga.« »O, sízt hefði mjer dottið það í hug‘« segir Þorsteinn. Nú líður nokkur stund; þá tekur

Þorsteinn enn til máls: »Gaman væri að vita —.« »Gaman, gaman —,« grenjar karl eptir honum; »gaman væri að snúa þig úr hálsliðunum fyrir alla mælgina; og það skaltu vita að jeg hlífi þjer ekki stundinni lengur, ef þú þegir ekki eins og steinn!« Þorsteinn lofar að halda ekki vöku fyrir honum lengur ef hann að eins vilji svara einni spurningu til. Karl lætur það gott heita. Þorsteinn spyr hann þá, hver sje faðir króanna tólf, sem hún hafi eignazt karlsdóttirin í kotinu. Karl segir að það sje kongsson einn úr álfheimum, sem sje í álögum; þurfi hann ekki annað til þess að losast úr álögunum, en að komast í lífshættu í mannheimum, og muni hann þá taka stúlkuna að sjer og veita henni allskyns gæði. Næstu jólanótt komi hann í síðasta sinn til mannheima og sje þá um að gjöra að sýna honum banatilræði: »Ójá, sízt hefði mjer nú dottið þetta í hug,« segir Þorsteinn. Verður nú ekki meira af samræðunum og bíður Þorsteinn þess að karl sofni. Þegar honum þykir að svo muni vera, rís hann á fætur, tekur lurk einn mikinn úr viðarkesti hjá hlóðunum og rekur bylmingshögg í bergið við höfðalag karls. Karl hrekkur við og umlar nokkuð í honum. Þorsteinn ber þá annað högg, og snýr þá karl sjer til veggjar. Í þriðja

sinn ber Þorsteinn, og bærir þá karl ekki á sjer. Þorsteinn dýfir nú lurkinum í bráðina á pottinum, kveykir síðan á honnm í glæðunum og bregður upp ljósinu, svo að lýsti um hellinn. Litast hann nú um og sjer, hvar sverð eitt mikið og biturlegt hangir yfir rekkju karls. Fer hann þangað og nær sverðinu eptir mikla mæðu. Síðan slekkur hann á blysinu og ber enn í bergið sem fastast hann má. Karl hreyfir sig ekki heldur en fyr. Þorsteinn bregður þá sverðinu og leggur hann til hjartans. Karl hrekkur upp við sársaukann, stekkur fram á gólfið og fálmar fyrir sjer; en Þorsteinn hleypur upp yfir rekkjuna og dylst við vegginn, unz karl hnígur dauður niður. Dregur hann nú líkið út úr hellinum og dysjar það þar; leggst síðan niður og sefur af til morguns. Þá kannar hann hellinn og finnur þar kistur miklar fullar af gulli og silfri. Hann tekur með sjer svo mikið, sem hann mátti með sjer hafa, en skilur hitt eptir. Snýr hann síðan heim á leið og hefir sömu áfanga sem fyr. Hittir hann fyrst karlinn í kotinu og færir honum þá gleðifregn, að faðir dótturbarna hans sje kongssonur, og segir honum, hvernig hann skuli fara að leysa hann úr álögunum. Þakkar karl honum mikillega greiðann. Lítið sagði Þorsteinn um ferðir sínar,

þótt bóndi spyrði, en þess gat hann, að dauður væri nú karlinn alvitri og mundi harla reymt í hýbýlum hans. Annað kvöldið kemur Þorsteinn á prestssetrið. Hann spyr prestsdóttur, hvort hana reki nokkuð minni til, hvar hún hafi lofazt honum Manga. Hún stokkroðnar, en segir þó að sig ranki við því. »Þar máttu leita staðarlyklanna,« segir Þorsteinn. Hún þakkar honum fyrir úrlausnina og útvegar honum gistingu um nóttina. Prestur spyr Þorstein, hvað hann segi tíðinda af karlinum alvitra og hvort hann sje nú miklu fróðari en fyr. Þorsteinn svarar fáu, en kveðst þó ekki vilja ráða neinum til að fara á fund hans, því að nú sje hann aptur genginn og óblíður gestum. Næsta kvöld kemur Þorsteinn til bóndans, sem sauðina vantaði. Fær hann þar góðar viðtökur og spyr bóndi, hvers hann hafi orðið vísari. Lítið ljet Þorsteinn uppi um ferðir sínar, en segir honum, hvar sauðirnir sjeu niðurkomnir. Bóndi kveðst eiga bágt með að trúa slíku um vin sinn, en reyna megi hvað satt sje í því. Segir nú ekki meira af ferðum Þorsteins fyr en hann kemur heim í garðshorn til karls og kerlingar; verða þau honum harla fegin. Ekkert segir hann þeim þó um erindislok sín. Eptir þetta fer Þorsteinn að manna sig upp; gerir hann sjer

steinn valið bæ sínum nafn af landsháttunum, því að hann stendur á valllendisbarði á annesi einu litlu, er gengur í sjó fram nær hálfri mílu innar frá Horni. Það má ráða af ýmsu, sem of langt yrði hjer upp að telja, að bærinn hefur þegar í landnámstíð staðið þar, er hann nú stendur. En munnmælin segja nokkuð á annan veg frá, hver þar hafi fyrstur land numið, og hvar bærinn hafi verið reistur í fyrstu, eins og sjá má af sögu þeirri, er hjer fer á eptir.

Barði hjet maður, er nam Viðfjörð og Hellisfjörð. Hann tók sjer byggð innanvert við Rauðubjörg niður undan skarði því, er Skollaskarð* nefnist, og kallaði bæ sinn Barðsnes**. Þar heitir nú Bæjarstæði. Vættur ein ill bjó sunnanvert í skarðinu. Bar hún þung-

* Þ. e. tóuskarð. Alþýða manna hefur dregið nafnið af skolli (= kölski), og hugsað sjer þar bústað illrar veru. »Skollinn í Skollaskarðinu« var ein af þeim grýlum, er menn hræddu börn sín á þar um slóðir. Miðhlíðis niður frá skarðinu er svo að sjá sem grjótskriða hafi staðnað skyndilega.

** Menn hafa ætlað bæjarnafnið samsett af mannsnafninu Barði, og að það því rjettu lagi ætti að heita Barðanes. En Barðsnes getur ekki verið af öðru komið en »barð«, enda stendur það í nánasta samræmi við landslagið.

an hug til Barða og þótti hann illur gestur í byggðum sínum. Einkum áttu þau í brösum saman út af selveiði á svonefndum Selasandi austanmegin Horns; vildi hvort um sig hafa veiðina óskerða. Deildu þau um þetta löngum og varð af fullur fjandskapur. Gjarnan vildi vætturin hafa fyrirkomið Barða, en fyrir sakir karlmennsku hans þorði hún aldrei á hann að ráða. En margar illar glettur gjörði hún honum. Barði var forn í skapi og fjölkunnugur, enda varðist hann lengi með framsýni sinni brögðum grannkonu sinnar. Þó kom svo að lokum, að hann sá ekki annað ráð vænna en að láta undan síga. Það var eina nótt að Barða dreymir að hann er úti staddur. Verður honum þá litið til fjalls og sjer, hvar dökkvan skýflóka dregur upp undan Skollaskarði; þykir honum þá undarlega bregða við, því að úr skýinu verður kona, feykilega stórvaxin, og bendir sú ógnandi yfir bæ hans. Hann hrekkur upp við drauminn, klæðist í skyndi og snarast á dyr. Sjer hann þá að skessan situr uppi á fellsbrúninni og er að bisa við að spyrna stóru stykki úr hömrunum. Barði grípur rekuspaða sinn og hleypur til fjalls. Það var jafnsnemma að hann stökk yfir túngarðinn og kletturinn sprakk. Greikkar nú karl heldur en ekki sporið, og

í miðjum hlíðum mætir hann skriðunni. Stingur hann þá niður rekunni og í sömu svipan staðnaði skriðan. Þykir enn mega sjá þess merki. Barði treystist nú ekki lengur að hafa byggð sína þar undir skarðinu. Segir sagan að hann hafi þá flutt bæ sinn þangað, er hann stendur nú, og búið þar síðan til dauðadags.

Þótt Barði þannig þokaði burt frá byggðum grannkonu sinnar, ljet hún þó ekki af að gjöra honum nýjar skráveifur. Barði átti knörr einn mikinn og fríðan og hinn vandaðasta að öllum útbúnaði. Knörr þennan hafði hann til flutninga og við ýmsan veiðiskap; stýrði hann jafnan sjálfur, en 12 menn reru. Eitt sinn hafði hann slegið mikið af sel á selasandinum og sendi menn sína heim eptir knerri sínum; þeim gekk vel ferðin og færðu þeir Barða knörrinn suður fyrir Horn. Báru þeir nú selinn á skip, og var það því nær fullfermi; síðan reru þeir heimleiðis, en Barði stýrði. Sjá þeir þá að skessan stendur á Hornseggjunum og horfir á þá. Getur Barði þess til, að nú muni kerlu þykja hann hafa

---

* Knarrarsker heitir sjávarklöpp niður undan Barðsnesbænum. Sumir ætla að skerið dragi nafn af knerri Barða.

verið heldur stórtækur um veiðina. Þegar þeir koma norður fyrir Horn, tekur að vinda; draga þeir þá upp segl og sigla hliðvind inn með Móunum, er svo eru nefndir. En er minnst varði heyra þeir hvin mikinn, og í sama vetfangi skellur stóreflis roka í seglið og hvolfir skipinu. Drukknuðu þar flestir menn Barða, en sjálfur synti hann til lands og tveir eða þrír menn aðrir. Var þá komið logn aptur. Þeir Barði vinda nú klæði sín og búast til göngu. En er þeir eru komnir innan til á Móana, sjá þeir hvar vætturin situr á utanverðum Rauðubjörgum. Barði þóttist vita, að hún væri völd að slysförinni, og rennur honum nú mjög í skap. Og jafnskjótt sem hann kemur í færi, þrífur hann upp stein eigi alllítinn og snarar að henni. Hún stökk undan og tók á rás, en steinninn fló með fæti hennar og veitti henni ærinn áverka, þótt eigi brotnaði fóturinn. Barði hefur þá upp annan stein eigi minni og kastar eptir skessunni, því að hann var allreiður. Hún sjer að steinninn fer hátt og stefnir á höfuðið; verður henni þá það til ráðs að fleygja sjer flatri, og fló steinninn yfir hana. Kallar hún þá til Barða og segir; »Drep þú mig eigi, Barði sæll. Aldrei mun jeg framar leitast við að vinna þjer mein ef þú gefur

mjer nú líf.« Barði svarar: »Maklegust ertu þess, að jeg stytti þjer stundir, því að þungar búsifjar hefur þú veitt mjer og alla jafna setið um líf mitt; væri jeg löngu dauður ef þú hefðir mátt þínum ráðum fram koma. Hef jeg því eigi skap til að þyrma þjer, að mig væntir að brátt munir þú byrja aptur á nýjan leik með vjelræðin og eigi halda orð þín við mig.« Hún svarar: »Svik þarftu eigi að óttast af mjer; mun jeg öllu betur kunna að halda orð mín en flestir yðar, mennska fólksins.« »Á það skal þá hætta,« segir Barði; »en svíkir þú mig, skal jeg þjer óþarfur meðan jeg má.« Skessan heitir honum trú og hollustu og ljet þá Barði hana upp standa. Mælt er að þau hafi þá gjört þann samning með sjer, að skessan skyldi hafa fjórðung allrar veiðar á Selásandi og skyldi hvorugt á annað deila þaðan í frá. Skildu þau síðan með blíðu, og er ekki annars getið en að sætt þeirra hjeldist meðan bæði lifðu.

Þegar þeir Barði komu heim til bæjar, sjá þeir að knörrinn kemur inn fjörðinn og rekur hratt fyrir hvassri hafgolu, gengu þeir þá til sjávar og tóku á móti honum þar sem hann bar að landi.

Barði var búsýslumaður mikill og manna auðugastur að löndum og lausum aurum.

Hann hafði útibú um Viðfjörð og Hellisfjörð og ljet stunda þar búsmala sinn, því að þar voru kostsælli hagar og útibeit góð á vetrum. Hann átti og Nes í Norðfirði og fleiri jarðir. Var hann talinn mestur höfðingi þar um firðina og allra manna vinsælastur, enda reyndist hann jafnan bjargvættur landseta sinna og annara, er hans leituðu. Áður Barði andaðist, hafði hann mælt svo fyrir, að hann skyldi haugsettur í knerri sínum á þeim stað, er bezt mætti sjá um Viðfjörð og Hellisfjörð, svo að hann mætti litast um lönd sín. Kvað hann það ekki mundu saka búsæld manna. »En raski nokkur friði mínum og rjúfi haug minn til fjár, mun það varða heill hans og svo beggja fjarðanna.« — Miðja vegu milli Barðsness og Viðfjarðarbotns við bæ þann, er að Stuðlum heitir, er annes eitt lítið, sljett og grasi vaxið. Er þar víðsýnt mjög um fjörðuna. Á framanverðu nesinu var Barða orpinn haugur og fje lagt í að fornum sið. Heitir þar síðan Barðahaugur og tanginn Barðatangi.*

Liðu nú svo aldir fram, að enginn þorði

* Nafnið er bersýnilega dregið af landslaginu, (barða ef. flt. af barð), því að þar, eru sljett börð með sjó fram, er stinga mjög í stúf við ójöfnur utar og innar.

að grafa í hauginn og allir töldu Barða verndara byggðarinnar.

Svo var það eitt sinn, að bóndi nokkur úr næstu sveit flutti búferlum að Stuðlum. Hann var ungur og ófyrirleitinn og lítt trúaður á forna hluti. Henti hann mjög gys að átrúnaði þeim, er byggðarmenn höfðu á hauginum, og kvaðst brátt skyldu forvitnast um, hvort nokkuð væri þar fjemætt fólgið. Menn töldu það hina mestu fásinnu og löttu hann að fremja slíkt ódæðisverk. Hann skeytti engu fortölum þeirra og einn góðan veðurdag fer hann .til með húskörlum sínum og tekur að brjóta hauginn. En er þeir höfðu verið að um stund, urðu undarleg viðbrigði. Himinn gjörðist dimmur og myrkur dró yfir fjörðuna; en þar var að sjá sem eldbjarmi, er bæja var von. Bónda varð litið heim til Stuðla og sá hann þá að hús öll loguðu. Hætta þeir þá greptrinum og skynda til bæjar. Þótti þeim þá kynlega bregða, því að í einni svipan var horfinn eldur og myrkur og sól skein í heiði sem fyr. Hurfu þeir þá aptur til haugsins og tóku til verka á ný. En ekki höfðu þeir lengi grafið, er allt fór á sömu leið sem fyr; var nú myrkrið svartara og eldurinn bjartari en áður; fylgdi þar með hvassviðri og hafrót svo mikið, að sjór gekk á land. Nú

tjell bónda allur ketill í eld, og taldi hann það ráðlegast að hætta verkinu og láta haugbúa hvíla í friði. Þegar er þeir voru farnir frá hauginum, hurfu undrin sem fyr. Bóndi hugði eigi framar til hauggraptar, en ólánsmaður var hann alla ævi síðan; flosnaði hann upp af búi sínu, hraktist til fornra átthaga og dó þar á sveit í eymd og volæði.

Ekki er þess getið að fleiri hafi orðið til að brjóta haug Barða.*

---

## Valur, Valsmýri.

(Almenn sögn í Norðfirði).

Eitt sinn í fornöld var fjandskapur með bónda einum í Sandvík og þeim manni, er þá bjó að Viðfirði; sá bær stendur fyrir botni Viðfjarðar. Svo kom að lokum að Sandvíkurbóndinn stefndi saman öllum Víkurbúum og vildi hefna harma sinna á Viðfirðingnum. En honum kom njósn af þessari ráðagjörð, og

---

* Þess sjást glögg merki, að grafið hefir verið í hauginn, því að hann er tvískiptur að ofan niður til miðs.

efldi flokk á móti þeim; komu þar til liðs við hann menn af öllum bæjum í kálkinum, Mástaðamenn,* Barðsnesingar og Stuðlamenn. Fundur þeirra og Víkurmanna varð á mýri á hjalla einum miklum, er liggur miðhlíðis í fjallinu sunnan megin fjarðarins. Óljósar eru sagnir um, hvernig fundinum hafi lyktað, en flestir segja að Viðfirðingar hafi borið sigur úr býtum eptir að mikið mannfall hafði orðið af hvorumtveggja. — Á harðvellisbala neðanvert við mýrina þykir mega sjá votta fyrir dysjum og er þar kallaður Valur, en mýrin Valsmýri. Fyrir allmörgum tugum ára kvað þar hafa fundizt spjótsoddur og ístað fornlegt úr kopar.

---

* Innar frá Viðfjarðarnesi austan megin sjest votta fyrir rústum á sljettum völlum niðri við sjó. Eru þar nefndir Mástaðir. Þar segja menn að hafi verið höfuðból mikið til forna.

# Lottuherbergið

## *á Flateyri.*

(Sögn yngisstúlku á Flateyri).

Þegar Torfi kaupmaður Halldórsson og kona hans byrjuðu búskap á Flateyri fyrir rúmum 40 árum, fluttu þau í gamalt hús, er fyrverandi eigendur eyrarinnar höfðu búið í. Það var hálfdönsk fjölskylda og kvað konan hafa verið af aðalsættum. Sá orðrómur lá á húsinu að þar væri næsta reymt. Torfi og kona hans voru lítt trúuð á drauga og forynjur og skeyttu því engu, hvað fólk sagði um reymleikana. En ekki höfðu þau verið þar lengur en hálfsmánaðar tíma, þegar vinnukona þeirra kemur inn einn morgun með miklu fasi og segir: »Komin er hún enn!« Húsfreyja skildi ekki við hvað hún átti og hváði við. »En nályktin!« sagði vinnukonan og fussaði. »Það eru einhver ósköp sem hvíla yfir þessu húsi. Á hálfsmánaðar fresti leggur fyrir sterkustu nálykt í eldhúsinu, í litla herberginu fyrir innan eldhúsið og í loptsherberginu, sem er uppi yfir því. Það kvað heita »Lottuherbergi« þetta þarna uppi á loptinu. Guð má vita hvaða sögu það á að geyma. Mjer verður allt af eitthvað svo kynlegt ef jeg kem þangað í myrkri.« Húsfreyja hló að rausinu í kerl-

ingunni og sagði að þetta hlyti að vera með eðlilegum hætti. Lyktina hafi hún sjálf fundið, en sjer þyki líklegt að hún stafi af því að rottur eða mýs hafi drepizt milli þils og veggjar og sjeu nú að rotna. Svona gekk allan veturinn, að við og við var þessi ódaunn að gjósa upp og var það vanalega með hálfsmánaðar millibili. Um vorið kom ný vinnukona í húsið, Ólöf að nafni. Ekki hafði hún verið þar lengi, er hún segir frá því einn morgun að sig hafi dreymt undarlegan draum um nóttina: »Jeg þóttist stödd í eldhúsinu og sje þá allt í einu að dyrnar opnast og inn kemur stúlka í hvítum klæðum. Hún var óvanalega fríð sýnum og fjell ljósgult hárið niður um brjóst og herðar ofan fyrir mitti. Jeg þóttist stara á hana um stund. Hún horfir á móti ósköp raunaleg á svipinn og segir loks: ‚Þú þarft ekki að vera hrædd við mig. Jeg kem hingað kl. 12 á nóttunni einu sinni á hálfum mánuði til þess að vitja barnsins míns. Það er hegning á mjer fyrir það, að jeg fyrirfór því barna uppi á loptinu.‘ Svo þótti mjer hún ganga fram hjá mjer og hverfa inn í herbergið inn úr eldhúsinu.« Þetta þótti mönnum kynlegur draumur, og voru margir, er festu trúnað á hann og þar á meðal Ólöf sjálf. Var hún allt af að ympra á því þegar ódaunn-

inn kom upp að leitað væri milli þils og veggjar í Lottuherberginu. En þó fórst það jafnan fyrir.

Svo liðu tímar fram, þar til enn varð vinnukonuskipti á Flateyri. Kom þá þangað Sigurborg nokkur. Ekki hafði hún heyrt neitt um draum Ólafar. En skömmu eptir að hún var komin, dreymdi hana alveg sama drauminn um þessa ljóshærðu stúlku, er ásakaði sjálfa sig um barnsmorð og benti upp á loptið. Kvaðst Sigurborg sjerstaklega hafa tekið eptir því, hvað hún hafi haft fríðskapað nef og falleg augu. Nú fór mönnum ekki að verða um sel. Og allt af var sama ólyktin að gjöra vart við sig, en þó fór það nú að verða sjaldnar. Loks hvarf hún með öllu.

Svo liðu nokkur ár.

Uppi á loptherberginu, sem draumkonan hafði bent á, var siður að láta beykja og búðarmenn sofa. Eitt sinn sem optar kom útlendur beykir til Flateyrar, er Westergaard hjet. Var hann eins og aðrir látinn sofa á Lottuherberginu. Fyrsta kvöldið þegar hann var lagstur út af og hafði snúið sjer til veggjar, heyrist honum eitthvað skrjáf á bak við sig, eins og hringlað sje í beinum. Honum verður það fyrir að líta við; sjer hann þá ekki betur en að dálítill barnskroppur hangi á snæri

upp við sperruleggiun undir súðinni. Rís hann þá upp í snatri og þrífur til rýtings, er hann átti og lá á borði við höfðalag hans. En þegar hann ætlaı að bregða rýtingnum og skera barnið niður, er það horfið. Síðan lagðist hann aptur til svefns og bar ekki meira til tíðinda um nóttina. Um morguninn eptir sagði hann frá, hvað fyrir sig hefði borið. Gjörðu sumir gys að glámskyggni hans, en aðrir, er þekktu hvað á undan var komið og trúaðir voru á yfirnáttúrlega hluti, sáu í þessum atburði nýja sönnun fyrir því, að í húsinu væri fólginn lykillinn að voðalegu leyndarmáli. Beykirinn svaf framvegis á sama herberginu, en varð ekki neius var framar.

Enn liðu svo nokkur ár, að ekkert varð vart við reymleikann. Þá var það eitt sinn um þær mundir er Skúli Thóroddsen var að halda rannsókn í Skurðsmálinu á Flateyri, að allt heimilisfólkið sat niðri í stofu og var að skeggræða um hitt og þetta, þar á meðal um draugasögur. Á meðal þeirra, er inni voru, var fylgdarmaður Skúla, er beiðst hafði gistingar um nóttina, skynsamur maður og gætinn. Hann lagði fátt til málanna og hefur víst ekki verið mjög trúaður á drauga. Honum var vísað til sængur um kveldið uppi á Lottuherbergi. Þegar hann var farinn upp

að hátta, sátu stúlkur tvær eptir í stofunni og voru að skrifa. Allt í einu heyra þær þrusk mikið og gauragang uppi á slánni. »Skyldi hann vera að verða vitlaus gesturinn,« segir önnur og biður hina að koma upp með sjer og vita, hvað um sje að vera. Þegar þær koma upp, stendur maðurinn í dyrunum á nærfötunum og gerir ýmist að klóra sjer í höfðinu eða skima í kringum sig. Ljósið logaði í herbergi hans. Þær báðu hann að fara upp í rúmið sem skjótast; það sje engra manna siður að vera að skrölta um á nærklæðunum. Hann anzar því engu. Það var eins og hann gæti ekki áttað sig. Loksins stundi hann því upp að hann hefði sjeð nokkuð og heyrt nokkuð, en meira vildi hann ekki segja. Eitthvað hryllilegt hlýtur það að hafa verið, því að hann aftók með öllu að sofa þarna um nóttina. Urðu þær að flytja hann inn á annað herbergi. Ekki varð honum þó svefnsamt þá nótt; heyrðu þær að hann var allt af að bylta sjer og skirpa í allar áttir.

Fyrir fáum árum dreymdi Ástríði dóttur Torfa kaupmanns eina nótt, að hún svaf niðri í litla herberginu inn úr eldhúsinu, þar sem hún var vön að sofa þegar hún var barn. Henni þótti dyrnar opnast og inn koma kvennmaður með ljóst flakandi hár, er gekk rak-

leitt að rúmi hennar, grúfa sig ofan að henni og segja: »Manstu þegar þú varst lítil? Þá voruð þið krakkarnir vön að leika ykkur þarna inni í skonsunni á bak við og voruð að skríða upp litla stigann. Þar er það!« Svo benti hún með hendinni um leið og hvarf. Þegar Ástríður vaknaði, fór hún að hugsa um drauminn. Þetta væri alveg satt, sem konan hefði sagt; hún hefði svo opt verið að skríða um þarna inni í skonsunni þegar hún var lítil. En nú var fyrir langa lifandi löngu búið að negla fyrir skotið og setja ofn fyrir framan. Annað sinn dreymdi hana að sami kvennmaðurinn kom inn með miklu fasi og sagði um leið og hún gekk fram hjá og hvarf: »Jeg brá mjer inn milli pistils og guðspjalls!«

Þess er að geta við söguna að þegar skömmu eptir að Torfi var fluttur að Flateyri þegar mest bar á nályktinni og draumunum um ljóshærðu stúlkuna, þóttust ýmsir sjá ungan mann á ferli þegar dimmt var orðið á kvöldin, ýmist fyrir framan dyrnar á Lottuherberginu og ýmist annars staðar á loptinu. Margir sáu hann svo greinilega, að þeir gátu lýst úrfestinni hans. Ef farið var að gæta betur að, þótti mönnum sem hann hyrfi inn í vegginn.

Einu sinni var brúðkaupsveizla haldin hjá

Torfa kaupmanni. Seint um nóttina þegar fólk var að fara, báðust tvær systur, Ingunn og Hildur, gistingar þar. Var þeim vísað til sængur í salnum, er svo var nefndur, við hliðina á Lottuherberginu, uppi á loptinu. Þegar þær voru háttaðar, sofnaði Ingunn brátt, en Hildur varð andvaka. Liggur hún svo æðistund. Þá verður henni litið fram að þilinu og sjer, hvar maður stendur, og var eins og hann væri ekki nema hálfur út úr veggnum. Henni þykir kynlegt að hann skuli ekki hreyfa sig, vekur því systur sína og spyr: »Sjerðu nokkuð Ingunn?« Ingunn vaknaði og leit upp: »Jú þarna stendur einhver út við vegginn, og jeg get ekki betur sjeð en að hann standi inni í þilinu og sje hálfur fyrir framan það og hálfur fyrir innan.« Þær kalla nú og spyrja, hvort þar sje nokkur. Enginn anzar. Hildur, sem var kona mikil fyrir sjer, setur þá í sig móð og snarast fram úr rúminu og ætlar að gá að, hverju þetta sæti. En þegar hún kemur að þilinu, er þar ekkert fyrir nema heill veggurinn. Um morguninn fóru þær að inna eptir því, hvort reymt væri þarna uppi á loptinu. »Svo hefir sumum þótt,« sagði húsfreyja og brosti að. »En lítið mark mun á því takandi.« Þær systur sögðu, hvað fyrir þær hafði borið, og

sögðu þeir er trúðu, að þetta hefði verið kærasti ljóshærðu stúlkunnar, er marga hefði dreymt. Væri hann þarna á vakki á næturnar, því að þar hefði barnsmóðir hans fyrirfarið afkvæmi sínu.

---

## Svipur.

Einu sinni var kona, sem átti heima einhvers staðar á Suðurlandi; á hvaða bæ það var, hirði jeg ekki að greina. Hún átti eitt barn, sem henni þótti ákaflega vænt um, enda var það einasta barnið hennar. Svo bar það við eitt kvöld um veturinn, er dimmt var orðið, að hún var stödd úti á hlaði; veður var nokkuð skýjað og skein tungl í rofum. Hún sjer þá, hvar einhver smáhnoðri er að veltast fyrir fótum hennar; hjelt hún það væri ullarhnoðri og ætlar að taka hann upp, en hann veltur undan. Þannig berst leikurinn utar eptir hlaðinu; hún sækir eptir, en hnoðrinn hörfar undan, þar til er hann hverfur inn um skemmudyrnar, er stóðu opnar. Henni verður þá

litið inn í skemmuna, og sjer mann standa þar við hefilbekkinn og smíða í ákefð; þekkir hún þar smiðinn, er vanur var að smíða utan um þá, er dóu þar í sveitinni. Og þykist hún sjá að hann er að smíða líkkistu. Hún ávarpar hann og spyr, hvernig á því standi að hann sje þar kominn. Maðurinn anzar engu, en heldur áfram verki sínu alvarlegur í bragði. Í sama bili dró fyrir tunglið og sá hún þá ekkert nema myrkrið í kringum sig. Hún varð þá hrædd, flýtti sjer inn og fór að spyrja heimafólkið, hvernig á þessum manni stæði, sem væri að smíða úti í skemmunni. En enginn vissi hans þar von.

Skömmu síðar veiktist barn hennar og dó. Maðurinn, sem hún hafði sjeð, smíðaði utan um það í skemmunni.

---

## Sporðsfeðgar.

**(Eptir handriti B. Magnússonar, Hnausum.)**

Jón er maður nefndur; hann bjó á Sporði í Húnavatnssýslu. Veturinn 1892 í nóvembermánuði fór Jón í kaupstaðarferð til Borð-

eyrar. Bað hann þá kaupmanninn þar um lán, en kaupmaður vildi eigi veita honum það, því að Jón bóndi var fremur fátækur og skuldugur. Snjeri Jón sjer þá að Pjetri nokkrum Jónssyni, unglingsmanni, og hjálpaði hann þá bónda um eitthvað; fór hann svo leiðar sinnar og heim.

Leið nú fram að desembermánuði. Annan dag desember gjörði hríð mikla, sem kunn er orðin. Náði hríð þessi um allt land og gjörðist hún með svo skjótri svipan, að margir urðu úti bæði menn og fjenaður. Kvöld þetta, er hríðina gjörði, fóru þeir til kinda sinna Jón á Sporði og sonur hans. Fara svo eigi sögur af ferðum þeirra, en þeir urðu úti báðir og allt fje þeirra. — Þessa sömu nótt dreymdi Pjetur Jónsson á Borðeyri að honum þótti Jón bóndi á Sporði koma til sín og þakka sjer fyrir síðast, því að konu sína myndi eigi skorta fyrst um sinn. Hvarf Jón svo til Pjeturs og kvað vísu þessa:

»Engin skíma yndi ljer,  
Ekkert skjól finnst lengur.  
Fram í tímann horfi eg hjer,  
Heldimm gríma að sjónum ber.«

Pjetur vaknaði, er Jón hafði kveðið vís-

una og mundi hana þá þegar. Virtist honum sem svipur Jóns hyrfi í því bili út úr stofunni og hurðum væri skellt aptur.

Þessa sömu nótt dreymdi Þorvald prest á Mel líkan draum. Kom Jón á Sporði til hans og kvað vísu. Prestur mundi eigi af vísunni, er hann vaknaði, annað en fyrsta og fjórða vísuorðið og hljóðuðu þau svo:

»Vonar skíma veiklast fer,
— — — — — — — —
— — — — — — — —
Koldimm gríma að sjónum ber.«

En litlu síðar frjetti prestur að Rósant bónda Natansson í Sporðshúsum hefði dreymt Jón og kvæði hann vísu fyrir honum. Tókst prestur því ferð á hendur til þess að finna Rósant. Spyr prestur hann um draum hans. Rósant var tregur til að segja frá því, er fyrir hann hafði borið, en þó kom þar að hann sagði að sig hefði dreymt Jón á Sporði og hefði hann kveðið vísu, en eigi kvaðst hann muna nema annað og þriðja vísuorðið af henni og ljet hann prest heyra þau og voru þau þannig:

— — — — — — — —
Vindinn Ímu hrollur sker.

Kulda stím er kvíðnum mjer;

— — — — — — — —

Sá prestur þá að þessi vísuorð stóðu heima við þau, er hann hafði dreymt. Flestum þótti atburðir þessir kynlegir, en líkindi eru til að þeir sjeu sannir þar eð óljúgfróðir menn hafa átt hjer hlut að máli. Þeir Sporðsfeðgar fundust eigi fyrr en um vorið þegar snjóa leysti.

---

## Draumur.

**(Eptir stud. med. G. Tómássyni).**

Á yngri árum gekk afi minn á verzlunarskóla í Kaupmannahöfn. Það var um 1840. Hann átti systur þar í borginni og bjó hún rjett í leiðinni frá heimili hans til skólans; það var því vandi hans jafnan á morgnana áður en kennsla byrjaði að koma við hjá systur sinni og bjóða henni góðan daginn. Eitt sinn sem optar kemur hann til hennar og er hún þá venju fremur döpur í bragði. Hann spyr, hvað því valdi. Hún segir að sig hafi dreymt

eitthvað svo óviðfeldinn draum um nóttina. »Jeg þóttist,« segir hún, »vera á gangi niður um bæ og fara sem leiðir liggja út yfir Amakursund, þar til er jeg kom að vopnabúrinu (Töjhuset). Þar var múgur og margmenni saman komið og stóð heill hópur hermanna á verði við dyrnar. Sorgarsvipur sýndist mjer á hvers manns andliti. Jeg þóttist ganga án þess nokkur bannaði gegnum mannfjöldann og inn í salinn; hann var altjaldaður svörtum tjöldum og logaði dauflega á kertum hingað og þangað. Á miðju gólfi stóð líkkista mikil úr steini (sarkofag). Þykist jeg vita að þetta muni vera líkkista einhvers af Danakonungum og fer að skyggnast eptir letrinu. Þar stendur þá:

*Christian den VIII.*

**födt den 18. sept. 1786, död den 20. jan. 1848.
Danmarks sidste souveræne konge.**

Mjer varð hverft við og það því fremur sem jeg nú tók eptir því að jeg óð í blóði til ökla. Hrökk jeg þá upp með hræðslu mikilli.« Þeim systkinum þótti draumurinn einkennilegur og skrifuðu hann því upp. Nokkrum árum síðar dó Kristján konungur VIII. sama ár og dag og draumurinn sagði til. Þá var og einveldi Danakonunga lokið, því að Friðrik VII., er kom til ríkis eptir hann, gaf

þegar í upphafi ríkisstjórnar sinnar hina núgildandi dönsku stjórnarskrá.

Þess skal getið að konan, sem drauminn dreymdi, skildi alls ekki, hvað »souveræn« þýddi.

---

## Draugaskipið.

(Hdr. Lárusar stud. Halldórssonar.)

Fyrir mörgum árum fórst skip undir Eyjafjöllum með 14 mönnum. Þrír komust á kjöl og kölluðu á hjálp, því að fjöldi manna stóð á sandinum, — skipinu barst á skammt undan lendingu, — en brimið var svo mikið að ómögulegt var að hjálpa þeim. En er mennirnir vóru allir dauðir og drukknaðir, þá snerist skipið við og kom sjálft í land eins og því væri stýrt. Stóð það svo uppi í fjörunni og snart enginn við því fyr en veturinn eptir, er það var sett á ís yfir Holtsós og upp að Steinahelli; vildi enginn róa á því framar, því að geigur stóð mönnum af skipinu. Þegar það var sett á ísnum upp að hellinum, stóðu fjármenn frá Steinum, sem er næsti bær við

hellinn, uppi undir tjallinu yfir fje. Sáu þeir þá að öll dauða skipshöfnin gekk á eptir skipinu þegar það var sett og var ófrýn á að sjá. Eptir það stóð skipið í djúpri laut, sem er öðrum megin við hellinn. Skömmu seinna reið þar um bóndi utan af Rangárvöllum, er Þorkell hjet og bjó á Rauðnefsstöðum; ætlaði hann austur undir Fjöll. Þetta var í svartasta skammdegi og reið Þorkell bóndi um hjá hellinum, því þar liggur alfaravegur. Lítill lækur fellur ofan að vestanverðu við hellinn. Þegar Þorkell er kominn yfir lækinn mætir honum maður, er hann bar eigi kennsl á, og segir sá við hann: »Settu með okkur, lagsmaður!« Þorkel grunar ekkert, því að skipið sást ekki af götunni, og tekur hann vel undir þetta. Ekki mælti maður þessi fleira, en snýr við og bendir Þorkeli að koma á eptir sjer. Þorkell ríður svo á eptir honum, en það þótti honum skrítið, að hestur hans var allt af að frísa og virtist nauðulega vilja elta manninn. Nú koma þeir í lágina þar sem skipið stóð og sjer Þorkell þá 13 menn standa í kring um skipið og vóru svaðalegir álitum. Þá man Þorkell fyrst eptir skipreikanum undir Fjöllunum um haustið og þykist hann þarna þekkja þá, sem drukknað höfðu. Verður hann þá skelkaður mjög og slær upp á klárinn.

Tekur hann til fótanna, en Þorkell heyrir draugana kveða vísu þessa, um leið og hann reið upp úr lautinni:

»Gagnslaus stendur gnoð í laut,
Gott er myrkrið rauða.
Halur fer með fjörvi braut.
Fár er vin þess dauða,
Fár er vin þess dauða.«

Þorkell nam vísuna; reið hann nú allt hvað af tók og náði að Steinum um kvöldið. Eptir það fór Þorkell bóndi aldrei einn um þennan veg og ljet allt af einhvern fylgja sjer þótt albjartur dagur væri. Skipið var loks höggvið niður í eldinn, en áður höfðu menn opt heyrt högg og brak í því einkum er kvölda tók.

---

## Hinn látni sækir unnustu sína.

Á skólaárum mínum þekkti jeg unglingspilt í Reykjavík, Sigurð að nafni, er var trúlofaður stúlku þeirri, er Sigrún hjet. Þau voru

bæði í miklu afhaldi hjá öllum, er kynntust þeim, enda hef jeg óvíða þekkt vænni og dagfarsbetri manneskjur. Tveim árum síðar, er jeg var kominn til háskólans, frjetti jeg að þau væru bæði dáin og hefði skammt orðið á milli þeirra. Það var kunningjastúlka Sigrúnar, er þá var nýkomin til Hafnar, er sagði mjer frjettirnar. Mjer varð bilt við tíðindin, því að enda þótt jeg hefði ekki skrifazt á við þau, var mjer þó vel til þeirra og svo þótti mjer þetta eitthvað svo sorglega vofeiflegt. En atvik það, er Þórdís — svo hjet sögukona mín — sagði mjer frá um leið, brá eitthvað svo fögrum og huggunarríkum blæ yfir sorgarfregnina, að mjer fannst það að lokum engin sorgarfregn vera. Jeg læt Þórdísi segja hjer frá þessu atviki með sömu orðum og hún sagði mjer það:

Skömmu eptir að Sigurður var dáinn, var jeg einn sunnudag við guðsþjónustugerð í dómkirkjunni. Sigrún var til altaris um daginn. Meðan hún grúfði sig að grátunum bar svo við, að ein af vinstúlkum hennar, er sat við hliðina á mjer og var mjer vel kunnug, rak allt í einu upp hljóð og greip í dauðans ofboði utan um mig. Mjer þótti þetta kynlegt og spurði, hvað að henni gengi. Hún reis við þegjandi eptir stundarkorn, strauk

hendinni um augun eins og hún væri að skyggja fyrir einhverja óviðfeldna sýn og varp mæðilega öndinni. Á heimleiðinni sagði hún mjer, að hún hefði sjeð Sigurð heitinn standa fyrir framan Sigrúnu í hvítum hjúp og rjetta báðar hendur yfir höfuð henni eins og hann væri að blessa hana. »Þjer hefur missýnst; það hefur líklega verið presturinn, sem þú sást,« sagði jeg. »Nei, presturinn stóð inni við altarið; jeg sá báða svo greinilega.« Það kom fyrir ekki, þótt jeg reyndi að sannfæra hana um, að þetta hefði hlotið að vera missýning. Hún fullyrti að það hefði verið Sigurður í náklæðunum. Skömmu eptir þennan atburð veiktist Sigrún og dó. X.

---

## »Leiðist mjer langdegi.«

(Sögn E. Sigurðssonar, Búðum í Fáskrúðsfirði).

Einu sinni bjó ekkja á Yztabæ í Miðfirði. Hún átti sjer dóttur, er Sigríður hjet. Svo bar við um sumarið, er Sigríður var nýfermd, að hún hvarf úr hjásetu. Þoka og súld hafði verið um daginn og hjeldu menn að stúlkan

hefði villst eitthvað út í buskann, en hlyti að hafa náð til bæja, er þokunni ljetti. En hvernhvernig sem hennar var leitað um úthaga og bæi, fannst hún hvergi, og þar kom að lokum, að allir töldu hana af nema móðir hennar; hún gat ekki annáð en vonað og vonað að dóttir sín kæmi þá og þegar í leitirnar. Leið svo af sumarið og fram á vetur.

Þá var það einn dag á jólaföstunni, að prófasturinn sendi vinnumann sinn, Bjarna að nafni, suður á land með skjöl til biskups. Bjarni hreppti fjúk á fjöllum uppi og leitaði því hælis í dimmum hellisskúta í gljúfri einu miklu, er fyrir honum varð. Þegar hann hefir legið þar um stund, heyrir hann kveðið fyrir innan sig í myrkrinu með raunalegri rödd:

»Leiðist mjer langdegi,
Hvergi finn jeg skammdegi
Síðan jeg fór úr Miðfirði í síðasta sinni.
Segðu það minni, segðu það móður minni.«

Bjarni fer nú að þreifa fyrir sjer um hellinn og verður þess var, að fyrir hann innanverðan er hlaðinn grjótveggur mikill; dyr voru á veggnum og hella reist fyrir milli tveggja drangsteina. Hann ryður burt hellunni og gengur inn; þar lagði um skímu frá

eldi í hlóðum; hjá hlóðunum finnur hann ljósajárn með feiti og kveyk; kveykir hann nú og lýsir fyrir sjer. Enn heyrir hann kveðna sömu vísuna. Hann gengur nú á hljóðið og finnur smugu, er lá inn í lítinn afhelli; þar sjer hann stúlku bundna við stein og mosabæli hjá. Hún segist heita Sigríður og vera dóttir ekkjunnar á Yztabæ í Miðfirði. Hafi sjer verið rænt úr hjásetu um sumarið af útilegumanni, sem hafðist við í helli þessum. Stúlkan hafði gjört það að vanda sínum að kveða vísuna, er hellisbúi var ekki heima, í von um að einhver byggðarmanna kynni að heyra til sín. Bjarni beið hellisbúa í myrkrinu í framhellinum og drap hann þar með atgeirsstaf sínum. Síðan hafði hann stúlkuna á burt með sjer og færði hana móður hennar. Segir sagan að Bjarni hafi kvongazt Sigríði og tekið við búi á Yztabæ.

---

## Þorgerður bóndadóttir.

(Eptir sögn gamallar konu á Kolmúla við Reyðarfjörð).

Einu sinni bjuggu hjón á bæ; ekki er þess getið í hvaða sveit það var. Þau áttu

þrjár dætur og hjet hin elzta Þorgerður. Hún var stúlka bráðgjör og ötul til vinnu. Þegar hún var 14 vetra gömul, gekk hún að öllum verkum sem fullorðinn kvennmaður. Það var vandi hennar þetta sumar úr því útengjasláttur hófst að fara heim um miðaptansbil til þess að hjálpa móður sinni við ljósaverk, sækja kýrnar, hýsa þær og mjalta. Þannig liðu 2 sumur að hún hefur þennan starfa á hendi. Var hún þá 16 vetra, en systir hennar, sú er næst var að aldri, tólf. Það sumar skyldi hún taka við kúageymslu, en Þorgerður ganga á kvíar með griðkonum. Eitt kvöld á ofanverðum útengjaslætti bregður svo við, að stúlkan kemur ekki heim með kýrnar; líður svo fram á lágnætti, að hvorki bólar á henni nje kúnum. Eru þá menn sendir að leita hennar; fundu þeir kýrnar skammt frammi á dalnum, en stúlkuna hvergi. Leitinni var haldið fram í 3 daga samfleytt og menn sendir til næstu sveita að spyrjast fyrir um hana, en allt kom það fyrir ekki. Þótti foreldrum hennar það harmur mikill. Svo líður ár, að ekki spyrst til hennar. Næsta sumar á yngsta systirin að gæta kúa. En er á líður sláttinn, fer allt á sömu leið sem fyr; stúlkan hverfur og finnst ekki, hvernig sem leitað er. Þótti það undarlegt, og var mörgum getum leitt til um,

hvað valda mundi. Bárust hjónin nú hálfu ver af en áður. Enn líður svo ár, að einksis verða menn vísari um hvarf meyjanna. Sumarið eptir er drengur einn fenginn fyrir kúasmala, og líður svo fram til hausts, að ekki ber til nýlundu. Þá var það eitt kvöld, að drengurinn kvaðst veikur og treystir sjer ekki eptir kúnum. Þorgerður bóndadóttir var komin heim til þess að hjálpa móður sinni við ljósaverk eins og hún var vön, en allt fólk annað var enn á engjum. Vill þá Þorgerður fara að sækja kýrnar, en móðir hennar aftekur það með öllu; minnir hún hana á, hvernig farið hafi með systur hennar og segist ekki munu fá afborið þann harm ef hún eigi nú að sjá henni á bak líka. Þorgerður bað hana vera óhrædda um sig; og fór á stað hvað sem móðir hennar sagði. Var þá liðið að mjöltum. Ekki hefur hún lengi gengið er kolniðaþoku skellir yfir. Villist hún þá og veit ekki, hvað hún fer, en heldur þó ótrauð áfram göngunni. Þannig ráfar hún, þar til myrkt er orðið af nótt, og finnur ekki kýrnar. Þá mætir hún manni á brúnum hesti; og heilsar hann henni með nafni. Þorgerður tekur vel kveðju hans og spyr, hvort hann hafi hvergi orðið var við kýrnar sínar. »Jú, einhverjar kýr sá jeg skammt á burtu hjeðan,

og skal jeg fylgja þjer þangað ef þú vilt,« segir hann. Þorgerður tekur því boði feginsamlega. Víkur hann þá við hestinum, og fara þau svo æðistund, að hann ríður, en Þorgerður fylgir með makkanum, og spjallar maðurinn við hana um hitt og þetta. Þorgerði fór nú að gruna margt, er ekki bólaði á kúnum, og datt í hug að maðurinn hefði logið að sjer og vildi ginna sig burt með sjer. Staldrar hún þá við og segir: »Þú hefur víst ekki sagt mjer satt um kýrnar, og muntu ætla að svíkja mig«. Hann hlær að tortryggni hennar, og segir að bráðum muni þau sjá kýrnar. Hún lætur það gott heita og gengur enn spölkorn. Þá nam hún enn staðar, hvessti á hann augum og sagði: »Víst ætlarðu að svíkja mig, enda mun jeg nú ekki lengra fara«. Bregður hún nú við og vill hlaupa frá honum út í myrkrið. En hann varð skjótari til en hana varði, þrífur til hennar og setur hana á bak fyrir framan sig. Sprettir hann nú úr sporunum og ríður allt hvað af tekur. Hún fann að hann átti alls kostar við sig og að ekki mundi tjá að hafa sig í harðbráki. Þannig fara þau alla nóttina og veit hún ekki, hvert þau halda. Þegar ljetta fór af þokunni með morgninum, voru þau komin innst inn í einhvern dal, sem hún

þekkti ekki; var þar jökull mikill á aðra hönd upp úr drögunum. Maðurinn stígur nú af baki, tekur síðan Þorgerði á handlegg sjer og hleypur með hana á jökulinn, en lætur hestinn eptir í dalnum. Loks komu þau að sprungu einni mikilli, er lá um þveran jökulinn. Maðurinn tekur tilhlaup mikið og hefur sig á lopt yfir sprunguna með stúlkuna í fanginu. Þótti henni það hreystilega gjört, því að svo var sprungan breið, að hún þóttist viss um, að það væri fárra manna færi að hlaupa þar yfir þótt slyppir væru. Fyrir handan sprunguna setur hann Þorgerði niður og segir glottandi, að nú láti hann hana sjálfráða, hvort hún vilji heldur fara með sjer eða snúa heim aptur. »Þetta segirðu,« mælti Þorgerður »af því að þú veizt að það er minn bráður bani að verða hjer ein eptir og hyggur að mjer sje nauðugur einn kostur að fylgja þjer. En það skaltu vita, að jeg hræðist ekki dauða minn, enda lízt mjer svo á þig, að betra muni vera að deyja úr kulda og hungri á fjöllum uppi en eiga að lifa langvistum saman við þig.« »Sjálfráð ert þú,« segir hann, »hvorn kostinn þú villt upp taka og mun jeg ekki beita þig nauðungu.« Lætur hann nú sem hann ætli ekkert að skipta sjer af henni framar og heldur á stað. Þorgerður stendur

eptir hugsandi og veit ekki, hvað ráðlegast muni. En með því að henni þótti örvænt um að hún kæmist ein til byggða, og hana hins vegar langaði til að forvitnast um örlög systra sinna, þá ræður hún af að fylgja fjallbúa og láta auðnu ráða til hvers draga muni. Drattast hún þá í humáttina á eptir honum. Ganga þau nú, unz þau koma af jöklinum. Blasti þá við þeim rennisljettur dalur með engjum hið neðra og skógi vöxnum hlíðum hið efra. Kotbær lítill stóð við ána því nær í miðjum dalnum. Þau fara þar til er þau koma að bænum; var þá dagur að kvöldi kominn; maðurinn gengur rakleitt til baðstofu og Þorgerður á eptir. Ekki manna var fyrir í baðstofu og að eins eitt rúm stóð þar inni ef rúm skyldi kalla. Karl skákar sjer á rúmstokkinn og bendir Þorgerði að sitja hjá sjer. Hún lætur sem hún sjái það ekki og sezt á þrep við gaflinn. Nú tekur karl kjöttrog af hyllu og fer að snæða; hann býður henni með sjer. Hún læzt munu eta þegar hann sje mettur. Hann er við og við að brjóta upp á samtali við hana, en hún svarar skætingi. Þegar bæði höfðu matazt, fer karl að hreiðra upp í fleti sínu, og að því búnu spyr hann Þorgerði, hvort hún vilji heldur sofa fyrir ofan stokk eða framan. Hún kýs heldur

að sofa á gólfinu. Býr hann þá um hana þar en skreiðist sjálfur í fletið. Vel sofnaðist Þorgerði um nóttina, því að hún var þreytt, og vaknaði hún ekki fyr en liðið var langt á morgun. Þá hafði bóndi verið lengi á fótum. Kemur hann nú að máli við Þorgerði og segir að nú verði hún að gæta búsins meðan hann skreppi á fjöll að sækja sjer fje til slátrunar. Hún anzar því engu, en karl leggur á stað. Þegar Þorgerður var klædd, fer hún að litast um í kotinu. Þykir henni þar allóþrifalegt um að litast og munir allir fornfálegir. Loks finnur hún dálítinn afkyma og er þar troðfullt af ull. Hyggur hún nú gott til glóðarinnar að setjast að tóvinnu til þess að verjast leiðindum. En sá var galli á gjöf Njarðar, að hvorki fannst rokkur nje snælda eða önnur áhöld, er að tóvinnu lúta. Þá varð og fyrir henni í skoti í göngunum heilmikil hrúga af gatgengnum sokkaplöggum; þótti henni þau þurfa heldur en ekki aðgjörðar við. En þá vantaði bæði nál og spotta. Hún skyggnist nú betur um eptir verkfærum og finnur loks á hyllu uppi yfir staginu kolryðgaða kamba, gjöpluð skæratetur og ryðbrunna prjóna. Tekur hún það allt og fágar eptir föngum; fær sjer því næst ull og fer að kemba. Meðan hún er að því, vill svo

vel til að hún kemur auga á snældu, sem stungið var undir rapt í rjáfrinu. Þeim fundi varð hún næsta fegin.

Daginn eptir kom bóndi heim; sat þá Þorgerður við snældu sína og spann í óða önn. »Já, ójá, sezt við tóvinnu, kerli mín!« segir bóndi og hýrnar undir brún. »O, ekki er nú vistin of skemmtileg samt þó maður gjöri sjer eitthvað til afþreyingar, en það er ekki því að fagna að hægt sje að taka hjer ærlegt handarvik fyrir a . . . . . . ekki sinn verkfæraleysinu!« Hann bað hana að fást ekki um það að sinni, en koma nú og hjálpa sjer að slátra kindum, sem hann hafi rekið heim. Hún gjörði sem hann beiddi, hjelt fótunum og þvoði innan úr. Karli þótti hún ganga rösklega að verki og leit hýrlega til hennar. Hún ljet sem hún sæi það ekki. Um kvöldið er tími var til að snúa hýbýlum á leið, spyr karl enn, hvort hún vilji heldur hírast hjá sjer eða liggja á gólfinu. Hún svarar sem fyr, að hún kýs að liggja á gólfinu. Morguninn eptir kvaðst karl þurfa að fara að afla eldiviðar, »og verður þú að una ein heima í dag.« Hún segir hann megi fara norður og niður fyrir sjer; hún muni ekki sakna hans. Síðan tekur hún til sláturgjörðar og hefur lokið því verki um kvöldið, er karl kemur heim. Hann

hrósar henni mjög fyrir dugnaðinn; en hún hreytir í hann ónotum.

Þannig líður hálfur mánuður, að ekkert ber á rekana; Þorgerður stjórnaði öllu innanstokks með hinni mestu röggsemi og starfaði mikið að tóvinnu, en karl var burtu löngum allan daginn og kom ekki heim fyr en seint á kvöldin. Mæltist hann þá jafnan til þess að hún hætti að sofa á gólfinu. En hún gaf engan gaum að tilmælum hans. Þá var það einn morgun að karl kvaðst ætla í kaupstað að afla sjer vetrarforða; »verð jeg 3 daga að heiman og vona jeg að þú látir þjer ekki leiðast.« »Fara máttu hvert á land sem þú vilt fyrir mjer, og vildi jeg helzt aldrei sjá þig framar!« sagði Þorgerður. Bóndi sækir nú fjóra hesta; bindur hann ull og tólg á 3, en hefur einn til reiðar; heldur síðan á stað. Á 3. degi kemur hann aptur og og hefur þá kornvörur á hestunum. Hann færði og Þorgerði ýms tóvinnutól, rokk, prjóna, skæri o. fl., er hann vissi að hún þurfti með. Hún þakkar honum ekki einu orði, heldur sýnir honum sama kuldann og ónotin sem fyr. Líður svo fram til veturnátta. Þá rekur bóndi heim margt fje til slátrunar; þóttist Þorgerður aldrei hafa sjeð svo væna sauði. Hún hjálpar honum að gjöra að þeim, og býr síðan til

slátrið; fór henni það vel og búkonulega úr hendi.

Nú settist brátt að vetur með frosti og snjókomum; stendur bóndi þá jafnan yfir fje sínu myrkra á milli, en Þorgerður situr við tóvinnu á daginn og hefur mat til handa honum á kvöldin. Bónda þótti mjög vænt um hana og var henni í öllu góður og hugulsamur; en ekki mýktist lund hennar að heldur, og jafnan neitaði hún harðlega að flytja saman rúmföt þeirra, er karl ympraði á því á kvöldin. Lítið var um samræður milli þeirra, því að Þorgerður svaraði annaðhvort engu, er karl ávarpaði hana, eða þá sem allra styzt. Eitt kvöld segir hann: »Ekki ertu forvitin, Þorgerður; þú hefur ekki einu sinni spurt mig að nafni, auk heldur meira!« »Ætli mjer standi ekki á sama, hvort þú heitir Sámur eða Skrámur!« segir Þorgerður. Þá hló karl; kvaðst hann hvorugu því nafni heita, heldur Björn. Fjell svo talið niður. Þegar liðið var fram á jólaföstu, tók bóndi að gjörast nokkuð daufmáll og þungbúinn og leitaði nú fast á um ástamálin. En Þorgerður ljet engan bilbug á sjer finna. Eitt kvöld, er vika var til jóla, kemur bóndi inn með tvær litlar kvenmannshendur á spotta og hengir þær upp yfir rúmi sínu. Þorgerði varð bilt við; þóttist hún vita

að hendurnar væru af systrum sínum og mundi hann hafa ráðið þeim bana; vildi hann nú ógna sjer til ásta með því að láta sig renna grun í að annars ætti hún sömu örlög fyrir hendi. Þó gat hún stillt sig svo, að enginn mundi hafa sjeð henni bregða. Bóndi snýr að henni þungbrýnn og spyr hana að vanda, þó nokkru hvatskeytilegar en fyr, hvort hún vilji byggja rekkju með sjer. Hún kveður nei við. Þegar bóndi er háttaður, fer hann að dingla dánar-höndunum fram og aptur og tautar fyrir munni sjer: »Bráðum verðið þið þrjár! Bráðum verðið þið þrjár!« Þannig fer fram sex kvöld samfleytt. Á aðfangadag jóla tekur hann til kjöt og brytjar handa henni til suðu fyrir hátíðina. Er hann þá venju fremur blíður og angurvær. Um kvöldið kemur hann heim í fyrra lagi og biður Þorgerði að þvo sjer. Hún gjörir það og fær honum hrein föt að fara í. Þegar þau eru sezt að í baðstofunni og Þorgerður hefur þvegið allt og þrifið, fer karl allt í einu að syngja jólasálma utan bókar. Henni brá við og þó vel; hún var ekki því vön að heyra hann hafa guðsorð um hönd. Tekur hún undir með honum, og syngja þau svo um stund. Síðan situr karl lengi og styður hönd undir kinn í þungum hugsunum. »Daufleg eru jólin okk-

ar fjallabúanna!« segir hann loks. »Og guð má vita, hvort okkur er ekki útskúfað frá fagnaðarboðskapnum eins og úr mannfjelaginu.« »Hver er sinnar hamingju smiður,« segir Þorgerður; »það er ekki nema eðlilegt að þjófum og manndrápurum sje hvervetna útskúfað, enda þótt guðhræðsla grípi þá á jólunum.« Eptir stundarkorn tekur karl aptur til máls: »Þú heldur að jeg hafi ráðið systrum þínum bana. Að vísu er jeg að nokkru leyti orsök í dauða þeirra, en þó óviljandi. Ef þú vilt hlýða á frásögn mína, geturðu bezt dæmt um það sjálf. Það er þá fyrst til að taka að foreldrar mínir voru útilegumenn eins og jeg og bjuggu hjer í dalnum. Móðir mín var góð kona og guðhrædd; henni á jeg að þakka það litla sem jeg veit um skapara minn og að jeg hef ekki verið með öllu hirðulaus um mismun á rjettu og röngu. Faðir minn var maður harður í skapi og fámáll, en aldrei vissi jeg til þess að hann rændi fje byggðarmanna eða gerði nokkrum manni mein. Þegar foreldrar mínir voru dánir, undi jeg illa einverunni og langaði til að fá mjer einhverja manneskju til að vera hjá mjer; á vald byggðarmanna þorði jeg ekki að ganga. Þó þreyði jeg svo þrjú ár eptir andlát foreldra minna, að jeg gat ekki af mjer fengið að ræna nein-

um. En þá var þolinmæði mín á enda, og verð jeg að játa að jeg var valdur að hvarfi systra þinna. Jeg reyndi að vera þeim eins góður og mjer var hægt og hafði mig allan við að hugga þær og fá þær til að vera hjá mjer. En þær voru svo óþýðar, að jeg fjekk engu tauti við þær komið; þeim varð ekki að verki að taka eitt einasta handarvik sjer til afþreyingar; neyttu þær hvorki svefns nje matar fyrir óyndi og þrjózku og drógust upp til dauða. Jarðaði jeg þær síðan, en tók sína höndina af hvorri til menja. Ætlaði jeg mjer að ræna þjer, eins og jeg líka hef gjört, og hafa þær til þess að ógna þjer til ásta við mig. En að beita hörðu við þig eða vinna þjer nokkurt mein, hefur mjer aldrei til hugar komið, því að til góðs eins hefurðu unnið af mjer.« Þorgerður sat þegjandi og horfði í gaupnir sjer, er karl hafði lokið sögu sinni. Hún var föl, en gráta gjörði hún ekki. Karl beið þess lengi, að hún segði eitthvað, en er það varð ekki, fór hann að hátta. Þorgerður sat enn nokkra stund; þá stóð hún upp og gekk til rúms síns. Um leið varð henni litið til karls, og fannst honum fremur meðaumkvun en reiði í augnaráðinu.

Daginn eptir í rökkrinu, er karl kom heim frá sauðum, var Þorgerður venju frem-

ur þýð við bónda. Hann spyr hana, hvort hún geti fyrirgefið sjer að hann hafi verið orsök í dauða systra hennar. Hún rjettir honum höndina. Það kvöld gengu þau bæði í eina rekkju.

Að ári liðnu eignuðust þau dreng og ljetu hann heita Björn eptir föður sínum. Svo líða sjö ár, að ekkert ber á rekana. Þá var það eitt sinn snemma á útmánuðum að karl kemur að máli við Þorgerði; kveðst nú eiga skammt eptir ólifað. »En áður en jeg dey ætla jeg að fara með þig upp á fjöllin og vísa þjer leið til byggða, því að hjer skaltu ekki langdvölum dvelja að mjer dauðum.« Ganga þau síðan einn góðan veðurdag upp á fjöllin og sjá til sveita. Segir hann henni vel og vandlega til vegar, en biður hana þó vera hjá sjer til þess er hann sje dáinn og hafa einhver ráð með að grafa sig. Skyldi hún taka fje allt eptir hann, því að hann var auðugur að lausum aurum og gangandi gripum. Hún gjörir sem hann biður og fer með honum aptur til dalsins.

Líður nú fram til sumarmála. Þá andast Björn. Veitir hún honum umbúnað eptir föngum og grefur hann undir kofaveggnum. Fám dögum síðar snemma morguns leggur hún af stað með drenginn. Veður var bjart

og færðir góðar á fjöllum. Um kvöldið ná þau til byggða og koma að prestssetri einu. Beiðast þau þar gistingar og er hún í tje látin. Prestur var hnigin að aldri og átti son í skóla. Um morguninn kemur hann að máli við Þorgerði og spyr hana að ætt og uppruna og hvernig standi á ferðum hennar. Hún segir honum upp alla söguna og biður hann ásjár. Hann kveður henni heimila vist með sjer ef hún vilji láta sjer það að góðu verða. Tekur hún því með þökkum og sezt um kyrt með drenginn. Að nokkrum dögum liðnum sendir prestur menn og hesta til dalsins að sækja eignir hennar, bæði kvikfje og aðra muni. Er hún og sjálf með í förinni til að vísa veginn. Finna þau þar marga gangandi gripi og auk þess peningakvartil, er stóð undir rúmi karls. Flytja þau það allt til byggða og veitir prestur öllu móttöku fyrir hönd Þorgerðar. Af foreldrum sínum, hafði Þorgerður fengið þær fregnir, að þau væru bæði dáin; hafði harmur eptir dætur þeirra dregið þær til bana. Ásetti hún sjer því að verða kyr hjá presti. Að þrem árum liðnum kemur sonur hans úr skóla og er þá útlærður. Lætur hann vígja hann til kapelláns til sín. Brátt gjörðist samdráttur með þeim Þorgerði og kom svo að hann hóf bónorð sitt til henn-

ar. Hún tók því vel, og var það að ráðum gjört að prestsson skyldi fá Þorgerðar og taka við brauðinu eptir föður sinn, er þá var orðinn hrumur af elli og lítt fær til prestsverka. Unnust þau hjón vel og lengi, og lýkur svo sögunni af Þorgerði bóndadóttur.

---

## Völuleiðið á Hólmahálsi.

(Austfirzk sögn).

Á utanverðum Hólmahálsi í Reyðarfirði er steinn, er kallaður er Hvíldarsteinn, og stendur rjett hjá alfaraveginum. Hjá steininum er grænn grasblettur, er nefnist Völuleiði og er sú saga til: Völva ein bjó á Sómastöðum í Reyðarfirði, nokkru fyrir þann tíma, er Tyrkir rændu hjer við land (1627). Áður en hún andaðist, lagði hún svo fyrir að sig skyldi grafa þar, er bezt væri útsýn yfir Reyðarfjörð, og kvað þá aldrei fjörðinn mundu rændan af sjó meðan nokkurt bein væri órotið í sjer. Var hún þá grafin á fyrnefndum stað. – Þegar Tyrkir komu að Austfjörðum, hugðu þeir sjer til hreyfings að sigla inn á

Reyðarfjörð og ræna Hólmakirkju og kaupstaðinn að Breiðuvíkurstekk. Þóttust þeir eiga þar fangsvon góða. En er þeir komu í fjarðarmynnið, kom á móti þeim geysandi stormur, svo að fjöll þakti í sjáfarroki beggja megin fjarðarins. Urðu þeir þar frá að hverfa við svo búið. — Aðrir segja, að þeim hafi þótt svo að sjá inn til fjarðarins, sem þar brynni bæði land og lögur.

Í austurtúninu á Hólmum getur að líta nokkra ljósleita steina, er standa þar upp úr þúfunum. Segja menn að það sjeu legsteinar barna þeirrar sömu völu, er grafin er á hálsinum. Var það trú manna, að með því að slá á þá mætti láta koma niður úr hverri átt, er vildi.

---

## »Þú liggur á minni eign, Anna.«

(Eptir hdr. Kristjáns realst. Guðnasonar á Vopnafirði).

Anna Sveinsdóttir, öldruð kona á Húsavík nyrðra, sagði mjer sögu þessa um atvik, er hana hafði sjálfa hent.

Eitt sinn á yngri árum var Anna í kaupavinnu í Steinólfsvík hjá Einari nokkrum Einarssyni, sem þar bjó þá. Það var seinni part sumars, að þau fóru til heyskapar fram á svokallaðan Millivatnaflóa, alllangt frá bænum. Af því þeim þótti kalt á nóttunni að liggja þar undir berum himni fluttu þau kaffiáhöld sín og farangur allan austur að gömlum hjásetukofa, sem stóð austur undir Krossavíkurfjöllum, og hjeldu þar til um nætur.

Eitt kvöld bar svo við, að drengur kom úr Krossavík með orð til Einars um að sækja fisk þangað, og fer Einar svo af stað um miðaptan, en segir Önnu að hann muni koma aptur um kvöldið, til þess að hún þyrfti ekki að vera ein í kofanum um nóttina.« Þegar venjulegur hættutími var kominn, heldur Anna heim til kofans, og fer að sækja vatn í ketil í djúpa gróf eða jarðfall, sem fjallsmegin er við kofann. Síðan fer hún inn til að klæða sig úr plöggunum; en er hún er komin úr á öðrum fæti, heyrir hún að sagt er austan við kofann í jarðfallinu: »Komdu, hún er ein inni!« Hún heldur að þetta sje ef til vill strákar úr Steinólfsvík, sem myndu ætla að hræða sig; gengur hún því út og kringum kofann og kallar, en enginn tekur undir. Jafnskjótt og hún er komin inn aptur, heyrir hún annað

kall, hún mátti á því heyra að þessir fjelagar vildu finna hana. Fer hún þá aptur út og spyr sem fyrr, hverjir þar sjeu, en engu er svarað. Þegar hún er komin inn og búin að plagga sig heyrir hún að sagt er í þriðja sinn með ákefð. »Komdu!« En jafnskjótt er svarað aptur: »Það er nú ónýtt! Hann kemur.« Anna hleypur þá út og vill nú naumast vera langdvölum ein í kofanum; ætlar hún að að reyna að komast ofan að Krossavík, þó hún hefði aldrei komið þangað fyrr, og leggur svo af stað ofan götur. En þegar hún er komin skammt á leið, sjer hún til Einars og snýr þá aptur; og er hann heilsar henni, er hún farin að tína sprek og lætur sem ekkert hafi ískorizt, og voru þau í kofanum um nóttina og bar ekkert til tíðinda.

Daginn eptir þegar þau höfðu etið miðdagsverð, leggur Anna sig til svefns með höfuðið á þúfu. Dreymir hana þá, að maður kemur að henni, hár og gildur; þóttist hún vita, að það væri Jón Marteinsson, sem eitt sinn var bóndi í Steinólfsvík, en þá dáinn fyrir alllöngu. Hann varpar á hana orðum og segir. »Þau urðu tvö úti í jarðfallinu.« Síðan segir hann byrstur í bragði. »Þú liggur á minni eign Anna!« Anna hrökk upp við þetta og segir við Einar, að það muni eitthvað vera

grafið í þessari þúfu, sem Jón Marteinsson hafi átt. Einar hló að þessu og gerði gaman að henni fjell; svo talið niður. En nokkru seinna var þessi sami blettur sljettaður undir heystæði og kom þá úr þúfunni heynál merkt: M. J. s. Þótti þá draumur Önnu rætast, því það vissu menn, að Jón Marteinsson hafði átt heynálina.

---

## Handkossinn.

Það var kona á Ísafirði. Hún átti ekkju eina fyrir vinkonu, er lá veik um þær mundir er saga þessi gerðist; var hún vön að vitja hennar við og við, en nú hafði hún ekki komizt til þess í nokkurn tíma og vissi ekkert, hvernig henni leið. Þá var það eitt kvöld, að hún var háttuð og búin að slökkva. Liggur hún lengi fram eptir í einhverju hálfmóki og getur ekki sofnað almennilega. Þá sjer hún loksins, að hurðinni er lokið hægt upp og inn kemur eitthvað tvennt og læðist inn eptir gólfinu. Þegar konan fer að gá að,

sýnist henni ekki betur, en að það sje vinkona sín og leiði hún mann sinn sáluga við hönd sjer Þegar þau eru komin inn á mitt gólf, lýtur konan að manninum og segir í hálfum hljóðum: »Hún sefur!« Svo beygir hún sig ofan yfir rúmið og kyssir á höndina á konunni í rúminu, en sá koss var svo kaldur, að hana hryllti við. Síðan hurfu hjónin. — Konan sagði frá sýn þessari um morguninn og bætti við, að nú væri vinkona sín líklegast dáin og hefði komið að kveðja sig, enda varð sú raunin á. Á. H.

---

## Niðursöguð bein úr kussu.

(Sögn Helga Jónssonar á Grænavatni).

Einu sinni var karl og kerling, sem bjuggu í koti nálægt kongsríki; þau áttu sjer eina kú. Einn dag sem optar fór karl út á skóg að höggva við, en kerling var heima; rölti hún þá út í fjós til kussu og settist þar með prjóna sína og harðan fisk, sem hún var að tögla. Kýrin lá og var að jórtra, en þegar kerling tekur eptir því, segir hún: »Ertu að

herma eptir mjer bölvuð« og rak í hana fótinn, en kussa hjelt áfram að japla eptir sem áður; og þegar kerling sjer það, reiðist hún enn meira og segir: »Þú skalt fá það borgað bölvuð, að herma eptir mjer!« Sækir hún þá stóra sleggju og rotar kúna. Þegar karl kemur heim um kvöldið og finnur kúna dauða, verður hann fokvondur og spyr hverju það sæti, að kýrin sje dauð, en kerling svarar því, að hún hafi ekki þolað að sjá hana vera að herma eptir sjer, og þess vegna barið hana með sleggjunni. Karl sjer, að það muni ekki vera til neins að fást um orðinn hlut; gjörir hann nú kúnni til góða og hengir kjötið upp í hjall. Daginn eptir þegar hann fer út á skóginn, segir hann kerlingu að hún verði að gá að kjötinu; hún kveðst skuli gjöra það og sezt með prjóna sína út undir hjallvegginn. Litlu síðar, en hún er þangað kominn, sjer hún að kemur stór hrafnahópur og sezt á hjallinn og fer að rífa í sig kjötið; segir þá kerling við sjálfa sig: »O, ekki get jeg fengið af mjer að reka burtu þessar blessaðar svörtu sálir, sem koma frá himnum að fá sjer matarbita.« Þegar svo karl kemur heim um kvöldið, eru krummar búnir að kroppa í sig allt kjötið og ekki eptir nema beinin ber. Verður hann nú afarreiður og spyr, hvernig

á þessu standi, en hún biður hann að minnast nú ekki á það, hún hafi ómögulega getað fengið af sjer að reka burtu blessaðar svörtu sálirnar, sem hafi komið ofan af himnum til að fá sjer næringu. En karli rennur ekki reiðin við það; hótar hann kerlingu öllu illu nema hún fari þegar í gullhúsið kongsins og færi sjer þaðan fullan poka af gulli; og verður það úr að hún lofar því og sækir gullið um nóttina, og ber ekki neitt á neinu. Litlu síðar verður kongur þess var, að stolið hefir verið úr gullhúsinu, en enginn veit, hver gjört hefir. Stefnir hann nú til þings um allt sitt ríki og ætlar á þann hátt að komast fyrir, hver stolið hafi gullinu. Karl býr sig sem aðrir til þingfarar, en er kerling verður þess vör, vill hún endilega fara líka, en karl tekur þvert fyrir það, og segir hún eigi þangað ekkert erindi, og muni hún þar tala það eitt er verst gegni, en hún vill fara eugu að síður, og þegar karl sjer, að ekki tjáir að letja hana, tekur hann hana og bindur við stoð í bæjardyrum og fer svo leiðar sinnar á þingið. Er kongur þar fyrir og fjöldi manna. Lætur kongur nú spyrja hvern mann, hvort hann viti eigi, hver stolið hafi gullinu sínu; og er karl er spurður að því, veit hann það ekki frekar en aðrir. En er áleið þingið,

kemur kerling þar og er með stoðina á bakinu; kallar hún til kongs og segist geta sagt honum hver stolið hafi gullinu. Kongur lætur þá kalla hana fyrir sig. Hún segir að karlinn sinn hafi látið sig gjöra það, en karl þrætir harðlega fyrir og segir það haugalygi, en kerling segir það sje satt; hann geymi pokann með gullinu í undir rúmi sínu.

Sendir nú kongur nokkra af mönnum sínum, að leita eptir gullinu, og fer allt eins og kerling sagði; þeir finna pokann undir rúmi karls og koma með hann á þingið. Lætur kongur leysa frá honum og hella úr honum; bregður honum þá heldur en ekki í brún, því í staðinn fyrir gull, voru í pokanum eintóm niðursöguð bein; beinin úr kussu. Verður hann nú fokreiður við kerlingu og þykir hún hafa gabbað sig; lætur hann nú binda aptur á hana stoðina og reka hana svo af þinginu. Karlinn var horfinn og fannst hvergi, en kongur sat eptir á þinginu með beinahrúgu í staðinn fyrir gull. Og lúkum vjer svo þessari sögu.

---

# Aptansöngur á Hofi.

(Eptir hdr. Kr. realstud. Guðnasonar.)

Það var einhverju sinni endur fyrir löngu að aptansöngur var haldinn á Hofi í Vopnafirði á gamlárskvöld. Ekki er þess getið, hvað presturinn hjet, en húsfreyja hjet Ragnheiður, kvennskörungur mikill. Hún gekk um beina um kvöldið og sinnti gestum sem sóttu aptansönginn víðs vegar úr sveitinni.

Eitt sinn um kvöldið, þegar allt fólk var komið í kirkju, gekk hún út á hlað; veður var heiðbjart með tunglsljósi og frosti, og blakti ekki hár á höfði. Heyrir hún þá hófadyn og beizlaglam skammt í burtu, og skömmu seinna kemur flokkur manna ríðandi upp úr gilskarðinu suður og niður af túninu. Skiptist þá flokkurinn og ríður aðalhópurinn út fyrir neðan túnið, en tvær stúlkur koma heim. Húsfreyju þykir það kynlegt að hún hefur aldrei fyr sjeð konur þessar. Sjer hún þegar, að þær eru hvergi þaðan úr sveitinni; hún gengur samt á móti þeim og heilsar þeim að fyrra bragði, og spyr, hvaðan þær sjeu og hvað þær heiti. Þær tóku kveðju hennar að eins, en vildu engu svara til nafn síns, nje hvaðan þær væru. Húsfreyju þykir þetta undarlegt, en

býður þeim samt mjólk að drekka, er hún sjer að þær ætla ekki að standa við; og þiggja þær það. Síðan sækir hún inn mjólk og færir þeim út, en þær taka við og drekka. Fer hún nú að athuga konur þessar nákvæmar; eru þær báðar vænlegar og vel á sig komnar að öllu; hefur önnur gullhring stóran á hendi og er ýmist að færa hann upp eða niður eptir fingrinum, en hvorug mælir orð frá vörum að fyrra bragði og svara stutt spurningum hennar öllum. Loks sárnar húsfreyju, svo að hún segir með þykkju, að sjer þyki það undarlegir gestir, sem vilji ekki svara hógværum spurningum nje segja til nafns síns. Þá þrífur sú konan, sem áður er getið, hringinn af hendi sjer og kastar honum langt í burt, vindur sjer síðan í söðulinn og segir með þjósti:

»Freygerður heiti jeg, forvitin mín,
en frjettirnar koma að ári!«

Voru þær að vörmu spori horfnar út fyrir tún og spurðist aldrei til þeirra síðan. Höfðu menn það fyrir satt, að þetta hefðu verið huldukonur, og mundi allur sá hópur, sem hjá reið, hafa verið huldufólk og ætlað að sækja tíðir út í klappirnar þar skammt fyrir utan. Svar álfkonunnar þótti rætast, því árið eptir voru þær frjettir á hvers manns

tungu, sem hjer voru fáheyrðar, að fjandmanna her var kominn við land. Það voru Tyrkir, er rændu Vestmanneyjar og Austfjörðu árið 1627.

---

## Sigmundur í Flögu.

(Hdr. Halldórs búfr. Bjarnasonar frá Viðfirði).

Snemma á 19. öld bjó bóndi sá að Flögu í Skriðdal, er Sigmundur Ásmundsson hjet. Hann var að mörgu leyti einkennilegur maður, alla jafna alvarlegur í bragði, fámáll og hastur í svörum, en þó mesti gæðakarl. Það var mál manna að fátt kæmi Sigmundi bónda á óvart, væri hann bæði skyggn og fjarsýnn. Hann var einyrki og barnamaður. Kona hans hjet Ragnhildur Sigmundsdóttir, systir Guðmundar gullsmiðs í Geitdal, Sigmundar bónda á Skjögrastöðum og Sigurðar, er þar var vinnumaður hjá bróður sínum. Sigurður þessi þótti hálfgerður vesalingur, en þó með fullum mjalla; vann hann flesta vinnu, er fyrir kom, en var þó einkum hafður við tjósaverk

og önnur óvönduð störf, er svo þóttu í þá tíð.

Einn dag á útmánuðum var Sigurði lofað að fara austur að Flögu í kynnisför til systur sinnar. Bæirnir Skjögrastaðir og Flaga standast á sinn hvorum megin við fjallið, og er þar um heiði að fara, er Buðlungavallaheiði kallast; er hún stutt yfirferðar og greiðfær. Veður var bjart og bezta færð, en þó föl á jörðu, svo að vel var sporrækt. Sigurður hugsar sjer því að vera fljótur í förum. Þegar hann kemur á heiðina, sjer hann, hvar kvennmaður fer á undan honum. Hann greikkar þá sporið og vill verða stúlkunni samferða. En henni var ekki auðnáð. Segir nú ekki af viðskiptum þeirra að sinni.

Þennan sama morgun, er Sigurður lagði á Buðlungavallaheiði, var Sigmundur bóndi í Flögu við hús að hirða gripi sína. Síðan kemur hann inn, tekur mat sinn af hyllu, sezt á rúm sitt og snæðir; að því búnu hallar hann sjer aptur á bak á rúmið, og vissi kona hans eigi, hvort hann sofnaði. Allt í einu stekkur hann upp og segir: »Skárri er það skrattans rataskapurinn í honum Sigga núna!« »Hvaða Sigga?« segir húsfreyja. »En honum Sigurði bróður þínum! Þarna anar hann inn allan Hraungarð í stað þess að halda austur heiðina. Hver veit nema hann setji inn á Horn-

brynju og drepi sig.« Hann sendir nú elzta drenginn norður á Skjögrastaði til þess að vita, hvort Sigurður sje heima. En er piltur-inn er nýfarinn, tekur Sigmundur enn viðbragð og segir að þetta dugi ekki, það megi til að fara og reyna að elta karlinn. Hleypur nú Sigmundur á stað, því að hann var röskleika maður, og inn að Geitdal; segir við Guðmund mág sinn, að ráðlegast muni að ná í hann Sigga áður en hann drepi sig. Guðmundur vissi ekki við hvað hann átti og hjelt helzt að hann væri ekki með sjálfum sjer er hann fór svo geystur. En Sigurður hýrnaði lítið í hamsi er mágur hans stóð og glápti; kvað hjer ekki stoða bið og margmælgi, annaðhvort yrði hann að koma sjálfur eða senda mann með sjer undir eins inn á afrjetti að ná í karlinn. Þó Guðmundi væri nær að halda að þetta væri eitthvert sjerviskuæði úr mági sínum, þá ljet hann þó mann fara með honum. Þegar þeir eru komnir inn undir Fossárfell, stefna þeir norður á fjall og skyggnast eptir slóð. Norður í Hraungarði finna þeir ný för, og þykist Sigmundur þekkja þar för Sigurðar. Þeir rekja nú slóðina, þar til er þeir sjá til Sigurðar; er hann þá kominn nær því inn á Hornbrynju. Herða þeir Sigmundur nú hlaupin og ná karli eptir langa

mæðu. Sigmundur er illur við hann og spyr, hvern fjandann hann sje að aulast inn á öræfi. Sigurður kveðst vera að halda austur heiðina; þó þyki sjer hún undarlega löng; eflaust muni hann þó vera á rjettri leið, því að kvennmaður hafi allt af gengið æðispöl á undan sjer. »Þá skaltu vita að þú ert nú staddur á Geitdalsafrjettum, og muntu naumast gista í Flögu í nótt; hefur nú Dísa fylgja þín ætlað að gjöra þjer dálaglegan greiða.« Síðan sneru þeir við og náðu með naumindum háttum að Geitdal um kvöldið. Allir þökkuðu það skarpskyggni og dugnaði Sigmundar að Sigurður komst lífs af úr þessari ferð.

---

Fleiri eru sögur um skyggnigáfu Sigmundar. Eitt kvöld snemma vetrar var hann að vitja hesta niður við Bergshyl í Geitdalsá, litlu ofar en Múlá rennur í hana. Þegar hann var kominn heim aptur og hafði setið um stund á rúmi sínu, segir hann upp úr eins manns hljóði: »Bráðum drukknar einhver í honum Bergshyl!« Kona hans spyr, hvað hann hafi fyrir sjer í því, en það var eins og vant var; hann vildi ekkert segja. Þrem vikum síðar var Þorkell nokkur Eyjólfsson á Borg í Skriðdal sendur af föður sínum út á

Norðurbyggð og drukknaði hann í þeirri ferð. Föl lá á jörðu og röktu menn spor hans að vök á Bergshyl. Frost hafði verið mikið um nóttina og undanfarin dægur; var því þykkur ís á ánni. Leitarmenn hjuggu víða göt á ísinn fyrir neðan vökina, því að líklegast þótti, þótt nokkur hringiða væri í hylnum, að líkið hefði hrakið niður eptir ánni. En svo gekk leitin í tvo daga, að ekkert fannst. Þá fóru leitarmenn loks að ráðum Sigmundar í Flögu, er jafnan hafði sagt að þeir leituðu of neðarlega, og hjuggu eptir fyrirsögn hans göt á ísinn miklu ofar en líkindi þóttu til að líkið hefði getað borizt. En ekki höfðu þeir höggvið nema tvö göt er þeir slæddu þar upp lík Þorkels.

---

## Framliðinn segir til sín.

(Hdr. Halldórs búfr. Bjarnasonar frá Viðfirði).

Snjólfur og Ásdís hjetu hjón í Skriðdal. Á efri árum brugðu þau búskap og fóru í vinnumennsku, Snjólfur að Haugum en Ásdís

að Flögu. Yngsta barn þeirra var í dvöl austur í Breiðdal. Eitt sinn um vetur í hreinviðri og góðri færð, er Ásdís fór austur í kynnisför, fylgdi Snjólfur henni yfir heiðina og skildu þau glöð og heilbrigð í svonefndri Þröng, Breiðdalsmegin. Ásdís kom um kvöldið heil á húfi þangað, er ferðinni var heitið. En öðru vísi fór um Snjólf.

Það þótti mönnum kynlegt í Haugum að Snjólfur kom ekki heim um kvöldið að hirða skepnur, sem vandi hans var til; og svo leið af nóttin, að ekki bólaði á honum. Var þess þá til getið að hann mundi hafa brugðið sjer alla leið til Breiðdals. Um miðjan dag var hann enn ókominn, og með því að hann var dugnaðar- og trúleiksmaður, en veður gott, þá ræður húsbóndi hans það af að fá menn til að leita hans. En svo búnir komu þeir aptur; hafði einn þeirra þó farið alla leið austur í Breiðdal og haft sagnir af Ásdísi. Var nú safnað mönnum úr byggðinni og leitinni haldið fram 5 daga samfleytt. En þótt hver blettur, þar sem líklegt þótti að leið Snjólfs hefði legið um, væri vandlega kannaður, fundust hans engin örmol.

Í þann tíma bjuggu að Hallbjarnarstöðum Bjarni Ásmundsson og Guðný Árnadóttir, móðursystir Jónasar skólastjóra á Eiðum.

Guðný var gáfuð kona og skáldmælt vel. Maður hennar hafði verið með í leitinni og var hann mjög mótlættur yfir, að ekki skyldi heppnast að finna lík Snjólfs, því að þeir voru góðkunningjar. Voru þau hjón að ræða um þetta um kvöldið, er leitinni var hætt, þar til þau fóru að sofa. Um nóttina dreymir Guðnýu að þau eru að tala um þetta sín á milli; þykir henni þá maður koma á gluggann; sá tók undir mál þeirra og segir auðvelt að finna Snjólf. Síðan kveður hann vísu:

»Öðrum megin á henni
Er hann þeygi faldur.
Á fornum vegi frá henni
Finnst hann veginn kaldur.«

Guðný vaknar við drauminn, og er þá kominn dagur. Hún spyr Bjarna, hvort nokkur vegur liggi af heiðinni annar en sá, er nú sje farinn. Hann kveður svo vera. Hún segir honum þá draum sinn, og biður hann fá sjer mann og leita á gamla veginum, þar sem hann taki sig upp frá heiðinni. Bjarni gjörir svo, og áður en miður dagur var, komu þeir með lík Snjólfs að Haugum. Höfðu þeir fundið hann þar, er Guðný vísaði til eptir draumnum; lá hann þar í götuskorningi með aðra höndina undir enninu upp á bakkann. Daginn eptir að líkið fannst var komin hríðarbylur.

